# Nýársgjöf

handa

# Börnum.

# Nýársgjöf

handa

# Börnum

frá

**Jóhanni Halldórssyni.**

---

Prentuð hjá S. L. Møller
í Kaupmannahöfn.

1841.

Börn mín góð! það er øll von til að ykkur sé farið að leiðast eptir Nýársgjöfinni, er eg hét ykkur í hitt ið fyrra, því þegar eg var lítill eins og þið, þá var eg bráðlátur og vildi fá það fyrr enn seinna, sem eg hélt, eg mundi hafa gaman af. Þá kom mér ekki til hugar, að nokkur hlutur gæti tálmað uppfyllíngu óskar minnar, en nú þegar eg er orðinn eldri og reyndari, sé eg að mart kann að bera til þess, að við fáum ekki framkvæmt, það er við viljum. Eg vil nú ekki minnast á, hversu lítið børnin hugsa um það, að peníngarnir eru afl þeirra hluta, sem gjöra skal, og þó hefir einmitt skorturinn á þeim verið þess ollandi, að eg hefi eigi getað efnt heit mitt fyrr enn núna. En ef einstakir landa vorra, hérna að segja, hefðu ekki skilið „Jólagjøf" beinlínis eptir orðinu og ekki gleymt því, að æ lítur gjøf til gjalda, þá fengjuð þið núna frá mér ofur fallega søgu með skritilegum uppdráttum, en þareð eg verð að binda enda á loforð mitt og senda ykkur fyrst Nýársgjøfina, þá verður þessi saga að bíða annars tíma.

Seinustu søguna í hveri þessu hefi eg látið prenta með latínuletri, til þess ykkur børnunum gæfist kostur á að læra að lesa það, en sá er ekki læs sem ekki kann það. Eg vona nú, að þið skiljið hana ekki eptir ólesna, því vera má, hún sé fallegasta sagan í øllu kverinu og hin eptirtektaverðasta fyrir børn og

foreldra. Hvad stafrofinu vidvíkur, þá er því svo háttad, ad þid getid tekid þad úr kverinu, límt þad á spjald og látid þad standa skáhallt fyrir ykkur á bordinu medan þid lærid ad skrifa. Fljótaskriftin er eingan vegin svo lídug sem eg vilda, og hafa stafirnir stirdnad nokkud í höndum stúngumannsins þared hann var lítt vanur ad stínga þessconar letur, samt eru þeir myndadir eptir stødugri reglu, er eg vona ad verdi einkunn handar ykkar þegar þid erud ordin fim ad skrifa. Þared nú stafrofid er eigi svo vel um vandad, ad mér líki þad yfirhøfud, og þared nýd med broddinum yfir vantar í snarhøndina, er stúngumadurinn gleymdi, þá verd eg ad bidja ykkur ad taka viljann fyrir verkid og gjøra ykkur ánægd med þad, þartil þid fáid annad betra.

Af því nokkrum af løndum mínum þótti smátt letrid á „Jólagjøfinni," þá hefi eg nú látid prenta kver þetta med stærra stýl til þess þid getid lesid þó skjárinn ykkar sé eigi ætíd sem glærastur. Løkustu prentvillurnar verd eg ad bidja fedur ykkar gjøra svo vel ad leidrétta og taka ekki hart á mér fyrir sakir vangeymslu minnar, en hinar lítilvægari munu tæplega standa ykkur fyrir framførum þá er þid lærid ad lesa.



## 1.

# Litli bróðirinn.

Svo bar til einn dag að Jóhanna litla hafði farið snemma á fætur til at tína blómstur úti á túni svo hún gæti fært móður sinni blómkersi á sængina. Í því bili er hún gekk ofan baðstofustigann, kom faðir hennar brosandi á móti henni, tók hana í fáng sér, og mælti: Guð gefi þér góðan dag, Jóhanna mín! komdu snöggvast með mér, eg ætla að sýna þér nokkuð, það mun eflaust gleðja þig.

Jóhanna:

Hvað er það, pápi minn?

Faðirinn:

Í nótt hefir Guð sendt þér gjöf nokkra það er dálitill bróðir.

Jóhanna:

Dálitill bródir! so! hvar er hann? lof mér ad sjá hann, pápi minn gódur!

Fadir hennar lauk upp húsinu, þar sem módir hennar lá á sæng. Hjá rúminu sat ókend kona, er Jóhanna hafdi eigi séd ádur; hún vafdi reifum nýfædda barnid. Jóhanna setti nú óteljandi spurníngar fyrir fødur sinn, er hann leysti úr sem best hann kunni, og þótti þegar nóg komid; en Jóhanna hélt áfram og spurdi hann á þessa leid:

Pápi minn! hvada kona er ad tarna? ad sjá hvernig hún hampar honum bródur minum! ert' ekki hræddur um, hún meidi hann?

Fadirinn:

Fjarri fer því, vertu óhrædd! þad er væn stúlka, eg hefi vistad hana hjá mér til ad fóstra dreinginn.

Jóhanna:

A hún mamma min hann? hefir hún séd hann?

Fadirinn:

Já, dóttir gód. Þykir þér vænt um hann?

Jóhanna:

Já! óvenju vænt, pápi minn! Þar hefir mamma mín gefid mér gódan leikbródur En hvad hann er skrítinn í framan! Hann er allur raudur eins og hann hefdi verid á hlaupum. Pápi minn, má hann leika sér vid mig?

Fadirinn:

Þess er eingi kostur, því hann getur eigi stadid á fótunum. Sérdu eigi hversu þeir eru óstyrkvir?

Jóhanna:

O, en litlu fæturnir! Það verdur undur lángt þángad til vid getum hlaupid saman og leikid okkur.

Fadirinn:

Vertu þolinmód, barnid gott! fyrst verdur hann ad læra ad gánga, og sídan getid þid hoppad og leikid ykkur úti á túni.

Jóhanna:

Er þad satt? aumingja únginn minn! eg verd ad gefa þér eitthvad svo þér verdi vel

við mig. Eptir á að hyggja, eg á hérna fallegan hörpudisk, taktu við! Pápi minn! hvað er þetta? heimskinginn vill ekki taka á móti honum, hann bærir ekki hendurnar.

Faðirinn:

Hann veit eigi ennþá, hvað hann á að gjöra við hörpudiskinn þinn, við verðum að bíða þess nokkra stund enn.

Jóhanna:

Bróðir minn góður, eg skal gefa þér öll gullin mín! hlakkarðu ekki til? — svaraðu mér þó! — hann brosir; segðu Jóhanna! Jóhanna! því vilt' ekki tala?

Faðirinn:

Hann talar eigi fyrr enn hann er kominn á annan vetur. Þú mátt ekki ónáða hana móður þína með mælginni úr þér.

Jóhanna:

Æ! pápi minn, sko' hvað hann grettir sig, hann grætur, það er auðséð, hann er svángur. Vertu þolinmóður bróðir minn, eg skal gefa þér brauðbita!

Fadirinn:

Verdu eingan kvídboga fyrir honum, honum eru eigi varnar tennur ennþá; hvernig á hann þá ad geta tuggid?

Jóhanna:

Getur hann ekki tuggid! á hverju lifir hann þá? deyr hann þá ekki?

Fadirinn:

Nei, dóttir gód! Gud hefir látid mjólk i brjóst módur þinnar til fædu handa bródur þínum. Hann er mjøg máttlitill ennþá, en ad nokkrum tíma lidnum muntu sjá hann velta sér i vøggunni eins og dálitid lamb.

Jóhanna:

Æ, hvad mér leidist ad sjá hann leingi si sona! pápi minn, sko' litla høfudid, eg voga ekki ad snerta þad.

Fadirinn:

Þú mátt drepa á þad einum fingri, en fardu óvenju hægt.

Jóhanna:

O! eg skal fara hægt. Nei! en hvad þad er mjúkt, oldúngis eins og silki!

Fadirinn:

Svona eru höfud úngbarnanna.

Jóhanna:

Ef hann dytti, þá brotnadi hann i smá-
mola.

Fadirinn:

Hann mundi slasast, en vid gætum hans svo vandlega, ad hann getur eigi dottid. Manstu, Jóhanna, ad 4 ár eru lidin sídan þú varst svona litil?

Jóhanna:

Eg, hef' eg nokkurntíma verid si svona? þú ert at gera ad ganni þinu, pápi minn:

Fadirinn:

Nei, nei, þad er satt sem eg segi.

Jóhanna:

Eg man þó ekki eptir því.

Fadirinn:

Því get eg dável trúad. Manstu hvenær eg smídadi vagguna þá arna?

Jóhanna:

Nei, pápi minn, eg man þad ekki.

Fadirinn:

Þetta grunadi mig; eg bjó hana til fyrir augunum á þér, þegar þú varst mánadargømul.

Jóhanna:

Eg hef' þá ekki tekid eptir því.

Fadirinn:

Ungbørnin gefa eigi gaum ad því, sem gjørist í kríngum þau. Þegar bródir þinn er kominn á þinn aldur, getur þú spurt hann, hvort hann muni hvenær þú hafir viljad kenna honum ad nefna nafn þitt; þú munt komast ad raun um, ad hann man þad ekki.

Jóhanna:

Hef' eg þá líka drukkid mjólk úr brjóstunum hennar mømmu minnar?

Fadirinn:

Þad máttu hafa fyrir víst! ef þú vissir hve mikla armædu hún hefir haft fyrir þér! Þú varst svo sjúk, ad þú gatst eingum hlut komid nidur; vid vorum á glódum, ad líf þitt mundi þá og þegar slokkna; módur þinni vard einatt ad ordi: „vesælings Jóhanna mín, eg

vildi þú yrdir eigi sjúk;" hún hafdi ósegjanlega mikid fyrir þér þegar hún lét þig sjúga mjólkina úr brjóstum sér.

Jóhanna:

O! mamma mín góđ, þú hefir þá kennt mér ađ bera mig eptir bjorginni.

Fađirinn:

Já, barniđ mitt, og þegar hún var búin ađ kenna þér þađ, gjorđist þú kát, feit og þrifleg. Stundum þegar móđir þín var orđin þreytt og sætur svefn hafđi sigrađ hana, þá vaktir þú hana međ hljóđum þínum; optlega varđ hún ađ fara upp úr volgu rúminu til ađ vokva þig og vagga þér. Þú fær eigi gjort þér í hugarlund fyrr enn þú sjálf verđur móđir, hversu mikla umhyggju hún bar fyrir þér 2 fyrstu árin æfi þinnar. Hún lét ađ þér á allar lundir, klappađi þér og kysti þig og mælti: þú munt vera þyrst núna, Jóka mín! og bauđ hún þér þá brjóstin sín.

Jóhanna:

Var þá hofuđiđ á mér einslítiđ og á honum bróđur mínum?

Fadirinn:

Já! barnid mitt.

Jóhanna:

Eg, sem hef' núna svo stórt höfud! eg hefdi þá getad marid í sundur á mér litla höfudid.

Fadirinn:

Vid höfdum jafnan á þér vakanda auga. Módir þín gat eigi farid til kirkju um lángan tíma, því hún þordi eigi ad sjá af þér; þegar hún var önnum kafin og vard ad gæta búverkanna, hlaut hún ad fela þig ödrum á hendur, en þá var hún ætíd á glódum um þig. „Blessud Kristín mín," sagdi hún vid fóstru þína, hafdu gát á henni Jóhönnu litlu eins og hún væri barnid þitt; og margan gódan bita gaf hún henni til ad gæta þín vandlega.

Jóhanna:

O! hvad hún mamma mín hefir verid gód vid mig. Pápi minn, hef' eg nokkurntíma ekki getad hlaupid? eg hleyp so vel núna, sko', eg er alltieinu komin fram ad dyrum! Hverr hefir kennt mér ad hlaupa?

Fadirinn:

Við móðir þín! Við vøfðum silkiklút um høfuð þér svo þú skyldir eigi meiða þig ef þú kynnir að detta; við høfðum þig í bandi til að styðja þig, og jafnan fórum við með þig út á hlaðvarpann, þar stóðum við spølkorn hvort frá øðru og létum þig vera mitt á millum okkar; við réttum út hendurnar til að bjóða þér að koma ýmist til mín eður til móður þinnar; en hversu litið sem þér skjátlaðist, skelfdumst við. Á þenna hátt høfum við kennt þér að gánga.

Jóhanna:

Mér hefir aldrei komið til hugar, að þið hafið haft svona mikið fyrir mér; hafið þið líka kennt mér að tala?

Fadirinn:

Það máttu vera viss um. Eg setti þig einatt á kné mér og hafði upp fyrir þér orð þessi: „babbi," „pápi" og „mamma" þartil þú gatst hermt þau eptir mér. Á líkan hátt høfum við kennt þér øll þau orð, er þú kannt núna; líka máttu muna, að við høfum kennt þér að lesa.

Jóhanna:

O! eg man þad óvenju vel. Þid settud mig á bordid millum ykkar og gáfud mér kri'-egg, sem ykkur voru færd, þegar eg gat nefnt þau. O! þad var gaman.

Fadirinn:

Ef vid hefdum eigi borid slíka umhyggju fyrir þér, og eigi skipt okkur af þér, hvad mundi þá hafa ordid úr þér?

Jóhanna:

Eg væri fyrir laungu daud. O, hvad þid erud gód vid mig, fadir minn og módir min!

Fadirinn:

Samt hefir þú á stundum verid óþekk og óhlýdin vid foreldra þína.

Jóhanna:

Eg skal aldrei framar vera óhlýdin; eg hefi ekki vitad hvad gott þid hafid gjørt mér.

Fadirinn:

Gefdu nú gætur ad allri þeirri umhyggju, er vid framvegis berum fyrir bródur þínum,

og segðu svo við sjálfa þig: svona mikla mæðu og andstreymi hefi eg einnig bakað foreldrum mínum.

Af viðræðum þessum gjörðist Jóhanna gagntekin af ást til foreldra sinna, og þegar hún sá hvemikla nærgætni og umhyggju móðir hennar lét í ljósi fyrir bróður hennar, alla þá órósemi og óánægju, er þjáði hana þegar hann var sjúkur, alla þá þolinmæði, er hún varð við að hafa þegar hún mataði hann, hversu hún stóð á nálum þegar hún heyrði hann hljóða, með hvílíkri ást og viðkvæmni faðir hennar létti undir með móður hennar, hversu þau skiptust á, þegar annað þeirra var orðið þreytt, að kenna barninu að tala og gánga — þá sagði hún við sjálfa sig: ástúðlegu foreldrarnir mínir hafa orðið að stjana svona mikið undir mig. Þessar hugleiðingar innrættu henni svo mikla ást og þakklátsemi til foreldra sinna, að hún hélt dyggilega heit það, er hún hafði gjört föður sínum: **„aldrei að styggja foreldra sína viljandi."**



## 2.

# Titlingshreiðrið.

Sæmundur litli fann einn dag titlingshreiður í baðstofuveggnum. Hann hljóp undir eins til systra sinna og sagði þeim frá fundinum; en að því búnu hlupu börnin öll saman, hvert sem betur mátti til að ná úngunum.

Þeim kom þá ásamt um, að bíða þartil úngunum væri varið fiður, og að Sæmundur skyldi reisa upp við vegginn stiga, er systur hans skyldi styðja meðan hann seildist upp í hreiðrið. Þegar þau héldu að úngunum væri varið nægilegt fiður, tóku þau að framkvæma áform sitt, og tókst þeim það dável.

Í hreiðrinu voru úngar 3, smáir mjög. Faðir þeirra og móðir ráku upp kveinstafi er þau sáu, að þau voru svipt börnum sínum, sem þau hofðu haft svo mikið fyrir að fæða; en Sæmundur og systur hans voru svo frá sér numin af gleði, að þau gáfu kveinstofum fuglanna eingann gaum.

Í fyrstu voru þau í vandræðum hvernig fara ætti með fángana. Alfhildur hét hin ýngri systir, hún var blíðlynd mjøg og brjóstgóð; hún réði til að láta úngana vera kyrra í hreiðrinu, og kvaðst mundi ala onn fyrir fæði handa þeim á degi hverjum; hún taldi um fyrir bróður sínum og systur, og leiddi þeim fyrir sjónir hve mikla skemtan þau mundu hafa af kvaki fugla þessara þegar þeir væru orðnir stórir.

Sæmundur eyddi tillogum Alfhildar, og kvað það miklu betra, að reita þá lifandi, og meira gaman að sjá þá oldúngis snoðna hoppa á túninu, enn að loka þá inn í fuglabúr.

Valborg, er var þeirra elzt, studdi tillogur Alfhildar, en Sæmundur var stæltur og óstýrilátur og vildi hafa sitt framm. Loksins þegar smáu stúlkurnar komust að raun um, að bróðir þeirra vildi eigi undan láta, og að hann hvort sem væri, gæti farið með úngana eptir vild sinni, þá játtu þær ollu, er hann vildi vera láta. Hann beið heldur ekki jáyrðis þeirra, hann var þegar búinn að reita fiðrið af einum. Sjáið nú, sagði hann, einn afklæddan, og í sama bili varp hann únganum á hlaðið. Á svipstundu voru smáu fuglarnir sviptir fiðr-

inn sínu, er varið hafði dag frá degi. Vesl-íngs úngarnir tístu aumkunarlega, þeir titruðu og skulfu og borðu væugjunum.

Sæmundur kendi eigi í brjósti um þá, heldur rak hann í þá fæturna til þess þeir skyldu gánga á framm, og þá er þeir steyptust kollhnýs, rak hann upp skellihlátur, en að lok-um tók einnig að skína í smáu tennurnar hvítu á systrum hans.

Meðan börnin höfðu sér að skemtan hroða-verk þetta, sáu þau hvar faðir þeirra kom álengdar. Þey! þey! sögðu þau, en hvert um sig stakk sínum únga í vasann og hlupu síðan burt sem fætur toguðu. Bitti nu! kallaði faðir þeirra, hvort ætlið þið að fara? komið híngað!

Þeim var nú nauðugur einn kostur að nema staðar, þau gengu hægt og hægt, blóð-rjóð í framan, á móti föður sínum, og þorðu ekki að líta upp.

Faðirinn:

Hvorsvegna flýið þið undan mér, þegar eg nálgast ykkur?

Sæmundur:

Vegna þess, við vorum að leika okkur.

Fadirinn:

Þid vitid sjálf, ad eg hefi ekki bannad ykkur skemtanir; mér þykir miklu heldur vænt um ad sjá liggja vel á ykkur.

Sæmundur:

Vid vorum hrædd um, ad þú mundir sneipa okkur.

Fadirinn:

Hefi eg þá nokkurntíma sneipt ykkur þegar þid hafid skemt ykkur á sidsamlegan hátt? Þid hafid gjört eitthvad ljótt, grunar mig. Hví haldid þid ollsaman höndunum i vösunum? Eg vil vita hvad þad er, sem þid haldid á, réttid upp hendurnar!

(Þau rétta þær upp, en í hverri hendi var reittur úngi.)

Fadirinn:

(komst vid af svo illri medferd á úngunum og mælti:)

Hverr hefir komid ykkur til ad fara svona med aumingja úngana?

Sæmundur:

Okkur þótti þad gaman, ad sjá þá botnveltast fidurlausa.

Fadirinn:

Þér þykir þá gaman ad sjá saklausar skepnur kvaldar og heyra kveinstafi þeirra?

Sæmundur:

Ekki þykir mér þad, en eg hugsadi, þeir mundu ekki finna til þótt eg reitti af þeim hýúnginn.

Fadirinn:

Gott og vel! komdu, eg skal koma þér úr skugga um þad.

(Hann reitir nokkur hár úr höfdi Sæmundar.)

Æ! Æ!

Fadirinn:

Finnst þér þad sárt?

Sæmundur:

Heldurdu þad sé ekki sárt, ad láta slita af sér hárid?

Fadirinn:

Þad voru ekki nema 10 eda 12 hár.

Sæmundur:

Þad var mikils til ofmikid.

Fadirinn:

Hvad mundi þér þá finnast ef allt hárid

væri reitt af þér? Veitstu nú hvaða sársauka það mundi olla þér? Sjáðu nú hve miklar þjáníngar þú hefir bakað aumíngja úngunum, sem ekkert mein hafa gjört þér. Og þið stúlkur litlu, sem eruð skapaðar með viðkvæmara hjarta enn karlmennirnir, þið hafið þolað þetta!

Báðar litlu stúlkurnar stóðu þegjandi; seinustu orð föður þeirra voru þeim nægileg ofanígjöf; þær settust niður á þúfu og grétu fögrum tárum.

— Faðir þeirra sá nú gløggt, að þær yðruðust yfirsjónar sinnar; komst hann þá við og ávítaði þær ekki framar. Sæmundi voknaði samt eigi um augu, hann leitaði við að afsaka sig þannig:

Mér kom eigi til hugar, að eg mundi meiða þá, þeir létu ekki af að tísta, vængjunum boðuðu þeir út allt eins og það hefði legið vel á þeim.

Faðirinn:

Þú kallar vein þeirra tíst, en hversvegna tístu þeir?

Sæmundur:

Að líkindum til að kalla á föður sinn og móður sína.

Fadirinn:

Án efa. Og þegar þau nú hefdu gengid á hljód únganna, hvad mundu þeir þá hafa viljad láta í ljósi er þeir bordu vængjunum?

Sæmundur:

Eg veit það ekki, vera má, ad þeir hafi viljad bidja þau ad koma sér til hjálpar.

Fadirinn:

Þú átt kollgátuna. Ef úngar þessir hefdu getad talad eins og vid, þá hefdirdu heyrt þá kalla: æ, fadir minn og módir mín, frelsid okkur, vid höfum verid svo óheppnir ad komast í klærnar á hardleiknum börnum, sem hafa reitt af okkur allt fidrid; okkur er svo kalt, vid eigum svo bágt, komid og vermid okkur og læknid, ella lídur upp af okkur öndin!

Nú var litlu stúlkunum nóg bodid, þær breiddu svunturnar fyrir andlit sér og grétu hástöfum. Það er þér ad kenna Sæmundur, sögdu þær, þú hefir spanad okkur til ad fremja þetta ódædi, okkur stód svo mikill stuggur af því.

Sæmundur fann nú fyrst til ysirsjónar sinnar eins og hún var í rauninni. Fadir hans var búinn ad hegna honum er hann hafdi

slitið nokkur hár úr höfði hans, og samvitskan lét hann heldur ekki fara á mis við sína hegníngu.

Sæmundur hafði eínganveginn framið strákapor þessi af harðýðgi, heldur einúngis af gáleysi. En upp frá þessum tíma varð hann vægari og vorkunsamari við allar skepnur, er máttu sér minna enn hann; hjarta hans hneigðist til velgjörðasemi og mannástar, er jafnan hafa lýst sér síðan í öllum hans athöfnum.



3.

## Stekkjarferðin.

Einn góðan veðurdag áttu þau Haldór og Helga að fara á stekkinn með föður sínum til að skoða fallegu lömbin, þá er þeim yrði stíað frá ánum. Faðir þeirra var í smiðju og hvesti á hverfisteini kutann sinn er hann ætlaði að marka með litlu lömbin; léku börnin sér á meðan

inni í badstofu og hlökkudu mjøg til ad fá ad fara á stekkinn. En af gáleysi velti **Haldór** um koll blekbittu er stód á bordinu ofaná bók, er fadir hans hafdi verid ad lesa. **Helga** sér þetta og sleikir blekid af bókinni, en medan hún heldur á bókinni og teygir út úr sér blekuga túnguna, kemur fadir þeirra og segir: „hefir þú skemt fyrir mér bókina, **Helga** litla? Nú skaltu ekki fá ad fara á stekkinn og sjá fallegu lømbin! Viltu nú sækja vøndinn á þig? Æ! fadir minn gódur reidstu mér ekki, sagdi **Helga** og tók í hønd fødur síns. Eg er ekki reidur, mælti fadir hennar, og ef eg hirti þig fyrir handædi þitt edur gáleysi, þá gjøri eg þad af ást til þín svo þú farir gætilega framvegis; en nú mun eg hegna þér einúngis med því, ad þú skalt sitja kyr heima, en **Haldór** litli skal mega leika sér ad litlu lømbunum í kvøld. **Helga** vard hljód vid og horfdi í gaupnir sér. **Haldór** gat nú eigi leingur tára bundist, hann hljóp til fødur síns og mælti: fadir minn gódur! hún **Helga** hefir ekki velt um koll bittunni, eg gjørdi þad med svipunni minni er eg ætladi ad reka med lømbin í kvøld; eg veifadi henni í kríngum mig og kom eg þá vid blekbittuna; þad er þá eg, sem á ad vera kyrr heima, en hún

systir mín fær að skoða lömbin á stekknum. Föður þeirra þótti nú svo vænt um hreinlyndi barna sinna og ást þá, er þau höfðu hvort á öðru, að hann tók þau bæði í fáng sér, kysti þau og mælti: þið eruð bæði væn börn, nú skuluð þið fá að fara á stekkinn í kvöld. Þegar á stekkinn var komið, valdi faðir þeirra úr öllum lömbunum 2 þau fallegustu, gaf sitt hverju barni og mælti: „nú á eg einga dýrmætari bók í eigu minni enn bókina með blekblettinum, því hún minnir mig á hreinlyndi ykkar og göfuglyndi; er eg nú vongóður um, að þið munið jafnan unna hvort öðru og verða vel þokkuð og virt meðal manna."



## 4.

## Guð sá þig, vonda barn!

Hún amma mín var von að segja okkur börnunum, þegar við vorum ekki stærri enn svo að við náðum henni upp til knjánna, skemtilegar

sögur í rökkrinu á kvöldin. Sögur þessar geymdu ætíð einhverja hugvekju, er laut að góðum siðum og ráðvöndu líferni. Hún sagði tíðum, við gætum undireins farið að læra að verða góð börn. Mér er það minnisstætt hversu skemtilegar sögur þessar voru; eg varð öldúngis utan við mig, eg gleymdi leikfaungum mínum, er mér að sönnu þótti ofur vænt um; eg gleymdi mat og drykk þótt matmáls tími væri kominn, því eg hafði hugann á öðru. Einusinni kvaðst amma mín skyldi segja mér og systur minni óvenju fallega sögu, þá fallegustu er hún kynni. Það var ætíð vandi hennar, þegar hún ætlaði að segja okkur sögu, að láta okkur vita, það væri sú skemtilegasta og snotrasta er hún kynni. Varla hafði hún mælt þetta áður við drógum kistla að rúminu hennar og settumst á þá; síðan héldum við höndunum í kjöltu okkar og hlustuðum á hvert orð, er hún sagði. Fyrst hóstaði amma mín, því hún þjáðist af hriglu fyrir brjóstinu, síðan snýtti hún sér, og þegar hún hafði lokið þessu, hóf hún söguna, brýndi roddina og mælti:

Það var einusinni dálítill dreingur, hann hefði getað verið skynsamari enn allir smádreingir ef hann hefði gjort sér far um það. Hann hét

Hugljúfi, því hann kom sér vel og allir menn höfðu ást á honum. Hann var ætíð hlýðinn og eptirlátur, þegar honum bauð svo við að horfa og las margar fallegar sögur; hann kunni margar fallegar sögur og gat sagt þær svo vel, að hann hélt voku fyrir vinnufólkinu á kvöldin. Þegar hann svo vildi það við hafa, var hann óþekkur eins og margir aðrir smádreingir, er eg þekki dável. En eg verð samt að segja honum það til hróss, þegar hann gjörði eitthvað, sem hann ekki átti að gjöra, varð honum það á af gáleysi. Það, sem hann lángaði til þá stundina, lét hann eigi sjálfráðan; hann kunni enn þá ekki að temja girndir sínar. Eg skal nú segja ykkur, börn mín góð, af honum sögu nokkra, en hún á að vera ykkur til viðvörunar. Takið nú vel eptir!

Einn dag þegar Hugljúfi var búinn að læra það sem honum hafði verið sett fyrir, hafði móðir hans leyft honum að leika sér úti í aldingarðinum, með því skilyrði að hann færi eigi út úr honum, og hafði hann lofað að hlýða móður sinni. En meðan hann hét móður sinni að fara ekki út úr garðinum, átti hann einga von á, að óvenju fallegt fiðrildi mundi heim sækja hann; það kom inní aldingarðinn rétt

á eptir honum til að leika sér með honum. Hugljúfi æpti af fögnuði þegar hann varð þess varr að fiðrildið hafði steypt sér ofan á höfuð honum. Að vormu spori flaug það frá honum og settist á laufblað á einu rósatré. Dreingurinn hleypur þángað — hann kemur, en — fiðrildið er þegar þotið 10 faðma frá honum. Hugljúfi hleypur, fiðrildið flýgur uns það hvílir sig á laufblaði einu. Dreingurinn var eigi óvanur slíkum eltingum, hann læðist áframm og heldur niðri sér andanum, lyptir upp hendinni, og missir eigi sjónar á enu fljúganda kvikindi, hann er nærri búinn að hramma það — hann heldur utan um laufið, en — fiðrildið er í háfa lopti. Nækalls fiðrildi! mælti Hugljúfi, heldurðu eg geti ekki handsamað þig? Fiðrildið settist nú á staung, sem stóð hjá brunni nokkrum í aldingarðinum. Hugljúfi þeitir yfir fiðrildið hattinum sínum í mestu bræði, en hatturinn lendti í brunninum, fylltist með vatn og sökk til botns. Einhverr hefði nú látið hérvið lenda, en litli dreingurinn var þegar orðinn afar reiður og hét að hætta eigi fyrr, enn hann hefði gjört útaf við aumingja fiðrildið. Það verður ætíð tími til að ná hattinum, þegar eg er búinn að hefna mín,

hugsaði hann með sjálfum sér. Fiðrildið, sem orðið var leitt á þessum eltíngaleikum, þandi út vængina og flaug án tafar út úr garðinum. Nú varð Huglјúfi öldúngis hamslaus, hann gleymdi banni móður sinnar hljóp út úr garðinum og veitti fiðrildinu eptirför. Eigi að heldur náði hann áformi sínu; en hann bar eigi ætíð vit til, einsog eg sagði ykkur áðan, að temja girnd sína. Fiðrildið fjarlægðist meir og meir, enn dreingurinn elti það uns hann kom að einum aldingarði miklum, er var umgirðtur með þirnividarhríslum; fiðrildið flaug inn, en Huglјúfi stóð svobúinn fyrir útan garðinn.

Nú þótti dreingnum ráðlegast að hverfa heim á leið aptur; en hvað verður — óheilla fiðrildið rekur sig á nefið á honum og suðar frammi fyrir honum allteins og það gjörði gis að honum; það flaug aptur inn fyrir girðínguna, flögraði hægt og hægt af einu blómi á annað og storkaði honum á allar lundir. Huglјúfi vildi ná því hvað sem það kostaði; hann sá ofurlitla glufu á girðíngunni, hún var svo mikil að hann gat skriðið inn um hana, því hann var ekki mikill verti. Hann stakk höfðinu ígegnum gatið og skygndist eptir hvert hann sæi

nokkurn mann í gardinum, og eptir 2 edur 3 atrennur komst hann inn um glufuna; hafdi hann þá rifid illilega brækur sínar. En núna tók fidrildid, er vera vildi í nádum, til vængjanna, og flaug lángt út í buskann svo eigi mátti eptir renna. Til allrar hamingju lét Hugljúfi slíkt tjón eigi lengi á sér festa; hann fór nú ad skima íkríngum sig; hann hafdi aldrei komid í aldingard nábúa síns, því nágranna hafdi eigi verid mikid gefid um, ad börn kæmu og skodudu perur hans og hin fögru aldin; þaradauk var heldur enn hitt kali ámilli födur Hugljúfs og gardeigandans

Vera má, ad einhverjum dreing, er hefdi verid svo heimskur ad skrída inn um raufina á girdíngunni, hefdi nú þótt rádlegast ad hverfa út um sama hlid aptur ef hann hefdi hugsad nokkud um, hvad hann gjördi. Hugljúfi skeitti eigi um ad hafa gát á gjördum sínum; þegar hann var kominn inní gard nágranna síns, héldt hann sig vera heima hjá sér; hann stikadi framm og aptur um aldingardinn eptir gedþekni. Hann leit eitt epli svo mikid og fagurt, ad hann hafdi aldrei séd þvílíkt. O! fallega eplid, æpti hann; hvad þad er fagurt ad líta og gott ad eta! O! hvad þad má vera

bragðgott! Og til þess betur að dáðst að þessum hinum mikla ávexti, settist hann flötum beinum fyrir framan eplið, og því lengur sem hann starði á það, þess meir lángaði hann til að smakka það.

Hyggið nú að, börn mín góð, og leiðið ykkur fyrir sjónir, hve hættulegt það er, að líta þann hlut girndar-augum, sem aðrir eiga. Getið þið ímyndað ykkur, að Hugljúfi litli, sem átti svo væna foreldra, er ætíð höfðu geingið á undan honum með góðu eptirdæmi og gefið honum mörg heilræði, girnist að taka hið fagra epli? — Jú, jú, börn mín, honum lék hugur á því — eg er nauðbeygð að nefna orðið, hann vildi — **stela** því. Eg er viss um það geingur yfir ykkur.

Hugljúfi seildist eptir eplinu. „Ef eg tek það," segir hann, „þá hefi eg nógu lángan tíma til að eta það áður eg kem heim til mín. Hvaða óðæði, að taka það sem aðrir eiga! hvað mundi verða sagt um mig? — Það er þó ekki nema eitt epli, og missir eigandans er ekki svo mikill." Svona mælti Óþokki með sjálfum sér. Heyrið nú, eg kalla hann eigi framar Hugljúf; því undir eins og maður breytir illa, fá allir óbeit á

manni. Gleymid þvi aldrei, er eg sagdi núna!

Þegar Oþokki var búinn ad hugsa sig um nógu leingi, tók hann eplid og héldt þvi i hendinni. Hjartad i honum bardist af ótta, og nærri lá, ad hann ydradist gjorda sinna, þvi i rauninni var hann eigi svo slæmur dreingur; hann fann til yfirsjónar sinnar, og eg verd ad segja þad, ef hann hefdi getad fest aptur eplid vid tréd, þá hefdi þann gjort þad; en af þvi þad var komid i lúkurnar á honum, lét hann þad renna nidur i vasa sinn, og vard honum þá ad ordi: „gott var ad eginn sá mig.“

„Gud sá þig, vonda barn!“ sagdi rodd nokkur, mjøg geigvænleg, er kom ofan úr háfa lopti. Veslings Oþokki skalf nú og titradi af hrædslu, hann horfdi i allar áttir til ad vita hvadan hin óttalega rodd hefdi komid; hann hefdi oltid um koll ef hann hefdi eigi séd mann nokkurn hlaupa til móts vid sig; hann flýtti sér nú sem fætur togudu út ad glufunni á girdingunni, en á leidinni leit hann aptur og sá hund mikinn renna med manninum, er hverki vildi meira né minna enn fótinn eda lærid undan honum (Oþokka). Til allrar óhamingju festi Oþokki fotin sin á girdingunni þegar

hann skreið á fjórum fótum út um gatið, en á meðan kom stóri hundurinn og beit af honum skóinn; og var það hin mesta heppni að Surtur, svo hét hundurinn, tók ekki fótinn með.

Nú var Oþokki kominn út fyrir girðinguna, han var búinn að ríka vasana frá brókum sínum, en skórinn hans hékk út úr kjapti hundsins. Á veginum heim til sín sá Oþokki manninn með mikla hundinn koma á móti sér, svo hann varð nú að snúa af réttri leið. Maðurinn og hundurinn, er eigi vildu missa af honum, tóku nú að elta hann; en allt í einu heyrði hann ena hræðilegu rödd, er honum þótti koma úr loptinu, segja: sækt' hann, sækt' hann Surtur, dragðu strákinn á eyrunum til foreldra sinna!

Þið megið nú nærri geta, hvert Oþokki seinkaði sér eður ekki þegar hann heyrði þetta; hann herdti á hlaupunum, en Surtur hinn grimmi var þegar í hælunum á honum. O, hvað hann iðraðist þess, að hafa gleymt boði móður sinnar og elt fiðrildið! O, hvað honum sárnaði að hafa stolið eplinu! — En til lítils er að saka sig um orðinn hlut. Maðurinn og hundurinn veittu honum eptirför; röddin hafði skipað að draga hann á eyrunum til

foreldra sinna. Mikil óskop! hvad ætladi ad verda úr honum? Eg kenni sárt í brjósti um hann. Sjáid nú, börn mín, hvad þad leidir af sér ad vera óhlýdinn. Gleymid því aldrei, og hyggid nú vel ad því, er eg ætla ad segja ykkur!

Ophokki kom nú ad skóg miklum, þar leitadi hann sér hælis í von um ad geta falid sig fyrir manninum og hundinum, er eltu hann. Madurinn nam fyrst stadar og þegar hundurinn sá þad, þá hægdi hann einnig á sér; en óttinn elti Ophokka lángan veg enn. Þegar Ophokki heyrdi eigi framar til neins, hætti hann einnig ad hlaupa og datt nidur af þreytu hjá eik nokkurri, gamalli; var hann þá nær dauda enn lífi. Þad leid nokkur tími ádur hann gat rísid aptur á fætur og hugsad um heimili sitt, en medan hann flatmagadi vid rætur eikarinnar, kom inn hjá honum beiskur kvídi: hann vissi ad hegníngin beid hans heima, og ad þjófsnafnid mundi loda vid hann þar til hann hefdi bætt rád sitt og yrdi aptur gódur dreingur. Hann var ekki med sjálfum sér útaf hinni kynlegu rödd, er honum þótti koma ofan úr himninum. Hvadan kom hún? Madurinn, sem elti hann, var nú of fjarlægur til

að láta hann heyra með eins mikilli háreysti og áður, orð þessi: Guð sá þig, vonda barn! Æ! já, mælti Oþokki grátandi, Guð hefir séð mig, hann straffar mig núna fyrir yfirsjón mína. Vera má hann hafi kallað til mín til að láta mig vita, það sé eigi einhlýtt að varast mennina þar hann sé allstaðar nálægur og viti heimuglegustu hugsanir mannanna. O! að eg gæti afmáð minningu yfirsjónar minnar, þá skyldi eg láta mín víti mér að varnaði verða og aldrei framar drýgja slíkan glæp; það er eigi tilvinnandi að láta hjartað kremjast undir annari eins byrði og þessari.

Börn mín! svona fallega hugsaði hann og talaði. Eg ætla nú ekki framar að kalla hann Oþokka, heldur Hugljúf. Hugljúfi stóð loksins upp og labbaði hægt og hægt af stað heim á leið. Eg segi hægt og hægt, því hann flýtti sér eigi, hann kveið fyrir viðtökunum heima, og hugsaði að illu mundi best að fresta. Hann tók á því visu, að maðurinn hefði sagt foreldrum hans frá, hvað hann hefði aðhafst, fyrst hann gat ekki dregið hann heim á eyrunum. Aumingja faðirinn og móðirinn, sem voru sorgbitin og frá sér numin af að heyra svo ljóta og viðurstyggilega sögu um

son sinn, urdu nú ad hafa allan hug á ad hegna honum svo hann munadi um það. Þið getið án efa ímyndað ykkur hversvegna sakadólgurinn vildi fresta heimkomu sinni.

Hugljúfi gekk um hríð eins og eg hefi sagt ykkur fót fyrir fót, en allt í einu datt honum í hug, ad hann væri búinn ad gánga lángan veg; varð hann þá mjög óttasleginn er hann sá hvergi útúr skóginum. Hann leit allt í kríng um sig og sá ad hann fór villur vegar. Undir eins hrundu honum tár af augum; hann tók ad hlaupa í ýmsar áttir og villtist hann þá meir enn ádur. Skógur þessi var honum ókendur, því fadir hans hafdi nýlega keypt jördina, er undir lág skógurinn, en Hugljúfi hafdi aldrei komið í skóginn fyrr enn núna. Hann vissi eigi hvert hann átti ad stefna, nóttin var á dottin svo hann vard úrkula vonar um ad hitta nokkurn mann, er leidbeindi honum til födur-húsa. Þegar hann vissi eigi hvert hann átti ad snúa sér, tók hann ad kalla sem mest hann mátti í von um ad einhverr kynni ad heyra hljódið; kallið tók undir í skóginum, en ómurinn einnsaman svaradi honum. Hann vard sjálfur skelkadur af ad kalla svona hátt, því hann var hræddur um ad hann myndi vekja einhvern

þjóf, er svæfi í hellrunum, edur ad úlfarnir myndi koma og fá hann sér til kvöldverdar. Við hugsan þessa fór um hann allan hrillingur mikill, sem eigi minkaði þá er hann heyrði á ýmsum stöðum í skóginum úlfa ýlfrið: hú, hú! hú, hú! Hann heyrði líka mjálm urðarkattanna, og nú örvænti hann um lífið.

Þegar mirkrið var runnið yfir allan skóginn var hann staddur hjá eik einni gamalli, er var mosavarin. Hann reif upp mosann og bjó sér til sæng til að liggja á um nóttina, og þótti honum svo ráðlegast að taka á sig náðir og sofa. Þið gétið nærri hversu vært menn munu sofa í miklum skógi, þar sem óarga dýr hafa aðsetur sitt. Varla var hann búinn að breiða undir sig mosann, áður hann sá dýr eitt fáeina faðma frá sér. Aumingja dreingurinn hnypraði sig upp að eikinni sem mest hann mátti og þorði eigi að draga andann. Hann sá gløggt að dýr þetta var frábrugðið hundi, enda var það eigi annað enn refur, er leitaði sér að bráð; en litli dreingurinn þekkti eigi enn tón-gaggið, og hræddist tóu eins mikið og úlfinn.

Refurinn hvarf á burt, en bráðum komu úlfar tveir, er ýlfruðu svo mjøg að hraustasti

madur mundi hafa látid hugfallast. Ulfarnir voru eigi nógu þefvísir, því eigi fundu þeir lyktina af brád þeirri, er lá undir trénu. Já, ef þeir hefdu fundid hana, þá hefdi verid úti um Hugljúf, þeir hefdu snædt hann med gódri matarlyst; slíkir hofdíngjar gángast eigi fyrir bænum þegar þeir hitta onnur eins smámenni og Hugljúf; en til allrar hamingju hvurfu þeir einnig á burt.

Nú vil eg gefa ykkur tómstund til ad íhuga hvert menn muni lánga til ad sofa þegar þeir eiga von á slíkum gestum inn í svefnherbergi sitt. Hugljúfi fordadist ad leggja aptur augun; hann var á glódum og allajafna lagdi hann hlustirnar vid. En þegar menn eigi geta sofid, koma monnum óteljandi hlutir til hugar, honum kom til hugar edur rettara sagt — hann fann til húngurs, hvold matar tíminn var fyrir laungu kominn; en hvernig átti hann ad sefa húngrid, er tekur eingum skynsomum fortolum, og sem eigi lætur sér segjast vid neitt nema mat? Þid getid nú spurt: hafdi hann ekki hid mikla og fagra epli í vasa sínum? Hann gat altjend nærst á því. Já, í sannleika, born mín gód, eg hefdi viljad, ad hann hefdi eigi hugsad um óheilla-eplid, er

búið var að baka honum svo mikla skömm og ógæfu; eg hefði viljað, hann hefði heldur þolað hið sárasta húngur og skilað eigandanum aptur ávextinum. Ráðvendnin hans var ekki svo rótgróin: hann ásetti sér að gjöra sér gott af eplinu. Í því skini ætlar hann með hendina ofan í vasa sinn, en vasinn, sem eplið var í, rifnaði af burunum hans þegar hann tróð sér út um gatið á girðíngunni. Nú var eigi annað fyrir enn að fasta.

Raunir hans voru ennþá ekki til lykta leiddar: hiti mikill hafði verið um daginn; himininn sortnaði og eldíngarnar gylltu eikartoppana; vindurinn blés, þruman drundi, og regnið helltist úr loptinu. Aumíngja Hugljúfi, allur rifinn og tættur og skólaus á öðrum fætinum, varð nú holdvotur; hann héldt að heims-endirinn væri kominn. Hver eldíng skaut honum skelk í bríngu, og hvert reiðarslag héldt hann mundi lenda á sér. O, hvað hann nagaði sig í handarbökin af því, hann hafði elt fiðrildið, af því, hann hafði farið inn í aldingarðinn, en einkum af því, að hann hafði stolið eplinu! Hann bað Guð fyrirgefníngar, hann bað hann að undirbúa hjörtu foreldra sinna til að veita sér góða viðtöku. Guð hefir án efa

miskunað sig yfir hann: óveðrinu slotaði, eldingarnar minkuðu og þrumurnar fjarlægðust. Þetta var nú mikil bót í máli, en nóttin var eigi enn á enda. Þareð hann var orðinn gagndrepa af regninu og imkulða, gjörðist hann vonardaufur um að geta tórt til morguns, ef ske kynni að faðir hans leitaði hans og findi hann. Hugljúfi heyrir nú áleingðar málróm föður síns og vinnumannanna, er fylgðu honum, og brátt sá hann millum eikanna ljós í skriðbittu; hann staulaðist á fætur, gekk í kjeing á móti föður sínum, féll honum til fóta, umfaðmaði hann og kom eingu orði upp sökum ótta og munnherkju. Faðir hans, er rann til rifja að sjá hann svona til fara, mælti: „stattu upp dreingur minn, eg sé að Guð er búinn að hegna þér, eg fyrirgef þér. Eg hefði átt að láta þig fara þinna ferða, en blóðið rann til skyldunnar og föðurástin vann sigur á gremju þeirri, er sagan um athæfi þitt olli mér. Eg hefi leitað þín síðan maðurinn kom og sagði mér frá hvað þú hefðir hafst að í garðinum hans; eg hefi líka orðið fyrir illviðrinu og það er þér að kenna. Snautaðu burt, eg vil ekki sjá þig; eg hirði ekki um faðmlögin þín; eg gef þér upp hegninguna, en eg el einga ást til þín

framar, nema því að eins þú bætir ráð þitt!“ Hugljúfi stóð upp hryggur og sneiptur og rölti þegjandi á eptir föður sínum. Þegar hann kom heim, fékk hann líkar viðtökur hjá móður sinni. Hann var færður úr votu og honum var gefið að eta; en einginn virðti sig til að yrða á hann.

Morguninn eptir bendti faðir hans honum að fylgja sér. Hann hlýddi, en hjarta hans barðist ótt og títt þegar hann sá, hann átti að fara til nágrannans. Faðir hans ber að dyrum, gengur inn, sýnir bónda son sinn og mælir: „bóndi góður! mér hefir viljað til það óhapp, að eiga son, sem hefir gjört sig sekan í stuldi, hann hefir stolið frá yður, þessvegna færi eg yður hann, nú getið þér hegnt honum að verðleikum.“ „Herra minn!“ mælti bóndi, „bágt er það fyrir yður að eiga son þann, er lætur í ljósi svona vondar tilhnegíngar; en eg straffa hann eigi með öðru enn því, að hann skal roðna í hvert sinn sem hann heyrir þjóf nefndan; hann mun bráðum komast að raun um, hversu þúng sú hegníng er, að geta eigi sagt með fullri einurð: eg er frómur.“

Hugljúfi leit niður, og grét fögrum tárum; en það sem fékk einna mest á hann, var

málrómur bónda, því hann var öldúngis eins og málrómur þess, er kallað hafði: Guð sjá þig! Eg verð nú að láta ykkur vita, börn mín góð, að sá sem kallaði var einginn annarr enn bóndinn. Hann hafði staðið uppí einu háfu aldintré þegar Hugljúfi kom inn í garðinn, og séð allt til hans, enda þótt hann héldi að einginn sæi sig.

Til þess að gleðja ykkur, börn mín, verð eg að láta ykkur vita, að Hugljúfi lagði alla stund á, að afmá blett þann, er kominn var á mannorð hans, og foreldrar hans, er héðaní frá höfðu vakanda auga á öllum hans gjörðum, þurftu eigi að segja honum eitt aukatekið orð. Þegar honum varð eitthvað á, sögðu menn við hann: dreingur minn, manstu eptir eplinu góða? Þetta var nægilegt, og dreingurinn, er um stundar sakir hafði gleymt skyldum sínum, sá sig um hönd og bætti undireins ráð sitt svo, að hann ávann sér ást foreldra sinna og virðingu góðra manna. Minningin um óheilla-eplið gjörði hann svo viðbúinn við öllum vondum freistingum, að hann varð afbragð annarra manna í ráðvendni og góðum siðum.

Svona endaði amma mín söguna. Hún

kysti fyrst systur mína og síðan mig, þar næst hvatti hún okkur til að leggja frá okkur leikfaungin og taka kverin okkar og læra vel, það sem okkur hafði verið sett fyrir.



5.

## Vond freisting

heppilega yfirbugud.

Ofurlítill dreingur, fátækur mjøg, átti einusinni að sópa reykháf í høll konúngs-dóttur, náði reykháfurinn frá þaki allt niður í herbergi hennar. Þá er hann var síginn reykháfinn á enda, skreið hann út um ofninn og varð einkis manns varr, en honum gaf að líta marga dýrgripi og allskonar gersemar umhverfis í herberginu. Hann virti allt fyrir sér og dáðist að øllu, en mest gekk honum í augu eitt sigurverk, er lá á borðinu, prýtt með gimsteinum. Hann gat eigi stillt sig um að handleika það, og af því það ljómaði í lófum hans, vaknaði hjá honum ósk þessi: eg vild' eg ætti svona

fallegt sigurverk! En í sama bili segir hann við sjálfan sig: einginn sér þó þú takir það, Jón litli! .... svei, þá yrði Jón þjófur! Samt þarf einginn að vita það, sagði hann aptur við sjálfan sig; en í sama bili heyrði hann mannamál í næsta herbergi, hann lagði sigurverkið á borðið, og hvarf upp um reykháfinn. Á heimleiðinni stóð honum sigurverkið fyrir hugskotssjónum, og svo þótti honum sem hann liti það hvert sem hann sneri sér; hann leitaði við að rýma út úr hjarta sínu laungun þessari, en á því var einginn kostur. Honum fannst sem einskonar ofurefli drægi hann til sigurverksins; hugsanin um sigurverkið lét hann eigi sofa í náðum, og loksins réði hann af, að fara og sækja það. Þegar hann kom inn í herbergið, hitti hann svo heppilega á, að þar var einginn maður fyrir, og gat hann þannig eigi efast um að hann væri aleinn. Titrandi og skjálfandi læðist hann að borðinu og sér sigurverkið, því túnglið skein inn um gluggann. Í því bili hann rétti framm hendina eptir sigurverkinu, varð honum litið á enn meiri dýrgripi, er láu á borðinu; voru þar eyrnahríngar og hálsmen úr gulli, alsett gimsteinum, og margar aðrar gersemar.

Á eg að taka það? sagði hann við sjálfan sig, og skalf eins og hrísla, á eg? .... á eg? ..... En verð eg ekki alla æfi ógudlegur maður? Mun eg nokkurn tíma geta blundað vært? Mun eg geta litið uppá nokkurn mann? Nei! Aldrei! .... Samt verð eg alltieinu ríkur maður; eg get keypt mér jörð og farið að búa; eg get fengið mér fálleg føt; eg get átt góða daga. En ef það kemst upp um mig! ..... en hvernig ætti eg að verða uppvís að þjófnaði, fyrst einginn sér til mín? Ódúngis einginn! Ætli Guð., sem er allstaðar nálægur, sjái mig ekki? Mun eg þora að biðja til hans ef eg stel sigurverkinu? Mun eg geta dáið með góðri samvitsku?

Hann hrillti við hugsan þessa. Nei, segir hann um leið og hann leggur dýrgripina á borðið, heldur vil eg vera fátækur og hafa hreina samvitsku, enn ríkur og vera mér ills meðvitandi, og sem hann mælti þannig, þaut hann út um reykháfinn aptur.

Dóttir konúngsins, er svaf í næsta herbergi, hafði heyrt allt og séð; hún þekkti dreinginn í túnglsljósinu og lét sækja hann morguninn eptir. Heyrðu, dreingur minn, mælti hún: hví stalstu ekki sigurverkinu mínu og gimstein-

unum í gærkvöld fyrst þú á annad bord varst kominn inn í herbergi mitt og hafdir þad í hyggju? Dreingurinn féll henni til fóta og gat eingu ordi upp komid sakir ótta. „Eg hefi," mælti konúngs-dóttir: „heyrt allt og séd til þín, þakkadu gudi fyrir, dreingur minn, ad hann gaf þér styrk til ad sigrast á freistingunni, vendu þig nú á hédanífrá ad minnast Guds, sem er allstadar nálægur, þegar þér flýgur eitthvad íllt í hug, og kostadu kapps um ad stunda dygd og góda sidu! Þú skalt nú vera hjá mér framvegis, og skal eg fæda þig og klæda, og þad sem meir er í varid: setja þig til menta svo vel sem audid er, til þess ad laungunin til hins illa fái eigi framar inngaungu hjá þér!"

Dreingurinn grét nú fögrum tárum, hann vildi þakka konúngs-dótturinni fyrir sig, en þess var einginn kostur; hann gat ekki annad enn grátid og fórnad upp höndum.

Dóttir konúngsins efndi heitid: dreingurinn var settur til menta; en velgjörda-módur hans hlotnadist sú huggun og ánægja, ad sjá hann verda rádvandan mann og gudrækinn og vel ad sér um marga hluti.

6.

# María-barnið.

Nálægt skógi nokkrum bjuggu fátæk hjón, er áttu sér þrévetra dóttur; hún var ein barna. Þau voru orðin öldúngis bjargþrota og áttu eingan matar-mola handa dóttur sinni. Bóndi fór þá í þúngu skapi út á skóg og tók að fella tré; en hann vissi eigi fyrr til, enn kona nokkur há og fögur stóð hjá honum með stjarna-kórónu á höfði; ávarpaði hún hann þessum orðum: „eg em María mey, móðir litla barnsins Jesú; þú ert fátækur og átt örðugt uppdráttar, færðu mér dóttur þína, eg ætla að taka hana að mér, og mun eg verða henni í móður stað og ala önn fyrir henni." Bóndi gjörði svo, og færði Maríu meyju barnið, en hún tók það með sér til himins. Þar átti barnið óvenju gott og borðaði eigi annað enn sæta-brauð og nýmjólk; klæði þess voru gullofin og einglarnir léku við það. Eittsinn átti María mey lánga ferð fyrir höndum; hafði þá barnið

verið 14 vetur á himnum; en áður enn hún færi af stað, kallaði hún stúlkuna til sín og mælti: „barnið mitt gott! eg ætla að trúa þér fyrir lyklunum að dyrum himnaríkis, þær eru þrettán. Þú mátt ljúka upp 12 af þeim og skoða allar gersemar sem eru þar, en varastu að ljúka upp þrettándu hurðinni, er litli lykillinn sá arna gengur að, því þá verður þú mesti lánleysingi.“ Stúlkan hét að hlýða boði hennar, og er María mey var á burt komin, lauk hún upp einum dyrum á degi hverjum og skoðaði sali himnaríkis. Í hverjum þeirra var einn postuli, og var svo mikill ljómi umhverfis, að hún hafði aldrei á æfi sinni séð jafnmikla dýrð og dásemdir; þótti henni þetta hin mesta skemtan, og einglarnir, er ávallt voru með henni skemtu sér með henni. Nú átti hún eptir að eins þrettándu hurðina, er henni hafði verið bannað upp að ljúka; hana sárlángaði til að sjá hvað þar væri fyrir innan, og sagði við einglana: „eg ætla að eins að ljúka upp hurðinni á hálfa gátt og gægjast inn um gættina.“ Einglarnir sögðu: „Æ, nei! þá syndgarðu, María mey hefir bannað þér það, og vera má þú hljótir þar af ógæfu.“ Þá varð hún hljóð við, en laungunin og forvitnin, er

henni bjó í brjósti, sefaðist eigi, og eittsinn þegar englarnir höfðu skilið við hana, hugsaði hún með sér: nú er eg einsaman, hverr ætli sjái til mín? Hún sótti þá lykilinn og rak hann í skráar-gatið og sneri honum; hrökk þá hurðin upp, og hún sá þrenninguna sitja þar, en umhverfis var eldur og leiptur. Hún drap að eins fingrinum í ljómann og varð hann þegar gullroðinn; varð hún þá hrædd mjög og skelldi aptur hurðinni og hljóp burt. Hún gat eigi rímt út hjá sér óttanum hvað sem hún tók til bragðs; hjartað barðist án afláts ákaflega; ekki heldur gekk gullið af fingri hennar þó hún þvæði sér hvað eptir annað. Að fám dögum liðnum kom María mey aptur úr ferðalaginu og heimtaði lyklana af stúlkunni, en er hún rétti henni þá, starði María mey á hana og mælti: „hefir þú eigi lokið upp þrettándu hurðinni?" hún kvað nei við. Lagði þá María mey höndina á hjarta hennar, en það barðist ótt og títt; varð hún þess þá vís, að hún hafði brotið á móti boði hennar og lokið upp hurðinni. Hún sagði þá enn fremur: „seig mér nú satt, hefirðu eigi lokið henni upp?" Stúlkan neitaði öðrusinni. Í þessu bili leit María mey gullroðna fingurinn, er stúlkan

hafdi snortid med hinn himneska eld, og mælti í þridja sinn: „hefir þú eigi gjört þad?“ en stúlkan neitadi í þridja sinn. Þá mælti Maria mey: „þú hefir hafnad bodum mínum og sagt mér ósatt, þú ert eigi þess makleg ad dvelja lengur á himnum.“ Nú féll stúlkan í djúpan dvala, en er hún vaknadi, var hún á jördunni og lá undir eik einni hárri; umhverfis voru svo þéttir skógarrunnar, ad eigi mátti hún á burt komast; varir hennar bærdust eigi, og eigi fekk hún eitt ord mælt frá munni sér. Eikin var hol innan, og sat hún þar þá er regn var edur vindur blés, og þar svaf hún um nætur. Hún lifdi á nýtum og berjum og leitadi hún þeirra svo lángt sem henni var audid ad komast. Um haustid sópadi hún saman blödunum af trénu, bar þau í holuna og skýldi sér þar í snjónum og frostum. Klædi hennar fyrutust mjög og slitnudu ad fullu og öllu; settist hún þá í laufhrúguna og hlúdi ad sér med laufblödunum. En er sólin tók ad skína, gekk hún út, halladi sér upp ad eikinni og vermdi sig. Svo var hár hennar varid, ad þad skýldi henni sem kápa. Þann veg sat hún lánga hríd og kendi hrellínga og harmkvæla. Eittsinn um vorid, þá er hún halladi sér upp vid eikina, ruddist

madur nokkurr gegnum skógarrunninn og fór geyst, en það var konúngurinn; var hann á veiðum úti á skógi og elti dýr nokkurt, er flúið hafði þángað. Hann varð hissa mjög er hann sá mey eina sitja útá víðavángi, undur fagra; var hún hulin gullfögru hári frá hvirfli til ilja. Hann spurði hana, hví hún æli aldur sinn í óbygðum, en hún mátti eigi mæla, því hún var mállaus. Konúngur mælti: „viltu fara með mér til hallar minnar?" Hún fekk eingu svarað, en hún laut að eins konúngi. Lypti þá konúngur henni á bak hesti sínum og reiddi hana heim til sín. Brátt fekk hann ást á henni, og gekk hann að eiga hana. Að ári liðnu ól drottníng einn son, óvenju fríðan. Nóttina eptir vitraðist María mey henni og mælti: „seig mér nú satt frá öllu, laukstu eigi upp hurðinni, skaltú þá fá málið aptur, ella fær þú eigi ánægð lifað; ef þú þrjótskast og játar eigi yfirsjón þína, þá tek eg barnið þitt með mér." Þá mátti drottníng mæla, en hún neitaði. Tók þá María mey barnið og hvarf þegar burt. Um morguninn er barnið var horfið, stúngu menn saman nefjum, að drottníng væri mannæta og hefði etið barnið sitt; hún heyrði þetta, en fekk eigi af sér hrundið. Konúngur lagði eingan

trúnad á hvis þetta, því hann unni drottníngu hugástum. Ad ödru ári lidnu fæddi drottníng enn einn son. María mey birtist henni þá í annad sinn og mælti á þenna veg: „vilir þú nú játa ad þú hafir lokid upp hurdinni, þá mun eg gefa þér barnid þitt aptur og leysa hapt túngu þinnar, en þverskallist þú og berir á móti því, mun eg einnig taka med mér nýfædda dreinginn þinn. Drottníng neitadi enn, tók þá María mey úr fadmi hennar barnid og flutti þad til himna. Um morguninn er menn söknudu konúngs-sonar, kvádu upp úr rádgjafar konúngs, ad drottníng mundi hafa etid hann, og reru þeir ad því öllum árum, ad drottníng skyldi láta lífid fyrir sakir gudleysis síns; en konúngur baud þeim ad hafa eigi ord á þessu, því ást hans var svo mikil til drottníngar. Hid þridja árid fæddi drottníng fagurt meybarn; kom þá María mey aptur og hafdi drottníngu med sér til himna og sýndi henni tvo eldstu börnin hennar, þau léku sér ad jardarhnettinum og brostu upp á hana. Drottníng vard glöd vid. Þá mælti María mey: „vilir þú nú játa, ad þú hafir lokid upp hurdinni, mun eg gefa þér báda sonu þína aptur." Drottníng neitadi í þridja sinn, en María mey lét hana síga aptur

ofan á jörð og héldt eptir öllum börnum hennar. Konúngur mátti nú eigi framar þagga nið'ri ráðgjöfum sínum; þeir kváðu eingan efa á, að drottníng hefði etið börn sín, en af því henni var málsins varnað, mátti hún eigi af sér hrynda ámæli þessu. Sögðu dómendur, hún skyldi á báli brenna. Þá búið var að binda hana við stólpann og eldurinn logaði umhverfis hana, ángraðist hún mjög, og hugsaði með sér: „betur eg gæti, áður eg dey, játað fyrir María meyju, að eg hafi lokið upp hurðinni — og sagt: ó, María mín góð! eg hefi lokið upp hurðinni." En sem þetta flaug í huga hennar, kom regn af himni svo að bálið slokknaði. Ljós mikið leið yfir hana, og birtist henni María mey; leiddi hún báða sonu hennar, en dóttur hennar bar hún í fánginu. Hún ávarpaði hana blíðlega og mælti: „hverr sem játar yfirsjón sína og iðrast, öðlast fyrirgefníngu." Hún rétti að henni börnin, gaf henni aptur málið og veitti henni auðnu alla æfi.



7.

## Dauðinn veitir guðsifjar.

Maður nokkurr fátækur átti 12 börn; hann varð að vinna baki brotnu nótt og nýtan dag, og gat þó eigi veitt þeim neitt til viðurværis nema þurt brauð. Þegar honum fæddist 13. barnið, vissi hann eigi hvað hann ætti til bragðs að taka, og hljóp út í ráðaleysi til að biðja hvern þann mann, sem fyrst yrði á vegi hans, að halda barninu undir skírn. Sá fyrsti er hann hitti, var Guð almáttugur, er vissi allt það er honum bjó í brjósti, og mælti þannig: „eg kenni í brjósti um þig, vesæling-ur, eg skal halda barninu þínu undir skírn, og sjá svo um, að það verði lánsamt hér á jörð-unni!“ Bóndi mælti: hvað heitir þú, maður minn? „Eg em Guð hinn almáttki.“ Þá skaltú eigi vera skírnarvottur, þú sem gefur hinum ríku allsnægtir, en lætur fátæklingana svelta!“ Þann veg mælti bóndi af því hann vissi eigi hve vísdómslega guð útbýtir meðal

mannanna audæfum og örbirgd. Hann sneri sér nú frá drottni og fór leidar sinnar. Þá kom til hans Andskotinn og mælti: „ad hverjum leitar þú? eg skal halda barninu þínu undir skírn, gefa því gull og gersemar og veita því allskonar unadsemdir.“ Bóndi spurdi hann ad nafni. „Eg em kalladur Andskoti,“ svaradi hinn. Þá mælti bóndi: þá skaltu eigi halda undir skíru barninu mínu, þú, sem svíkur menn og dregur þá á tálar.“ Fór nú bóndi leidar sinnar. Sídan kom á móti honum Daudinn og mælti: „láttu mig vera skírnarvott!“ Hvad heitirdu, spurdi bóndi. „Eg em Daudinn, er jöfnudinn veitir.“ Bóndi mælti: „þú ert rétt eptir minu skapi, þú sækir hina audugu og fátæku án manngreinar álits, þú skalt halda barninu mínu undir skírn!“ Daudinn mælti: „eg mun veita barninu aud og ágætan ordstír, því hverr sem á mig fyrir vin, hann á hauk í horni.“ Þá mælti bóndi: „á sunnudaginn kemur ætla eg ad láta skíra barnid mitt, komdu þá í tækan tíma.“ Daudinn kom eins og hann hafdi lofad og hélt barninu undir skírn. Þegar dreingurinn var farinn ad stálpast kom eittsinn gudfadir hans og hafdi hann med sér út á skóg, og sem þeir voru einir saman, mælti Daudinn

svo feldum ordum: „nú ætla eg ad gefa þér tann-
fé dreingur minn: eg læt þig verda nafntogadan
læknir; þegar þú verdur sóttur til sjúkra, mun
eg í hvert sinn birtast þér; standi eg til fóta
ennm sjúka, þá seig einardlega: eg skal gefa
honum aptur heilsuna, og gefdu honum ad
eins nokkurskonar jurtir, er eg skal vísa þér á,
og þá mun honum batna; en standi eg vid
hofdalag sjúklingsins, þá á eg hann, og má
einginn frá mér taka; skaltu þá segja, ad allar
tilraunir verdi árángurslausar, hann hljóti ad
deyja. Sídan sýndi Daudinn honum jurtirn-
ar, og mælti: „varastu ad taka til þeirra ad mér
naudugum." Eigi leid á laungu ádur læknir-
inn vard frægur um vída verold. Pad var
almanna rómur ad hann þyrfti eigi annad enn
líta hinn sjúka, þá vissi hann hvert honum
myndi batna til þessa lífs edur annars; úr
ollum áttum komu menn ad lángar leidir, og
sóttu hann til sjúkra og guldu honum ógrynni
fjár, og vard hann á stuttum tíma vellaudugur.
Pad bar til ad konúngur tók sótt, lét hann þá
vitja læknisins og bad hann koma og segja hvert
sér myndi leugra lífs audid. Þegar læknirinn
kom, sá hann Daudann standa vid hofdalag
sjúklingsins og eingin jurt var þá sprottin er

ætti við meinsemd hans; en læknirinn hugsaði með sér: vera má eg geti leikið á Dauðann, fyrst hann hefir haldið mér undir skirn, misvirðir hann það eigi við mig. Læknirinn lypti þá upp úr rekkjunni konúnginum svo Dauði stóð til fóta honum er skipt var um höfðalagið; síðan gaf hann konúnginum jurtirnar, en honum batnaði af, svo hann varð heill heilsu. En Dauðinn kom til læknisins og var heldur reiðuglegur og mælti svofeldum orðum: „í þetta sinn fyrirgef eg þér fyrst eg hefi haldið þér undir skirn, en dirfist þú í annað sinn að leika svona á mig, sný eg þig úr hálsliðunum!" Skömmu síðar tók sótt konúngsdóttirin og fekkst eingin bót meina hennar. Faðir hennar grét nótt og dag svo hann var orðinn, að kalla mátti, blindur. Loks lét hann lýsa því yfir, að sá er frelsaði hana frá dauðanum, skyldi fá hennar og erfa ríkið eptir sinn dag. Læknirinn kom, en Dauðinn stóð við höfðalagið. Þegar hann sá hve fögur var konúngs-dóttir og honum rann í hug, til hve mikils var að vinna, gleymdi hann öllum hótunum, og þó að Dauði liti illúðlega til hans, sneri hann henni samt í rekkjunni og gaf henni af jurtunum svo hún fór að rétta við aptur. En er Dauðinn sá,

að hann í annað sinn var sviptur eign sinni, fór hann á fund læknisins og mælti: „kom þú nú með mér, lagsmaður!“ Þreif hann þá til hans með ískaldri hendi og leiddi hann í jarðhús nokkurt, þar logaði ótal þúsunda kerta, og mátti eigi sjá út yfir ljósaraðirnar. Sum kertin voru albrunnin, en sum til hálfs og sum voru ofur stutt. Á stundu hverri slokknuðu nokkur, á öðrum kviknaði aptur, svo það virtist sem smálogum brygði fyrir hér og þar. „Lítt' á,“ mælti Dauði, „þetta eru örlaga-kerti mannanna, börnin eiga þau heilu, hjón á besta aldri þau hin hálfu, en gamalmenni hin smáu; þó eiga einnig börn og úngmenni opt og tíðum lítið kerti; þegar það er út brunnið, er líf þeirra að þrotum komið, og þá eru þau mín eign.“ Læknirinn mælti: „sýndu mér nú líka kertið mitt!“ bendti þá Dauðinn honum á ofurlítinn stubb, er logaði að eins á blá-skarinu, og sagði: „lítt'á!“ Þá varð lækninum hverft við, og mælti: æ, guðfaðir minn góður! kveiktu á nýju kerti handa mér svo eg geti farið að njóta lífsins, orðið konúngur og fengið ennar fögru konúngs-dóttur! „Það má eg eigi,“ mælti Dauðinn, „hið gamla verður að slokkna áður eg kveiki á nýju.“ Þá mælti læknirinn: „settu þá

hið gamla við endann á nýu kerti, er þegar geti tékið að loga þá hið gamla er brunnið út!" Létst þá Dauðinn mundi verða við bón hans, og sótti nýtt kerti, en sem hann brá því undir, létst hann fella óviljandi stubbinn svo tíran slokknaði; en hann gjørði það reyndar af ásettu ráði til að hefna sín. Þá hné einnig læknirinn niður órendur, og var hann nú sjálfur kominn í Dauðans greipar.



8.

## Omarr og aðkomumaðurinn.

Eitt kvöld þá veður var fagurt sat fjárhirðir nokkurr, hann hét Omarr, góður maður og ráðvandur, fyrir utan tjald sitt og skemti sér við fegurð sólarinnar, er þá var að renna til viðar. Þá er honum varð litið til skógarins sem þar var í nánd, sá hann koma framm úr honum öldúng mikinn og gráhærðan, er kom

inn hjá honum mikilli meðaumkun og lotuingu. Gamalmennið studdi sig við gaungustaf sinn og ætlaði að hvíla sig til að geta haldið á framm ferð sinni, en Omarr hljóp í móti honum og bað hann hvílast hjá sér í tjaldinu þá nótt, svo að hann yrði aflúinn og gæti farið leiðar sinnar að morgni. Aðkomumaðurinn hikaði sér lánga hríð, en lét þó að lokum til leiðast sakir vinsamlegra bæna hans og innilegra. Þá er Omarr hafði þvegið fætur gests síns, bar hann honum mjólk og ávöxtu og þarnæst hljóp hann til hjarðar sinnar til að sækja eitt lamb handa honum til kvöldverðar. En er þeir tóku snæðing, varð Omarr þess varr, að gesturinn bað eigi guð að blessa sig, þótti honum það mikil furða og mælti: „hverju sætir það, er þú tilbiður eigi Guð, sem skapað hefir himin og jörð og allt hvað þar er inni?" „Eg kenni eigi þinn Guð" mælti aðkomumaður: „eg veit heldur eigi hverr skapað hefir himin og jörð; þarámót á eg heima hjá mér guð einn úr málmi, er smiður nokkurr hefir steypt handa mér. Þenna guð tilbið eg að sönnu, og hann veitir mér allt það er eg við þarf."

Þá reiddist hirðirinn heiðíngjanum og vildi

eigi hafa við hann samneyti og rak hann um nóttina út á eyðimörk. En um nóttina birtist Drottinn honum og mælti: „Omarr! hvar er gesturinn, er eg senda þér í gærkvöld að þú skyldir gjöra vel við hann?“ Omarr svaraði: „herra! hann var skurðgoða dýrkari og tilbað þig eigi; hvernig mátta eg þola hann undir þaki minu? Eg rak hann þessvegna burt frá mér.“ — „Og eg“ mælti Drottinn, „hefi þolað hann og hans yfirsjónir í 90 ár, verndað hann og hús hans, gefið honum fæði og klæði þótt hann eigi hafi tilbeðið mig. En þú máttir eigi hýsa hann eina nótt í hreisi þinn, þú, sem þó ert bróðir hans?!“



## 9.

## Sonar-ástin.

„Á eg að bera fyrir yður, það sem þér hafið meðferðis?“ mælti einusinni úngmenni nokkurt til ferðamanns eins, er kominn var til borgar

nokkurrar í ennm nordlægu þjódríkjum Vestur álfunnar. „Skósveinninn minn sér um það,“ svaradi adkomumadurinn. Dreingurinn fór þegar í burt med kurteisi og hógværd; en þared svipur hans vakti hjá ferdamanninum medaumkun, kastadi hann til hans einum peníngi*). Sveinninn nam stadar og horfdi á peninginn, en bleiku kinnarnar hans rodnudu vid. Hann tók upp peninginn, nálgadist ferdamanninn med feimni og mælti: „herra,“ segir hann, „afsaka mig, eg leita mér einúngis atvinnu, en beidist eigi ölmusu.“ „Æ, hvad heyri eg,“ sagdi ferdamadurinn og brosti, „þú vilt þó ekki skila mér aptur þessu litilræði?“ Sveinninn var hljódur nokkra stund og þótti það minkun fyrir sig ad þiggja peninginn ad gjöf; hann velti honum millum fíngra sinna í einskonar rádaleysi. Í þessu bili bar þar ad einn ölmusumann, gladnadi þá yfir honum, hann laut med

*) Í útlöndum hafa margir menn þann atvinnuveg ad bera fatakistla og ferda-poka farmanna til gestgjafa-húsa, þeir dvelja lidlángan daginn nidur vid hafnir og bjóda sig framm til þjónustu og smávika, fá þeir þá laun eptir því sem þeir eru mennirnir til, er þjónustuna þiggja. Ölmusumönnum gefa sumir á þann hátt, ad þeir kasta til þeirra einum eda fleirum smáskildíngum.

kurteisi ferðamanninum og mælti: „leyfið þér mér að gjöra hvað sem eg vil við gjöf ydra?“ Með þessum orðum rétti hann að þurfamanninum peninginn og hvarf þegar burt. Atburður þessi, þótt lítill væri hann, hafði mikil áhrif á ferðamanninn. Nokkrum dögum eptir varð honum litið á sveininn í hóp daglaunamanna; mátti hann glögglega kenna hann úr hinum, svo var hann mannvænn og gjörvilegur og kurteis í allri háttsemi.

Ferðamanninum líkaði vel er hann sá hann og gekk þegar til hans. „Ungi vin“ sagði hann með blíðum orðum, „má eg spyrja þig að heiti?“

Sveinninn kvaðst heita Haraldur Sæmundarson. Hann héldt áfram starfi sínu og lét eigi ferðamanninn tefja sig. Kári, svo hét ferðamaðurinn, virðti fyrir sér sveininn með enn meiri viðkvæmni enn áður. Fríðleikur hans og kurteisi lýstu því glögglega, að starfi hans og tötrar voru honum með öllu ósamboðnir.

„Áttu foreldra á lífi?“ spurði Kári.

Þá mælti sveinninn: „faðir minn lifir enn og er hann nú örvasa; hann var með að ávinna okkur þjóðfrelsið.“ Nú starfaði sveinninn með

þvílíkum ákafa, ad Kári þóttist sjá meiga glögglega, ad hann vildi hlidra sér hjá, ad leysa úr fleirum spurníngum. Kári lét eigi ad heldur af spurníngunum: „ertu hjá fødur þínum?“ mælti hann. „Já, herra minn!“ sagdi sveinninn. „Hvar býr hann?“ Sveinninn svaradi eingu, en bendti á einn fornfálegan kofa, er náliga var af goslum genginn. Kári stundi þúngan. Nú var lidid af haustnóttum, napur vindur blés yfir láð og lög. Kári sá glögglega, að hreisi þetta mundi veita íbúnm sínum hardla litid skjól um vetur. „Einn hermadur“ mælti hann med mikilli vidkvæmni, „er hætti lífi og úthellti sínn blódi til ad fridhelga réttindi þeirra, er nú bada í rósum og lifa í allsnægtum?!“ Skommu seinna gekk Kári til kofans og drap á dyr, en sem hann var inn kominn, leit hann fyrir sér oldúng einn, aldri orpinn og ellihruman; þróadist nú medaumkunin og velviljinn til hermannsins, er sveinninn hafdi vakid hjá Kára. Oldúngurinn lypti hofdi sínu frá stodinni, er hann halladi sér upp ad þá er inn gekk adkomumadurinn, en Kári vard þegar varr vegsummerkja harms og mótlætis á enu hrukkótta enni oldúngsins. Ennis-svipur hans bar þad glogglega med sér, ad hinn gofug-

lyndi sveinn var í ætt við hann, hafði ellin eigi enn algjörlega afmáð öldúngsins hermannlega háttalag og tíguglega. „Fyrirgefið ókendum manni“ mælti Kári, er hann gengur óboðinn inn til ydar! mig fýsir mjög, að hjala um stund við gamlan hermann, er átt hefir hlut í frelsun þjóðar sinnar.“ Þá mælti öldúngurinn: „hverr, sem kemur híngað og styttir mér stundir í einveru minni með viðræðum sínum, er mér hjartanlega velkominn.“ Nú skildi Kári að hermaðurinn hefði misst sjónina. Af því að sagan um frelsið og stjórnarbótina, er Vestmenn áunnu sér í bardögunum við Breta veitti þeim nægilegt umtals-efni, þá þurfti eigi mikinn mann til að halda uppi viðræðunum. „Eg vildi óska,“ mælti Kári, „að hverr, sá er tekið hefir þátt í hinum víðfrægu frelsisbardögum og náð með herskildi farsældinni, þjóð vorri til handa, væri einnig farsæll maður; en mig uggir, og því er miður, að margur hverr, er keypt hefir frelsi vort við blóði sínu, muni þola skort og örbirgð og líða úr minni meðbræðra sinna.“

„Það er dagsanna“ mælti öldúngurinn: „sá hinn ellimóði hermaður, er misst hefir mátt sinn og megin í orrustum þessum, á sér að eins

litla von umbunar, en nýdjar hans uppskera ávertina, er hann hefir sád til."

„Þér eigid einn son," mælti Kári, „hann verdskuldar ad uppskera slíka ávortu. Er Haraldur einn barna?"

„Hann er einn eptir af mínum morgu nýdjum, eg gat hann í elli minni, hann hefir frelsad mig frá þeirri óvirdíngu, ad verda ad þiggja sveitar-styrk."

„Hversu lengi hafid þér verid sjónlaus?"

„2 ár!"

„Hafid þér um þenna tíma ekki þegid adra hjálp enn þá, er sonur ydar hefir veitt ydur med starfa sínum?"

„Einga adra! en hermenn komast einatt af med litid; sonur minn hefir svo mikla ást til mín, ad hann vinnur fyrir mér med gledi og ánægju, þótt hann fyrir mínar sakir fari á mis vid alla unadsemd æsku-áranna; hann vinnur baki brotnu, en mér sárnar ad vita hann þrælka sem daglaunamann."

Kári vard klokkur mjog og vidkvæmur og mælti: „eg vilda óska, ad eg gæti útvegad honum atvinnu, þá er honum sé sambodin! yrdi hann settur til menta, þá mundi hann verda prýdi mannlegs félags, en medan hagur hans,

er svona ásigkominn, er sannlega eingin von á, ad honum verdi mentunar audid."

„Samt lángar hann til ad nema bókmentir," mælti hermadurinn, þad ber stundum til, ad hann fær eigi af sér ad vinna, hann er þá ad lesa bækur. Haraldur kom nú inn í kofann, en Kári og fadir hans hættu vidrædunum. Hann færdi fødur sínum mat og drykk er hann hafdi keypt vid daglaunum sínum. „Eg minntist rétt núna á vid hann fødur þinn," mælti Kári, ad hann yrdi ad leysa mér ad útvega þér einhvern gódan atvinnuveg; mér líkar illa, ad únglíngarnir skuli eyda svona æsku-árunum, þá er þeim veitir hægast ad nema nytsom frædi, þau er vísa monnunum þá vegu, er þeir fara skulu medan þeim er audid ens jardneska lífs." Haraldur laut honum virdíngarfullur og mælti: „herra!" segir hann, „þér gleymid því, ad eg get eigi þegid þann kost, er þér bjódid mér hvorsu gódur sem hann yrdi, ef eg ætti ad láta skilid vid fødur minn."

„Einganveginn medan svona stendur á fyrir þér; en eg á vini, og med þeirra adstod get eg veitt þér betri daga; þá getur þú valid þér þann atvinnuveg, er horfir þér til farsælla hlutskiptis þegar fram lída stundir."

„Eg á eingan kost á þessu, herra minn! því faðir minn getur heimtað meira af syni sínum, enn af nokkrum öðrum manni í heimi. Það er ekki lángt síðan, eg varð sjúkur og naut hans aðstoðar, skylda eg nú fela ókendum velgjörða-mönnum á hendur uppfylling þakklætis skyldu minnar?“

Kára varð orðaskortur.

„Haldið eigi,“ mælti dreingurinn, meðan bláu augun hans fylltust tárum og sómatilfinníngin vék fyrir þakklátseminni, „að eg sé svo óþakklátur, að eg misvirði gofuglyndi yðvart. Áhyggja yðar fyrir gæfu minni fær mjög á mig; en mér finnst, herra minn! að eg sé algjörlega farsæll í þessari minni stöðu. Faðir minn er líka ánægður með ágóða starfa míns þótt lítill sé hann; verði ávinníngur minn framvegis ónógur, þá skal eg eigi hika mér við, að leita yðrar hjálpar.“ Kára varð heitt um hjartaræturnar. Hermaðurinn hallaði aptur höfði sínu upp að stoðinni og bað Guð að blessa son sinn. — Vindurinn blés og regnið pípti ofan úr þakinu á kofanum.

Kári stóð upp og ætlaði að fara burt. „Á eg þá,“ mælti hann, að yfirgefa yður, án þess að bæta úr báguindum yðar?“ Vilið þér

ekki þiggja — sagði hann og fór með hendina ofan í vasa sinn; en Haraldur greip um hendina og hélt henni aptur, og fórust honum þau orð, að nægilega var leyst úr hálfspurninni. Öldíngurinn rétti aðkomumanninum hendina, brosti vinalega og mælti: „eg kann yður mikla þökk, en látið mig nú vita nafn mannvinarins, er heimsótti aumingjana í kofanum."

Kári sagði til nafns síns og hvar hann hefði aðsetur sitt; hann fékk loforð um, að mega hjálpa þeim ef bráð nauðsýn bæri að höndum; þvínæst kvaddi hann feðgana, og fór í burt með viðkvæmu hjarta.

Kári var maður sællífur mjög. Hjá slíkum mönnum útrýmir optlega gleðin og glaumur heimsins og hóglegar nautnir enni fölskvalausustu mannást. Samt sem áður hafði þolinmæði og auðmýkt þeirra feðga, þolinmæði föðursins en auðmýkt sonarins, er heldur kaus mæðusama þrælkun enn fégjafir af vandalausum, hans rótgróna og stillíngarlega ást og viðkvæmni við föður sinn bágstaddan, og hans takmarkalausa ósérplægni, komið betri skipan á hugarfar Kára og vakið hjá honum allar hinar beztu lífernis-reglur.

Nú fann hinn sællisi Kári fyrst um sinn einga unan í gladværd heimsins og lystisemdum. Hann fyrirvard sig, þá er hann bar sínar hégómlegu nautnir og hverfulu, er hann sældist eptir, saman vid sálarfrid únglíngsins, er enn var svo ad segja á barnsaldri, og þegar hann íhugadi, ad hans einka-ánægja var í því fólgin, ad hafa ofanaf fyrir fødur sínum.

Daginn eptir, þá Kári var farinn burt úr borginni, fékk hinn gamli hermadur bréf frá ónefndum manni — án utanáskriftar; innaní því voru 200 dollara*) í bánkabréfum.

Ár voru lidin, en lystisemdir heimsins er Kári gaf sig allan vid, høfdu smámsaman afmád hin alvarlegu áhrif. Stundum rann honum lauslega í hug, ad grenslast eptir afdrifum Haraldar Sæmundarsonar. Daudinn hafdi svipt hann ástúdlegri konu; dótturinni hélt hann eptir, hún var ein barna. Hún linadi harma hans, en hann sokkti sér nú eins og ádur nidri unadsemdir heimsins. Dóttir hans hét Isabella, hún þafdi þegar á æskuárum lært ad þekkja jardneskan munad og gledi, en lystisemdirnar fengu ekki saurgad henn-

*) Einn **dollar** gildir nokkrum skildíngum meir enn spesía.

ar hreinn sál né afvega leitt hjarta hennar. Dæmi hennar gøfuglyndu móður var henni sem bjargvættur, og minníngin um ágæti hinnar framliðnu gaf henni styrk til að leggja alla stund á dygðina. Einusinni fylgdi hún vinu sinni er lengi hafði sjúk verið til heilsubrunnsins hjá Ballstover. Þorp þetta liggur eigi lángt frá Saratógu í Nýjujórvík, er það á sumrum samkomustaður ríkra manna og fátækra, úngra og gamalla, meiri manna og minni. Í þorpi þessu dvaldi hún nokkrar vikur. Munurinn á blóma heilbrigðinnar og enu bleikayfirbragði sjúklinganna, munurinn á dauðahrigglunni og hlátri gárúnganna, munurinn á hávaðamiklu glaðværðinni og hinu naganda hugarángri vakti optlega í hennar úngu sálu alvarlegar hugsanir.

Það bar til einn dag, að hún gekk út sér til skemtunar, en er hún kom heim aptur, hitti hún föður sinn, var hann þá kominn til að sækja hana. Hún tók í móti honum með opnum faðmi; kvaddi síðan kunníngja sína, og daginn eptir var hún búin til ferðar. Þegar hún var komin upp í vagninn og beið föður síns, er þá átti tal við einn af kunníngjum sínum, gekk þar framm hjá úngmenni nokkurt, er nam

ſtaðar alltíeinu og kallaði upp yfir ſig af óvæntri gleði: „Herra Kári, velgjörari minn!"

„Yður misſéſt, herra minn!" mælti Kári, „eg þekki eingan, þann er geti kallað mig ſlíku heiðursnafni."

„Æ," mælti úngmennið, „er eg þá orðinn ſvo umbreyttur? Eg er Haraldur, ſonur hermannsins, það eru nú 7 ár ſíðan þér frelsuðuð okkur úr hinni meſtu örbirgð." Þá komſt Kári við, tók innilega í hönd honum og mælti: „Þér eigið, úngi vin, við ſérlundaða dreunginn, er eg mundi hafa orðið að liði ef hann hefði ekki verið ſvo drambſamur ſem hann var." „Æ, herra minn góður, þér megið eigi dyljaſt mér; þér getið eigi neitað því, að hönd yðar hafi frelsað oſs úr neyð og volæði! Sé yður nokkuð annt um minn hag, þá leyfið mér að ſkíra yður frá ávortum þeim, er velgjörningur yðar hefir borið." — „Gjarna vil eg" mælti Kári: „vita allt það er ſnertir hag yðvarn." Haraldur hélt nú áfram ræðu ſinni þannig:

„Tveim dögum eptir burtför yðar var faðir minn fluttur í góða viſt, en eg var ſettur í ſkóla. Samt gat eg hlynnt og hjúkrað að föður mínum, og eg víla ekki fyrir mér að meðkenna, að þakklátſemin og ſkylduræktin hafi

komið því til leiðar, að eg tók fljótum framförum í skólanum. Bráðum nam eg hin nauðsýnleguſtu fræði til undirbúnings undir minn atvinnuveg, og að ári liðnu gjörðist eg þjónustumaður hjá einu miklu verðslunarfélagi. Launin mín ríkkuðu ár frá ári, og gjörðu mig færan um, að bæta úr nauðsynjum foður míns; nú þareð faðir minn, mælti hann og stundi þúngan, er kallaður héðan til að bera úr býtum betri umbun, enn þá er heimurinn gat veitt honum, læt eg mér hugfast, að fullnægja þeim hinum jarðnesku hluta skuldar minnar og endurgjalda þann velgjörning er hafði svo afar mikil áhrif á núverandi kjör mín." — „Sú skuld" mælti Kári: „er þér umtalið, á sér ekki stað; mér hlotnaðist undireins ríkugleg umbun, en það var gleðin af að hafa veitt dygðinni aðstoð á tíma neyðarinnar. Þér megið eigi meiða mig á ný með slíkum orðum; en ef eg skil yður réttilega, þá er faðir yðar eigi lengur á lífi?" „Hann er ekki lengur á jörðunni" mælti Haraldur með tárugum augum. „Eg hafði hann með mér híngað til að styrkja heilsu hans á laugunum, en honum fór ávallt hnignandi; hér átti hann að bera beinin. Í gær fól eg hann í skauti jarðarinnar." Kári vikn-

adi vid rædu únglíngsins, tók innilega í hönd honum og mælti: „verid nú sæll, ástkæri Haraldur, vaguinn bídur mín; verid sannfærdur um, ad eg gledst hjartanlega af velgengni ydar, og gleymid eigi, ad þér ætíd skulid finna sannan vin, þar sem eg er.“ Þá er hann hafdi þetta mælt, sté hann upp í vagninn, er hvarf þegar burt.

Isabella hafdi komist mjøg vid af vidrædum fødur síns og únglíngsins, jókst mjøg medaumkun hennar og vidkvæmni þá er hún fékk ad vita addragandann til kunníngsskapar þeirra. Haraldur var henni eigi med ollu ókendur. Einn dag skommum tíma eptir þad hún kom til laugarnna, leit hún heidarlegan øldúng í gestasalnum, er henni þótti mikid til koma. Hofudid sjónlausa øldúngsins beygt ofan á bríngu, mjallhvíta hárid svo gisid, ad þad gat eigi hulid hvirfilinn og hans raunalega yfirbragd, fyllti hjarta hennar med lotníngu og medaumkun. Hún gekk til hans og baud honum blídlega korfu dálitla med jardarberjum, er hún sjálf bjóst ad eta. Øldúngurinn vikuadi af hennar vinsamlega ávarpi og tók í móti korfunni med brosi, er lýsti blessan hans og gódum fyrirbænum, en í sama vetfángi kom þar

að úngmenni nokkurt, fagurlega búið og virti fyrir sér Isabellu með hrærðu hjarta og þakklætisfullu augnaráði; hafði hann staðið skamt þar frá við gluggann og lesið eitt dagblað; en hún hvarf aptur til kunningja sinna. Skömmu síðar gekk úngmennið til hennar, færði henni tóma korfina og mælti þannig með nokkurskonar gráthljóði: „eg á að skila til yðar, mær! þakklæti frá öldúngi nokkrum og blessan fyrir yðar góðgjörnu hugulsemi.“ Síðan hafði hún optlega séð úngmennið og oldúnginn og í hvert sinn látið sér annt um að vita hvernig honum liði án þess þó að kenna þá að nafni. Lífskraptar öldúngsins þverruðu dag frá degi en únglingsins ástúðlega umönnun fyrir honum, fékk mjög á hana; það voru því eingin undur þótt henni væri mjög svo annt um að heyra söguna af Haraldi Sæmundarsyni, er hún sá að hann var hið sama úngmenni, sem verið hafði með öldúngnum.

Nokkur ár liðu eptir þenna atburð þartil Kári tók að hyggja að hag sínum, var hann þá kominn í slæmt horf. Lystisemdir hans og miklu útgjöld og óforsjálni í verslunarefnum höfðu smámsaman steypt honum í örbirgð. Eigur hans voru nú með öllu að þrotum komnar,

og menn þeir, sem hofðu hjálpað til að eyða þeim, horfðu kaldir og tilfinningarlausir á bág-indi hans; þegar hann var þannig kominn á heljar-þromina gjörðist hann nær því örvingl-aður; hann gat varla fengið af sér að trúa vondsku vina sinna, er hann hafði lagt svo mikið í sölurnar fyrir. Samt átti hann eptir eina huggan. Eins og gimsteininn ljómar því skærara sem skugginn er myrkvari, eins urðu dygðir dóttur hans því fegri, sem að honum krepptu bágindin. Ást hennar til föður síns óx að því skapi sem borðvinir hans fækkuðu og yfirgáfu hann; hennar sálarstyrkleiki og blíða hofðu heilladrjúg áhrif á hans særða hjarta. Húsið sem hann bjó í, ættarfylgjan, átti að seljast á uppboðsþingi; hryggðardagurinn þá er selja átti húsið, var þegar upp runninn. Þeg-ar boðin gengu sem hæðst, kom þar nýr kaup-andi, var hann auðsjáanlega lángt að kominn. Hesturinn hans var allur votur af sveita, og draup úr hverju hári, en sjálfur var hann bleikur sem nár og órólegur. Húsið var, eins og optlega ber til við þvílík tækifæri, selt við hálfvirði, en aðkomumaðurinn varð hæðstbjóð-andi. Kári bjó enn í húsinu og hinn nýi eigandi þess heimsótti hann þegar að endudu

uppbodinu. Einmitt í þessu bili hafdi Isabella yfirgefid födur sinn fyrir sakir einhverra búsfjórnar anna; hinn ógæfusami Kári situr þar einmana med þúngu skapi og veltir fyrir sér báginduuum eptirleidis — þá birtist Haraldur honum snögglega og stendur frammi fyrir honum. „Verid velkominn, hjartanlega velkominn, ástkæri vin“ sagdi Kári, „þótt eg geti eigi framar bodid ydur velkominn í mínum húsum. Þér erud kominn til ad vera vottur ad, hvernig eg verd flæmdur frá öllu, sem fyrrum var mín eign. Menn þola mig hér ad eins þenna dag, en á morgun á eg ekkert húsaskjól.“ „Eingan veginn,“ mælti Haraldur, „enn hafid þér húsnædi; húsid, sem þér búid í, er enn ydvart, og einginn jardneskur máttur má reka ydur hédan.“ — „Hvernig stendur á því?“ mælti Kári. — „Pad eru nú lidin 14 ár,“ sagdi Haraldur, „sídan þér gáfud födur mínum peninga, sem frelsudu hann frá eymd og volædi og grundvölludu mína eptirkomandi velgengni. Hann tók þá einúngis ad láni, en skuldin vard mín einka-arfleyfd. Ottinn fyrir, ad eg mundi styggja ydur, hefir tálmad borguninni, þótt skuldin þegar fyrir laungu hefdi getad verid goldin. Peningarnir hafa

eigi legid ardlausir. Eg hefi verid í nokkur ár félagi verslunarfélags eins; hefir þad verid heppid mjög í verslunar-efnum og rakad saman ógrynni fjár. Ydar litla innstæda hefir borid ríkuglega ávörtu, og á þessum degi hefi eg varid öllum sjódunum til ad kaupa fyrir húsid ydar, er skuldaheimtumenn ydar vildu ná undir sig. Af tómri hendíngu fann eg í tídindunum auglýsínguna um söluna, fór eg þá hid hradasta híngad eg mátta. Og nú," sagdi hann, og tók brosandi í hönd Kára, „er nú ekki Haraldur ydur velkominn í ydar eigin húsum? Lángt er sídan þér gáfud mér kost á vinfengi ydur, nú er eg kominn til ad þiggja þad, og vissulega getid þér eigi lengur bannad mér ad kalla ydur minn velgjördamann, med því eg á ydur ad þakka, eigi ad eins alla mína hagsæld heldur og einnig þann ósegjanlega fagnad, er eg nýt á þessari stundu." Kári gat eigi tára bundist, veraldarmadurinn og gledimadurinn grét yfir sigurhrósi dygdarinnar. Haraldur vard einnig klökkur og gekk þegjandi fram og aptur í salnum. Þá vard honum litid á litmynd Isabellu, lengi virti hann hana fyrir sér fullur gledi og undrunar. „Segid mér," sagdi hann um sídir og vék sér ad

Kára; „hvers mynd er þetta?" Kára hafði komið með öllu á óvart geðshræring Haraldar, og spurði þannig: „hafið þér nokkurntíma séð frummyndina?" „Það er víst," ansaði Haraldur, „myndin hennar hefir búið lengi í hjarta minu, en ókunnugt er mér um nafn hennar."

„Hún heitir," mælti Kári: „Isabella, hún er eina barnið mitt." „Guð veri lofaður" sagði Haraldur, „hvílíkur nýr fögnuður bíður mín ekki!"

„Má eg spyrja, Haraldur minn, hvað olli yður þessa fagnaðar? — Með hverjum hætti hafið þér kynnst við mína ástkæru Isabellu?"

Haraldur skírði nú frá, með hverjum atvikum kunningsskapur þeirra hófst við heilsubrunninn; hvernig blíða hennar og umönnun fyrir föður hans sjúkum hefði þá haft á hann ógleymandi áhrif; að hann upp frá þeirri stundu hefði borið mynd hennar í hjarta sínu, og að endurminning dygðar hennar hefði gætt hans fyrir öllum freistingum heimsins.

Isabella hafði heldur ekki gleymt únginenninu; hún hafði komist við af hans frábæru hegðan og ástríku umhyggju fyrir föður hans, og fagnaðar-roðinn, er rann yfir kinnar hennar

um leið og hún kom inni salinn og leit Haraldr, var angljósan vott um, hve mjøg hún unni honum. Faðirinn viknaði mjøg, hann sá hvað gjørðist i beggja hjørtum, lagði saman hendur þeirra og mælti: „þið eruð hvort øðru samboðin!“ Hann lypti augum sínum þakklætisfullum til himins og árnaði børnum sínum blessunar Drottins.



## 10.

# Bræðra-ást.

Einusinni var það til, að Danir nokkrir fóru utan, ætluðu þeir að sigla til Vestureyja, en skipið brotnaði á skeri nokkru lángt undan landi. Óskaplegur fellibilur hafði kastað því uppá skerið svo að það fórst fyrir algjørlega. Á skipinu voru 40 farþiggenda af háfum stigum og lágum, høfðu sumir erindi að reka, en sumir ætluðu að freista hamingju sinnar og

leita sér frægdar og fjár undir nýu heimsskauti. Þeir hofðu látið í haf þann tíma árs, þá er skipgaungum er hin mesta hætta búin.

Skipsforínginn lét setja út bátinn undireins og skipið kenndi grunns á rifinu, en torvelt veitti að koma allri skipshofninni ofaní bátinn, svo var mikið svartnættið og hrædilegt. Menn fólu sig á hendur Guðs forsjón og logðu til hafs frá skipinu í von um að ná einhversstaðar landi.

Nú máttu allir sjá, að báturinn var um of hlaðinn, og þó ollum þeim hlutum, er menn að eins gátu án verið, væri þegar kastað útbyrðis, enda nauðsýnlegustu klæðum, þá léttist samt eigi svo mikið á bátnum, að hann gæti fleytt svo morgum monnum. Nú orvæntu farmenn um að geta náð landi. Oldurnar gengu hvað eptir annað yfir bátinn, en hann tók að rista dýpra og dýpra og þóttust nú allir þegar sjá fyrir, að eigi mundi langt um líða þartil hann sykki.

Skipsforíngi leggur nú ráð til, að menn kasti hlutkesti, skal tíu monnum, segir hann, kasta útbyrðis, að hinum sem eptir verða gefist kostur á að bjarga lífinu þá er báturinn er orðinn léttari. Auðsætt var að brýn nauðsýn bar

til þessara óttalegu úrræða, allir urðu á eitt sáttir að þeir skyldu láta hlutkastið ráða, með því hverr um sig vonaði að hann myndi komast hjá enu hryllilega hlutfalli eður að þeim myndi hlotnast að vera eptir í bátnum.

. Nú var hlutkesti kastað, en dauðans-kvíði kom inn hjá þeim er hlutfallið dæmdi til dauða í djúpi sjávarins. Sumir stórðu örvíngladir á sjóinn og bárn hug til að steypa sér útbyrðis, en við suma urðu menn að beita ofurefli. Á bátnum voru 2 bræður, þeir voru handiðnamenn frá Falstri, og hlant hinn yngri að steypa sér í sjóinn, en atburður þessi gekk öllum til hjarta. Hinn eldri flang um háls bróður sínum og grét hástöfum, hann bað hann fyrir alla muni að leyfa sér að deya í hans stað og stokkva ofaní ena opnu gröf hafsins, en þess var einginn kostur. Eldri bróðirinn bað skipsforíngja og alla menn á bátnum bera vitni um, að það væri frjáls vilji sinn og ásetníngur að láta lífið í stað bróður síns. Einginn vildi leiða í ljós hvað hann hugsaði um þetta efni. Hann kallaði hinn alvitra Guð sér til vitnis og bróður sinn, að það er hann nú myndi mæla væri einber sannleiki: „bróðir minn, segir hann, er hraustari miklu

enn eg og heilsubetri, hann er dugandi madur og miklu efnilegri enn eg, hann getur miklu fyrr ordid styrkur og stod módur okkar, er heima situr hjálparlaus, hann getur fljótar aflad sér fjár enn eg og gagnad meir mannlegu félagi," en sídustu ordin hans voru þessi: „bródir minn hefir skilid vid unnustu á ættjordu okkar, er eigi mun af bera harminn þá er hún fréttir hann látinn." — Ad svo mæltu sleit hann sig af þeim, er héldu honum og steypti sér í hafsins djúp.

Nú æptu allir er hann hafdi framkvæmt ásetníng þann, ad gánga út í opinn daudann fyrir sakir bródur síns — en almennum kveinstofum laust upp í sama vetfángi, því ýngri bródirinn steypti sér einnig í hafsins djúp. „Bjørgum þeim! bjørgum þeim!" æptu allir í senn þá er þeir sán ýngra bródurinn leggjast til sunds og strita vid oldurnar; honum tókst ad ná bródur sínum og vard hann, þótt hann væri syndur sem selur og hraustmenni mikid, ad neyta allrar orku til ad halda honum upp úr sjónum.

Fyrir mestu áreynslu og atorku tókst þeim, er á bátunum voru ad nálgast hina gofuglyndu brædur. Þeir voru ordnir svo ørmagna af

sundinu, að þeir ætluðu þá og þegar að sökkva. Nú voru þeir dregnir upp í bátinn með litlu lífsmarki, og er þeir komu til vitsins aptur, spurði hvorrtveggi: „hvar er hann bróðir minn?“ Hér bar raun vitni um bræðra-ást, en afl hennar lýsti sér jafnskjótt og þeir lifnuðu við aptur.

Hafið hafði þegið sínar fórnir; veðrinu slotaði þegar á leið daginn, en undir kvöldið kom enskt kaupskip, er bjargaði skipbrotsmönnunum og flutti þá til næsta lands.



## 11.

# Upp koma svik um síðir.

---

Einusinni sem optar uxu baldursbrár á baðstofu-þaki, þær voru blöðóttar mjög, en í einni þeirra er fegurst var allra, bjó Álfur. Hann var svo lítill, að eingu mannsbarni var unnt að sjá hann, að baki hvers blaðs á baldursbránni átti hann svefnherbergi; hann var undur vel varinn, fríður sýnum og vængjaður frá herð-

um til fóta. Herbergin hans voru hrein og veggirnir fagrir, þeir voru ekki annad enn laufblöd baldursbrárinnar, hin hvítu og hin smágjörfu.

Lidlángan daginn vermdi hann sig í sólskininu, hann flaug af einu blómi á annad, hann lék sér á vængjum ens fljúganda fidrildis og mældi hversu mörg fótmál hann yrdi ad gánga, til þess ad geta farid allar þær þjódbrautir og smágötur, sem liggja yfir eitt laufblad á birkihríslu. Pad voru ædarnar á laufbladinu, er honum virtust ad vera vegir lángferdamanna og afgötur; þad var líka óþrjótandi vegur fyrir hann, nóttin kom, sól rann í ægi, enda hafdi hann lagt upp býsna seint.

Nú fór ad kólna mjög, náttfallid vætti jördina en vindurinn blés; honum þótti rádlegast ad hrada sér heim og hljóp því sem fætur togudu, en þad var búid ad loka baldursbránni, hann komst ekki inn — eingin baldursbrá var opin. Aumíngja litli Alfurinn vard nú svo hræddur, hann hafdi aldrei fyrr verid úti eina nótt; ætíd hafdi hann sofid sætt í baldursbránni, þar var ilurinn nógur, en núna var svo kalt úti, ad hann sá sér bana búinn.

Hann vissi af laufskála einum, litlum út' í kálgardi, hafdi bóndi gródursett þar reinivídarhríslur, en límarnar tóku þannig hver í adra, ad ræfur var yfir en veggir og þak var af laufblodum. Inni í skálanum uru mariustakkar fíflar, umfedmingsgras, hrafnaklukkur, sólsekviur og ounur fogur blóm hvervetna lit; hann fýsti nú ad fara inn í eitt þeirra og sofa af til morguns.

Alfur tekur nú undir sig vængina og flýgur þángad. Þei! þar eru menn fyrir, fridur ýngissveinn og mær forkunnar fogur. Þau sátu saman og óskudu sér, ad þau þyrftu aldrei ad skilja, hverki um tíma né eilífd; þeim var betur hverju vid annad, enn besta barni vid fødur og módur.

„Vid verdum ad skilja!" mælti úngmennid, „bródir þinn er okkur óvinveittur, hann sendir mig á burt yfir lád og log í erindagjørdir. Vertu sæl, brúdur mín blída!"

Þau kystu hvert annad, en hin únga mey grét fogrum tárum og gaf honum eitt blóm; en ádur hún rétti honum blómid, kysti hún þad svo fast og innilega, ad þad laukst upp; var þá Alfur eigi seinn á sér, hann flaug inní blómid og halladi høfdinu upp ad hinum smá-

gjørvu ilmandi veggjum. Hann gat samt heyrt gløgglega, ad einhverr mælti á þessa leid: „vertu sæl! vertu sæl!" hann fann einnig ad blóminu var gefinn bústadur á brjósti únglingsins — en hvad hjartad bardist þar innifyrir! Alfur hinn litli gat ekki sofnad fyrir dunum og dýnkjum.

Blómid fékk eigi leingi ad liggja í nádum á brjósti únglingsins, hann tók þad hvad eptir annad úr barmi sínum og medan hann ráfadi einmana í næturmyrkrinu, kysti hann þad svo fast og títt, ad Alfur var nærri marinn til dauds. Alfur fann gløgglega ígegnum laufbladid brennanda hitann af vörum únglingsins, en blómid sjálft hafdi lokist upp eins og vid hinn mesta sólarhita þegar dagur er hæst á lopti.

Þá kom madur nokkurr svartur á brún og brá og svipillur mjøg, hann var slæmi bródirinn føgru meyjarinnar. Hann brá þegar miklu sverdi og beittu og medan únglingurinn kysti blómid, hjó hann af honum hofudid og gróf þad med búknum í mjúkri mold undir einum reynividi.

„Nú er hann frá og úr minni lidinn" hugsadi vondi bródirinn, „hann kemur aldrei

aptur, hann átti að fara lángferð eina yfir fjöll og fyrnindi, þá getur mart orðið að fjörlesti, enda er hann nú undir lok liðinn, hann kemur aldrei framar og systir mín þorir ekki að spyrja mig, hvar hann sé."

Síðan sópar hann með fætinum visnuðum laufblöðum yfir gröfina og gengur heim til sín í næturmyrkrinu; hann hélt sig vera einan á ferð, en það var öðru nær: Álfur hinn litli leyndist í einu laufblaði af reyniviðnum, það var visið og samanbögglað, hafði það dottið niðrí hárið á illmenninn þá er hann gróf gröfina.

Nú tók Álfi að sortna fyrir augum er vondi maðurinn lét hattinn á höfuð sér, hann skalf og titraði af ótta og bræði sökum vígsins er unnið var.

Vondi bróðirinn kom heim til sín áður dagur rann, tók hann þá af sér hattinn og gekk inn í svefn-herbergi systur sinnar; þar lág hin fríða mær og var hún enn í æskublómi, dreymdi hana þann, er hún unni svo mjög og sem hún hélt vera á ferð yfir fjöll og óbyggðir, en vondi bróðirinn grúfði sig ofan að henni og hlóg, eins og Kölski kvað gjöra, kaldahlátur; þá datt visnaða blaðið úr hári hans ofaná brek-

áuið, en hann varð þess ekki varr og gekk síðan til hvílu. Nú smaug Alfur út úr laufblaðinu, gekk inní [eyra ennar sofandi meyjar og sagði henni í draumi frá öllum málavöxtum, lýsti staðnum þar sem bróðir hennar hafði vígið unnið og dysjað líkið, fór nokkrum orðum um reyniviðinn, er stóð þar skamt frá og mælti: „til þess þú eigi haldir, að það er eg hefi sagt þér, sé tómur draumur, þá muntu finna í rekkju þinni visið laufblað," en hún fann það þá er hún vaknaði. O, hversu hún grét fögrum-tárum! eingum þorði hún að segja frá hryggð sinni! Gluggimi var opinn allan daginn, Alfi litla var auðvelt að fljúga út á þakið til baldursbránna, en hann gat ekki fengið af sér að skilja við ena hrelldu mey. Í glugghúsinu stóð jurtapottur með gróðursettum blómum, hann settist á eitt þeirra og starði á aumingja stúlkuna. Bróðir hennar kom einatt inn í herbergið, var hann þá illur mjög og gáskafullur, en hún þorði eigi að impra á, hve mikið hugarángur sér byggi í brjósti.

Jafnskjótt og dagur var að kvöldi kominn, læddist hún út úr bænum, gekk út á skóg til reynitrésins, sópaði burt laufblöðunum, gróf niðrí jörðina og fann þegar líkið. O, hvað

hún grét og bað til Guðs, að hún mætti deya við hlið unnusta síns! —

Fegin vildi hún bera líkið heim með sér, en hún gat ekki valdið því. Þá tók hún nábleika höfuðið með luktu augunum, kysti hinn kalda munn og hristi moldina úr enum fögru hárlokkum. „Þetta vil eg eiga!“ sagði hún, og huldi síðan líkið moldu og laufblöðum, en höfuðið tók hún heim með sér og dálitla grein af reynitrénu, er ór í skógnum þar sem vinur hennar var veginn.

Jafnskjótt og hún var komin inn í herbergi sitt, lét hún höfuðið í jurtapott einn mikinn, fyllti hann með moldu og gróðursetti í honum reynitré og ýmisleg blóm.

„Vertu sæl! vertu sæl!“ hvíslaði Alfur hinn litli henni í eyra, hann gat ekki lengur af borið að sjá öll þessi harmkvæli og flaug þessvegna út á þak til baldursbrárinnar sinnar, en blómið var af fallið, fáein fölnuð laufblöð héngu enn á stanglinum.

„O, hversu hið fagra og góða er fljótt á enda!“ mælti Alfur hinn litli og andvarpaði. Brátt fann hann samt aptur aðra baldursbrá, hún varð nú húsið hans; að baki hinna mjallhvítu blaða, tók hann sér bólfestu.

Á morgni hverjum flaug hann til glugga mærinnar, hún stód alltaf hjá jurtapottinum og grét; fögur tár hrundu nidur á reynividar-greinina, mærin fölnadi á degi hverjum, en greinin grænkadi og fridkadi. Hvad eptir annad bóladi á smágreinum, sídan uxu á þeim lauf-blod, en hún kysti þau. Vondi bródirinn sneipti hana og spurdi hvert hún væri med öllu ær ordin? Hann gat ekki þolad, ad hún gréti yfir jurtapottinum og eigi kom honum til hug-ar hverju þad gegndi Hann grunadi eigi ad augu únglingsins væri þar hulin né heldur ad raudu varir hans væri ordnar þar ad jördu. Mærin halladi höfdinu upp ad jurtapottinum, svona fann Álfur hinn litli hana sofandi. Hann gekk hljódlega inn í eyra hennar, minnti hana á kvöldid í laufskálanum, sagdi henni frá ilm blómsins og lýsti fyrir henni ást Álfanna. Hana dreymdi svo indælislega, en medan hana dreymdi, hvarf lífid í burt, hún leid í burt sem ljós, hún var þegar í himninum hjá þeim, er hún unni hugástum.

Nú urdu laufblodin á reynividnum nidur-lút mjög, odruvísi gátu þau eigi grátid hina látnu mey.

Vondi bródirinn leit hinn græna reynivid

og hin fogru blóm í jurtapottinum, tók hann undir sig sem erfdafé og setti hann hjá rekkju sinni, því hann var fagur ad líta og ilmur blómanna sætur mjøg. Álfur hinn litli fylgdist med honum og flaug af einu blómi á annad, í hverju blómi bjó dálítill andi, en hann sagdi þeim frá sveininum, er veginn var, hann skírdi þeim frá, ad hofud hans væri nú ordid ad jordu nidri jordunni, hann nefndi einnig illa bródurinn og aumingja systur hans.

„Vær vitum þad!“ sagdi hverr andi i blómunum, „vær vitum þad! erum vér ekki sprottnir upp af augum hans og vorum? vér vitum þad! vér vitum þad!“ — og þá lægdu þeir svo hjákátlega hofudin.

Álfur hinn litli gat ekki skilid hví þad sætti, ad þeir héldu kyrru fyrir eins og ekkert væri um ad vera; hann flaug því út til hunángsflugnanna og bar þeim fregnina um vígid, og hunángsflugurnar báru hana aptur til drottníngar sinnar, en hún baud þeim ad vega banamann sveinsins næsta morgun.

Nóttina eptir andlát systurinnar, þá er bródirinn svaf í rekkju sinni og reynividartréd stód vid rúmstokkinn, fóru andarnir út úr blómunum med eitrudum spjótum, þeir voru ósýni-

legir, settust þeir fyrst hjá eyrum hans og létu hann dreyma vonda drauma; því næst settust þeir á varir hans og stúngu túnguna með eitrudu spjótunum. „Nú erum vær" sögdu þeir, „búnir ad hefna hinna daudu!" og hvurfu aptur heim til sín.

Jafnskjótt og dagur var á lopti og badstofugluggannum var lokid upp, æddi Álfur hinn litli med hunángsflugna-drottningunni og öllum hennar flugna-sæg inn í herbergid til ad vega ad honum.

En hann var látinn; heimilisfólkid stód hjá rekkjunni og mælti: „gusan upp úr jurtapottinum hefir ordid honum ad bana."

Nú komst Álfur hinn litli úr skugga um hefnd andanna og gaf hunángsflugna-drottningunni vitneskju um vígid, en drottningin sveimadi sudandi med öllum sínum þernum í kríngum jurtapottinn. Þegar eigi tjádi ad reka á dyr flugurnar, tók heimamadur nokkurr jurtapottinn í hönd sér, en flugurnar stúngu hann í hendina, ad potturinn datt ofan á gólf og brotnadi.

Þá sáu heimamenn hvíta höfudkúpu og vissu þegar ad hinn framlídni hafdi unnid eitt víg.

En hunángsflugna-drottníngin sudadi í loptinu og saung um hefnd andanna og um Alf hinn litla; einnig lét hún á sér heyra, ad sá byggi ad baki ens minnsta laufblads er bædi gæti ljóstad upp verkum enna vondu og hefnt þeirra.



12.

## Litmyndin.

Senángur hét madur nokkurr, hann var ókvongadur og barnlaus. Framan af æfi sinni hafdi hann verid í förum, og nú voru þau árin lidin, þá er menn eru vanir ad leita sér kvonfángs, er samsvari lunderni þeirra og láti eigi ást þeirra ólaunada. Hann sló nú frá sér öllum giptinga-hug, því hann hélt ad eingin úng kona mundi geta lifad ánægd med honum, svo gömlum manni. Eigi heldur vildi hann fastna sér aldrada konu, því hann þóttist hafa fullt í

fángi með elli-annmarka sjálfs sín, en eigi vildi hann vera vottur að lasleika ellihrumrar konu.

Þetta kom Senángi til að lifa það eptir var æfinnar ókvongaður. Hann tók sér bólfestu á landeign sinni, er lá hérumbil 4 þíngmannaleiðir frá Bordeaux (Bordó). Þar lifði hann einföldu og hispurslausu lífi eins og sjómönnum er vandi til. Hann var maður auðugur að fé, hann hafði erft sparsaman föður og ágjarnan föðurbróður og barnlausan. Hann átti móðurættingja enn á lífi; þeir vildu hann feigan, að þeir gætu sem fyrst skipt með sér eigum hans. Hann varð að þola mikla ánauð af ættíngjum sínum, er jafnan höfðu með sér illa vanin börn; þau eyddu og brutu fyrir honum nýgræddan skóg, rifu sundur blómkerfin, tóku egg og únga úr hreiðrum saungfuglanna og feldu þá gömlu burt — í stuttu máli — þau bökuðu valmenninu svo mikinn harm, að hann ærðist optlega og misti alla þolinmæði og óskaði ættingja-skríl sínum niður undir allar hellur.

Þótt nú þessi hin óstýrilátu börn gjörðu honum optlega íllt í skapi, þá fóru samt mæður þeirra enn verr með hann. Þær hlupu innanum húsin hans, ráku nefin í alla hluti, létu

sig varða öll hans málefni, lögðu honum ráð óbeðnar, báðu hann sí og æ um hitt og þetta og fengu aldrei nóg; þær tóku saman ráð sín ámóti honum, rægðu við hann hjúin og fældu burt heiðarlega nágranna, er hinn gestrisna gamalmenni voru ætíð velkomnir. Þær kvörtuðu við hann án afláts yfir hvað hart væri í ári og gátu aldrei nógsamlega talið honum trú um, hve mikil heimska það væri fyrir gamlan mann að gipta sig.

Senángur var of hjartagóður til að flæma burt frá sér ættíngja sína, en þó sá hann fullvel, að þeir myndi eigi veita honum neina ástúðlega aðhjúkrun í ellinni, og að hann myndi eigi verða þeim harmdauði né leifa sér hjá þeim vinsamlega endurminníng. Sannfæríngin um þetta gekk honum mjög til hjarta; en á hinn bóginn gladdi hann sig við, að geta gróðursett nafn sitt meðal vandalausra, er uppi yrðu að honum liðnum. Hann veitti því mörgum mönnum velgjörnínga bæði ljóst og leynt. Að sönnu reyndu skyldmenni hans á allan hátt, að hamla honum frá því, og svo kvað ramt að, að þau drógu spott að, hvað hneigður hann væri til að gjöra gott af sér; skein þá út úr honum harmurinn og bræðin svo hyskið horfaði

á bak aptur, en hann lét ekki af að gjöra gott eins eptir sem áður.

Pareð Senángur átti eigi því láni að fagna, að eiga niðja, þá samgladdist hann þeim er feðyr voru eður mæður, hann vandi einkum komur sínar til fátækra bænda, er ríkir voru að börnum; hann hjálpaði fram börnunum, styrkti ekkjur og rétti hjálpar-hönd munaðarleysingjunum, er mist höfðu foreldra sína.

Auk margra annara, er nutu hans aðstoðar, var dálítill drengur, er Andrés hét, hann var sonur bláfátækrar bónda-ekkju. Drengurinn var ötull og prúðlyndur, hafði Senángur, þá er hann settist að á landeign sinni, hitt hann sjálfala og sent hann í barnaskóla, og þvínæst í kennslu hjá trésmið einum. Þar átti Andrés við magran kost að búa og var hart haldinn, en hann nam allt, það er hann viðþurfti til að geta fleytt sér vel fram í heiminum.

Andrés var jafnan látinn sækja helgar tíðir, og hafði hann alist upp í ráðvendni og góðum siðum. Tvisvar á ári hverju fór hann á fund við Senáng, hið eina skipti um Jónsmessu leitið til að samgleðjast honum á afmælis-degi hans, og í annað sinn á nýárs-

dag, til ad færa honum nýárs-óskir. Andrés lét með eingu móti fæla sig frá ad finna Senáng, þótt ættingjar hans gjördu sér far um ad tálma því; hann sat alla gesti af stokki þartil einn gamall skutulsveinn hleypti honum inn til velgjørdamanns síns, tók hann þá í hönd hans med þakklátsemi og laut honum kurteislega. Optastnær áskotnadist Andrési eitthvad í hvert skipti, færdi hann þad ætíd módur sinni, en hún keypti fyrir þad annadhvert vesti, hálsklút edur hatt handa honum til ad brúka á sunnudögum.

Ad lokum vard Andrés fullnuma i handidu sinni, og þá er meistari hans hafdi gefid honum mjög gódan vitnisburd, gaf Senángur honum nýan klædnad og hét honum, þegar hann væri búinn ad læra betur handidn sína erlendis og kæmi aptur, ad styrkja hann til ad geta tekid sér þar bólfestu sem meistari. Þó leid nokkurr tími ádur enn Andrés færi ad heiman.

Í þessu millibili kom Senángur einn dag til meistarans, er Andrés smídadi fyrir sem fullnuma sveinn, og færdi honum brot af gömlu skipi, er hann eittsinn hafdi strandad á á náttarþeli; hafdi hann rekid lánga hríd um

hafið á flekunum áður enn dagur rann og honum varð bjargað. Hann kom með mæliþráð til trésmiðsins og bað hann búa til úr trénu umgjörð utanum litmynd eina; átti umgjörðin að vera öldúngis viðhafnarlaus og án allrar prýði, þeirrar er þá var tíðkanleg, en að öðru leiti sterk og staðgóð. Andrés kostaði kapps um að smíða umgjörðina nákvæmlega eptir fyrirmælum eigandans. En meðan umgjörðin var í smíðum, töluðu þeir Andrés og húsbóndi hans mart um þær hættur, sem Senángur mundi hafa ratað í á þessum gömlu flekabrotum. Þegar umgjörðin var fullsmíðuð, bar Andrés hana til Senángs og fékk hjá honum fagran gullpening til merkis um að honum hefði líkáð vel smíðin.

Nú bjóst Andrés til ferðar, og var í burtu 6 ár. Á þessum tíma starfaði hann að smíðum í mörgum borgum á Frakklandi og að lokum í sjálfri Parísarborg, og lærði hann mart það er átti skilt við handiðn hans. Hann gætti ávallt jafnlyndis og góðra siða í öllum sínum lifernisháttum eins og hann hafði vanið sig á í æskunni. Enda þótt dvöl hans í borgum þessum hefði orðið honum býsna útdragssöm, lagði hann samt nokkuð upp af launum

sínum og sendi það móður sinni, er þá var orðin mjög hrum af elli.

Að lokum bjóst hann til heimferðar í því skyni, að taka sér bólfestu sem meistari í þorpi því, er hann var fæddur í og vera ellistoð móður sinnar.

Þá er hann kom heim var mikil breyting á komin í þorpinu. Fyrrveraudi meistari hans hafði flutt sig búferlum lángt í burt frá þorpinu af því hann skorti þar atvinnu; sjúkleiki móður hans var ólæknandi, Senángur var svo sjúkur að hann hafði legið heilt ár í kör.

Vesælings Andrés átti nú mjög örðugt uppdráttar. Fyrir mikla atorku og áreynslu gat hann að eins unnið sér inn það er hann þurfti til aðhjúkrunar og fæðis handa móður sinni ástúðlegri. Hann hafði fengið ást á meyju einni, er var starfsöm mjög og ráðvönd, hafði hún tekið vel bónorði hans, en faðir hennar neytaði þverlega að gipta honum hana. Kofinn er þau móðir hans bjuggu í, var seldur, og innan skams áttu þau að flytja sig; sárnaði það móður hans mjög, er hún hafidi búið þar um 40 ár í blíðu og stríðu. En hún deyði skömmu fyrir fardaga og 6 vikum seinna varð hennar harmfulli sonur ásamt öðrum syrgjandi

landsetum ad fylgja líki síns ágæta velgjørdamanns, Senángs til hins sídasta hvílustadar.

Nú þóttist Andrés vera ógæfusamur, einmana og yfirgefinn af øllum í heimi. Kólétta einsaman unni honum, en fadir hennar hafdi komid henni fyrir í streingilegt vardhald hjá módursystur hennar. Módir hans og adstodarmadurinn voru undir lok lidin, nokkrir æskuvinir hans voru kvongadir og í miklum metum og áttu vid betri kjør ad búa enn hann, en sumir þeirra voru erlendis. Andrés unni mjøg þorpinu, þar er hann var fæddur, og med gledi hafdi hann horfid heim aptur til stadar þess, er honum þótti fagrastur í heimi, til þess ad dvelja þar þad eptir var æfinnar, en harmur hans og bágindi geingu nú svo nærri honum, ad hann ásetti sér ad fara erlendis ef honum kynni ad audnast þar betra hlutskipti.

Senángur var nú dáinn — þó seint þætti ættingjum hans, er gjørdu sér von um ógrynni fjár — og varla var hann kominn undir græna torfu ádur erfingjar hans flýttu sér ad skipta med sér arfinum. Þeim vard sídur enn eigi óglatt í gedi er bæjarfógetinn og næsti sýslumadur komu fram med skjal nokkurt, er geymdi

seinustu rádstöfun Senángs. Í þvi voru tilteknar ýmsar gjafir, og mælt svo fyrir ad allt innan stokks: **tángur og tötur** skyldi selja á uppbodsþingi og andvirdid út hluta fátæklingum i þorpinu; allt annad skyldi gánga til løgerfíngja hans.

Erfíngjarnir gjørdu allt sem þeim var unnt, til ad ónýta þessa rádstöfun Senángs, en henni var eingu ad sídur veitt fullnusta. Gjafirnar voru greiddar í vidurvist dómaraus af peníngum Senángs og dagur ákvedinn þá selja skyldi alla lausa muni. Ættíngjarnir komu einnig á uppbodsþíngid, þeir gátu eigi leynt med sér ólundinni og gjørdu gis ad hirdslum Senángs og nidrudu þeim sem mest máttu þeir, og eigi kom þeim til hugar ad kaupa neitt til minníngar um látinn vandamann og velgjørda, mundu þó margir menn, sem eins stód á fyrir, hafa keypt sér einhvern menjagrip hversu dýr sem ordid hefdi. Ad lokum var bodin upp litmynd hins framlidna, er líktist honum mjøg; hún var í umgjørd, er smídud var úr flekabrotunum, sem hér var getid ad framan.

Andrés var staddur á uppbodsþínginu; hann var albúinn til ferdar og ætladi hann

næsta dag eptir ad yfirgéfa fædingarstad sinn. Hann gekk inn í salinn til þess enn einusinni ad dvelja þar, sem hann svo optlega hafdi séd adstodarmann sinn, talad vid hann og þegid svo mikid gott af honum. Andrés hafdi á sér fáeina peninga, þarámedal gullpeninginn, er Senángur hafdi gefid honum þá er hann færdi honum umgjordina, hafdi hann geymt gullpeninginn eins og nokkurs konar heillapening enda þótt honum hefdi optsinnis á legid, ad grípa til hans á ferdum sínum.

Harmur og gremja kom nú yfir Andrés er hann var sjónarvottur ad, hvernig sundrudust munir Senángs og komu morgum óverdugum í hendur, hann vard gagntekinn af óþokka til ættingjanna, er hann vard þess áskynja ad mynd Senángs í umgjordinni sem hann hafdi smídad var bodin upp, og heyrnarvottur ad morgu hnisilyrdi um umgjordina, hve fornsáleg hún væri. „Ættlerarnir!" sagdi hann vid sjálfan sig, í því hann hvesti augun reiduglegur upp á skyldmenni skipsforingjans; med tárugum augum virti hann fyrir sér eptirmynd velgjordamanns síns. — „O, þér óþakklátu! er þetta sú virding, er þér eigid ad audsýna hinum gofuglynda manni? eru þetta þakk-

irnar fyrir allar þær velgjörðir, sem hann hefir látið þeim í té?" Meðan menn buðu í litmyndina varð Andrés ολdúngis hamslaus; hann fór ofan í vasa sinn og hugsaði sig ekki lengur um að verða hæðstbjóðandi. „Guð mun hjálpa mér!" sagði hann við sjálfan sig í hálfum hljóðum og tók þegar upp ofurlitinn peníngapúng. Hann varð og hæðstbjóðandi, og urðu margir til að kíma og gjöra gis að fátæka trésmiðnum er hann keypti litmynd skipsforingjans. Hann borgaði hana með gullpeníngunum, er honum hafði þótt svo mjög vænt um, reifaði hana vandlega og þaut af stað heim til sín. Á leiðinni nam hann staðar, hann kysti hina dýrmætu litmynd, en á meðan runnu fögur tár niður eptir kinnum hans. Maður nokkurr kom hlaupandi eptir honum, hann var ofursti í skipaliðinu, og bjó í nágrenninu; hafði hann einnig verið á uppboðsþínginu, en kom offeint til að geta keypt litmyndina, er hann lángaði mjög til að eiga. Hann elti nú kaupandann, náði honum og bauð honum tvofalt andvirði — þrefalt — tífalt; en það kom fyrir ekki. „Eg sel hana ekki fyrir nokkurn mun," mælti Andrés einarðlega og þarvið lenti. Hann fór nú heim til sín með litmyndina. Að vísu datt honum

í hug, að nú ætti hann ekkert skotsilfur til ferðarinnar til Lyon*) (Líong) þar hann hefði látið í burt gullpeninginn, en í sama bili sagði hann við sjálfan sig: „Guð mun eflaust hjálpa mér! eg vil eta og drekka því minna og gánga þess hraðara þángað sem eg get unnið mér nokkuð inn." Hann kysti litmyndina og hresti upp hugann. En hvert átti hann nú að fara með svona stórt og þúngt myndaspjald? Þetta olli honum hugarángurs. Tekið það með sér gat hann ekki! En hverjum gát hann trúað fyrir því þar í þorpinu? Eingum, því honum þótti svo sárt að skiljast við hina ástkæru mynd. Hann hafði einmitt keypt myndina í þeim tilgángi að hafa hana fyrir augum sér, hugga sig og gleðja sig við hana. Hann vildi með eingu móti sjá af henni, og hugsaði um á allar lundir, hvernig hann mætti hafa hana með sér. Þá kom honum í hug að losa frá spjaldið sem var að baki myndarinnar og taka út línið er á var pentuð myndin, vefja það vandlega saman og flytja það með sér; þegar hann væri búinn að fá sér starfa, ætlaði hann að smíða nýja umgjörð haglega gjörva utanum myndina og hengja

*) Borg þessi stendur suðaustarlega á Frakklandi.

hana síðan á vegginn í herbergi sínu að hún yrði hið fyrsta sem hann liti þegar hann vaknaði og hið síðasta áður hann sofnaði. „Já, þetta er óskaráð,“ mælti hann og klappaði lof í lófa. Samt vildi hann eigi láta gömlu umgjörðina farast. „Eg ætla, segir hann, að biðja guðföður minn, barnaskólakennarann, (er hann þá dvaldi hjá) að geyma hana vandlega þartil eg sæki hana sjálfur eða hann sendir mér hana þá er eg hefi fengið mér einhvers staðar atvinnu.“

Þannig mælti Andrés við sjálfan sig og gekk þegar inn í stofuna til húsbónda síns og heimilismanna. Hann sýndi honum dýrgripinn er hann hafði keypt, skirði honum frá áformi sinn og bað hann að geyma fyrir sig umgjörðina, og tók bóndi því vel. Hann sótti nú tól til að ná út litmyndinni og lagði varlega hönd á verkið.

Þegar er búið var að losa spjaldið aptaná, var pappírinn, er undir lá, vandlega tekinn burt, en nú fundu menn bréf mikið, er náði út yfir alla myndina aptaná, því var þessi utanáskrift: **„Til núveranda eiganda litmyndar þessarar.“** Andrés og skólakennarinn undruðust mjög. Skólakennarinn setti upp gleraugun sín, las í

annad sinn utanáskriftina, skodadi nákvæmlega ættarmerkid á innsiglinu og gat þó ad lokum ekki lagt nein ráð, þá er Andrés spurdi, hvad hann ætti ad gjøra. Samt sem ádur rédu þeir af ad láta sækja bæjarfógetann; þeir skirdu honum frá hvar komid var og bádu hann leggja ráð til hvad gjora skyldi. Bæjarfógetinn brosti og mælti þannig: „hér er einginn vandi úr ad ráda, utanáskriftin er hond hins framlidna skipsforíngja og signetid hans er audkennilegt; eg og margir adrir bæjarmenn erum vottar þess, ad Andrés keypti litmyndina í umgjordinni á uppbodsþínginu og borgadi hana réttilega; hann er nú vel ad henni kominn og ad ollu því sem henni fylgir; bréfid er til hans, og má hann þegar brjóta þad upp, vera má hinn framlidni hafi gjort í því einhverjar ráðstafanir, sem eg er viss um, ad Andrés framkvæmir ef honum er þad audid.“ „O, feginn, feginn! æpti hann, braut þegar upp bréfid og fann ad þad var fullt med bánkabréf. Medal þeirra lá opid bréf, er Senángur hafdi sjálfur skrifad. Annad skjal var þar og þessa efnis:

„Herra Senángur skipsforíngi komst því midur ad raun um á degi hverjum, ad ættingjar hans høfdu eigi gódan þokka á honum

og að þeir óskuðu sér að geta komist sem fyrst yfir eigur hans. Þótt þeir hefðu verðskuldað að hann gerði þá arflausa, þá gat hann samt eigi fengið það af sér fyrir sakir barna þeirra; en hann gat eigi stillt sig um, áður enn hann dæi, að veita þeim manni velgjörning, er áþreifanleg rök væru fyrir, að hefði unnt honum meir enn ættingjar hans. Í þessum tilgángi hafði hann gjört þá órjúfandi ráðstöfun, að allir hans lausu munir skyldu verða seldir á uppboðsþingi, og andvirðið til falla fátæklingunum í þorpinu, með því litmyndin yrði þá einnig boðin upp. Hann hafði af ásettu ráði látið setja myndina sína í hið sterka og klunnalega hulstur, er var smíðað á fornfálegan hátt. Hann hafði gjört sér von um, að sá, er girntist að eiga hans lifandi eptirmynd, hefði virt hann og elskað; þessum manni gaf hann 25,000 fránka*) í bánkabréfum. Senángur gladdi sig við þá hugsan, að ættingjarnir myndu kaupa litmyndina svo að hún yrði í ætt sinni, og efaði ekki, að þeir myndi smíða utanum hana fegri umgjörð og finna þannig ráðstöfunina; en ef vandamenn hans skeyttu eigi um að eiga

*) Einn fránki er hérumbil 34 skildíngar silfurmyntar.

myndina, sem hann að sönnu grunaði, og létu hana koma vandalausum í hendur, þá skyldi niísir þessara 25,000 fránka vera maklegt málagjald fyrir kaldlyndi þeirra og ræktarleysi. Ef svona færi, óskaði Senángur af öllu hjarta, að einhverr fátæklíngurinn og einkanlega einhverr af hans kæru landsetum yrði kaupandi að myndinni og eigandi að peningunum."

Undir gjafabréf þetta hafði Senángur sett nafn sitt og innsigli og sömuleiðis fylkisstjórnin; var á því algjörlega lögmæt skipan svo að eigi mátti ónýta. Menn ímyndi sér nú gleðina sem allt í einu kom yfir þá, er voru viðstaddir þegar búið var að lesa bréfið. Andrés varð öldúngis utan við sig, hann kom ekki fyrir sig, að þessu gæti verið svona varið og vildi að fleiri embættismenn yrðu til kvaddir. Bæjarfógetinn lét þá kalla tvo embættismenn, er nú voru á uppboðsþínginu, og sem þeir höfðu lesið bréfið og séð að gjörníngurinn var öldúngis lögmætur, báðu þeir Andrés sem enn var frá sér numinn, njóta vel fjárins. Þessi atburður varð bráðum hljóðbær. Ættíngjar Senángs höfðu mál ímóti Andrési og vildu láta ónýta gjafabréfið; fyrst heimtuðu þeir peningana handa sjálfum sér og þegar þeim

tókst það ekki, þá handa fátækum, svo Andrés skyldi eigi njóta þeirra. Hvervetna voru þeir gjörðir apturreka, hverr maður gjörði gis að þeim og þaráðsan urðu þeir nauðugir viljugir að borga málskostnaðinn.

Ósk Senángs varð með fullu og öllu framgengt. Einn af landsetum hans og fóstnrbörnum hreppti þessar 25,000 fránka. Ást, virðing og þakklátsemi knúði Andrés til að kaupa litmynd velgjörðamanns síns, er gjörði hann að velmeganda manni.

Þessi hin skyndilega umbreyting á Andrésar högum greiddi honum veg til að öðlast það hnoss, er hann var orðinn úrkula vonar um að geta fengið. Hann fékk sinnar ástúðlegu Kólettu, reisti bú í þorpinu, er hann var fæddur í, og bjó þar til æfiloka, heiðraður og vel metinn af öllum.



## 13.

# Töframaðurinn Doctor Fást.

## (Prestur á tal við úngan bónda.)

---

Bóndi: „Prestur góður! eg hefi hérna bók eina nýa, er eg keypta í kaupstaðnum á dögunum, hún segir frá atburði nokkrum, er mér þykir mjög undarlegur, munda eg varla trúa honum væri hann ekki prentaður.“

Prestur: „Því er miður, Bjarni minn, að mart má einnig á prenti lesa sem torvelt er að trúa, en hvað heitir bókin þín?“

(Bóndi les framan á bókina:)

„**Galdramaðurinn doctor Jóhann Fást, lærisveinn úr svartaskóla, samníngur hans við djöfulinn, hans undarlega líf og óttalegu afdrif.**“

„Paradauk er myndin hans á fyrstu blaðsíðunni, svo hann verður þó að hafa verið til.“

Prestur: „Maður nokkurr, er hét Jóhann Fást hefir að vísu verið til og er hans víða

getið; eg hefi einnig lesið um annan Fást, er ekki var jafn merkur maður sem Jóhann Fást. En fyrst þú hefir lesið bókina, þá getur þú að líkindum sagt mér frá efni hennar með fám orðum."

Bóndi: „Já! eptir því sem bókin segir, á Jóhann Fást að vera borinn og barnfæddur að Sonnvedel í fylkinu Anhalt. Hann var af bænda-stétt, foreldrar hans voru vænir menn en félitlir. Föðurbróðir hans var auðmaður mikill og bjó að Vittenbergi, honum varð ekki barna auðið. Þegar hann frétti að bróðurson sinn væri vel fallinn til bókmenta kom hann honum í skóla og varð hann að lokum vel lærður doctor. En þá er hann hafði erft auðæfi föðurbróður síns, eyddi hann þeim og sóaði í bílífi og gjálífi í félagi óráðvandra manna og lastafullra. Þegar hann tók að skorta fé, fór hann í svarta-skóla og nam þá list að særa til sín vonda anda. Fyrstu tilraunina gjörði hann um miðnætti innani hring nokkrum er hann hafði markað á krossvegi. Síðan gjörði hann samning við djöfulinn: djöfull hét að þjóna honum um 24 ár og veita honum allt, er hann girntist; Fást þarámót skuldbatt sig til að afneita guði og helgum

auda, hann lofadi ad vera fjandmadur mannanna, einkum prestanna; aldrei ad fara til kirkju; aldrei ad gánga til gudsbords og aldrei ad gipta sig; en þegar 24 ár væri lidin, skyldi hann vera eign djöfulsins med sál og líkama. Samníng þenna vard Fást ad skrifa úr blódi sínu, og spretti þessvegna med pennaknífnum sínum í dálitla æd á vinstra handleggnum. Upp frá þeim tíma veitti honum hinn vondi andi öll hin nýu klædi og skrautlegu, er hann fá vildi, hann gaf honum 6 edur 8 krásir matar á degi hverjum og margskonar vín og útvegadi honum lausakonu eina, en sú var Helena hin fagra frá Grikklandi. Herbergin í húsum hans voru prýdd fögrum uppdráttum. Í 2 stofum mátti heyra allskonar fugla-saung undur sætan. Húsagardurinn var fullur med allskonar alifugla: kapúna, endur og hænsni o. sv. frv. Lystigardurinn hans líktist mjög aldingardinum, paradís; í honum var aldrei vetur, því hann var grænn árid umkríng; þar uxu allskonar tré og jurtir; á ennu fegursta víntrjám héngu margskonar vínberja-kersi fullvarin; þaradauk voru þar önnur fögur aldin og skrautleg blóm. Fyrir adstod andans drýgdi hann margar syndir og framdi mörg illverk, fleiri

enn frá verdi sagt. En þegar einn mánuð áskorti, að 24 ár væru liðin, kom yfir hann hinn bitrasti kvíði fyrir dauðanum, er kvaldi hann miklu meir enn óbótamanninn, er á hverri stundu væntir hegningar; því nú birti kölski sjálfur honum dauðadóminn, sagði honum upp þjónustu sinni og leiddi honum fyrir sjónir ódáðaverk hans, er hann yrði að bæta með lífi sínu og sálu og deya tímanlegum og eilífum dauða. Nú ydraðist Fást fyrst synda sinna eins og Kain fordum, og fór í huganum yfir illverk sín og sá hvernig hann á svo stuttum tíma, sem ekki er nema eitt augnablik í samburði við eilífðina hafði skilið sig við hinn himneska fagnað; en þareð hann gat ekki gjört sér von um nokkra huggun né um sanna iðran og sanna trú á Jesú Kristi verðleikum og fyrirbón, þá rann líf hans á enda með ótta og skelfingu er hinn ákvarðaði tími var að þrotum kominn og skildaginn fyrir hendi. Um miðnætti datt á veður ógurlegt mjög, húsið skalf og titraði, en í stofu Fásts heyrðu menn hvín og ýlfur þvílíkast sem þar hefði verið tómar nöðrur og höggormar; einnig heyrðust grimdarleg högg og dynkir. Fást þarámót heyrðu menn æpa og andvarpa. Snemma morgnuinn

eptir sáu menn blóðslettur á borðum og bekkjum og á veggjunum, tennunum var stráð um gólfið, en kroppurinn fanst framinn ísundur úti á mykjuhaug skamt frá húsinu, og hvert bein molbrotið. Þegar líkið var flutt til grafarinnar datt á veður mikið svo líkmönnum þótti sem burtför hans myndi býsna ófarsæl, og að hann myndi hreppt hafa bústað þann, þar er þjáningar hans og kvalir aldrei fengi enda.

Mig lángar nú til að vita, hvert slíkur Jóhann Fást hafi verið til og hvert hann hafi veðsett sig djöflinum."

Prestur: „Eg get nú sagt þér, að nýa bókin þín er býsna gomul þótt þér virðist annað. Ártalan, þegar hún var rituð í öndverðu mun varla finnast og því síður nafn höfundarins; en efni hennar ber það með sér, að lángt muni síðan hún var samin. Eigi að síður gæti hún verið góð, en hún virðist að vera rituð á hjátrúarfullum tímum, þegar trúin á tröllum og galdri var almenn, mun og höfundur hennar hafa vitað hversu alþýða er sólgin í að lesa um yfirnáttúrlega hluti og þessvegna haft í hyggju að græða peninga á bók þeirri, er segði frá einhverju óalmennu og óvenjulegu sem afdrifum Fásts. Því næst máttu vita,

að menn hafa sannar sögur af manni einum markverðum, er hét Jóhann Fást, en hann var aldrei í svarta-skóla og aldrei hafði hann lagt stund á galdur, jafnvel þó menn á einum hjátrúarfullu tímum er hann lifði á, héldu hann vera töframann. Þessi Fást var ríkur gullsmiður, bjó hann í borginni Mainz á Þjóðverjalandi hérumbil fyrir 400 ára; hafði Jóhann Gúttenberg, er fyrstur manna fann upp prentverkið, leitað hjálpar til hans og fengið hjá honum að láni peninga til þess að geta borgað kostnað þann, er leiddi af prentun fyrstu bókarinnar. Síðan gjörðust þeir Fást og Gúttenberg félagar og störfuðu að prentverkinu með Pétri Sjøffer duglegum manni og hugvitsömum, hann hafði um lángan tíma alið aldur sinn í Parísarborg á því að skrifa upp bækur; hann hjálpaði nú til að gefa út fyrstu bókina, en það var sálmabók á latínu og var hún prentuð árið 1457. Hinar fyrstu bækur, sem prentaðar voru, litu út sem væru þær skrifaðar, kom það af því að menn myndudu stafina eptir múnkaletrinu, sem tíðkaðist um þær mundir. Þegar Fást var búinn að prenta nokkrar bækur, fór hann hvervetna með þær og seldi þær á torgum lærðum

mönnum og námfúsum og audgadist mjög á þeim. Á medan var Sjöffer heima og starfadi ad prentun fleiri bóka; en mönnum þeim, sem þjónudu honum, hélt hann sem illvirkjum í nokkurskonar vardhaldi, ad þeir gætu eigi ljóstad upp íþrótt þessari, er hann grædди svo mjög á, medan hún var leyndarmál. Þad lætur því ad líkindum, ad ýmsir menn, er voru samtída Fást og gátu ekki skilid, hvernig hann á svo stuttum tíma færi ad skrifa upp svo margar bækur, og þaradauki litu ofundar auga til audæfa þeirra, er hann afladi sér, héldu list hans, er hann hélt leyndri, vera töfra eda galdur, er hann fremdi fyrir adstod vondra anda. Vera má, ad Fást hafi med þessum hætti verid haldinn galdramadur, sem hefdi ordid ad ofurselja sig djöflinum til þess ad hann á svipstundu gæti eignast ógrynni fjár, og hleypidómur þessi hafi þá þróast og íklædst margskonar diktum, til ad mynda um krossveginn þar sem hann særdi til sín djöfulinn, um samninginn skrifadan úr blódi hans, um óhóf hans og sællífi og hryllilegu afdrif. Um allt þetta hafa menn ekki neinar sannar sögur. Á fáum dögum gat Fást prentad margar þúsundir af sömu bókinni, en þetta þótti mönnum, þeim

er lifðu á hans dögum, harla undarlegt, og af því hann hélt aðferð sinni leyndri, héldu menn hann vera galdramann. Nú þarámóti veit hverr maður, er séð hefir prentsmiðju, hvernig bókaprentan er háttað og þykir allt eðlilega framfara."

Bóndi: „Var prentlistin þá eigi lengur leyndarmál?"

Prestur: „Nei! þó Fást og Sjoffer leituðu við á allar lundir að halda henni leyndri, þá tókst þeim það samt eigi. Prentsveinar þeirra, er vorn orðnir leiðir á að vera í sífeldu varðhaldi, þráðu lausn sína á hverjum degi, en eigi gafst þeim færi á að flýja fyrr enn árið 1462 þá er Mainzborg var tekin herskildi og öllu var umturnað í prentsmiðju Fásts eins og annarstaðar. Fjöldi manna flúði af borginni, þarameðal prentsveinar Fásts. Þeir tóku sér aðsetur sumir á Þjóðverjalandi, sumir á Frakklandi og Vallandi og voru þeir hvervetna velkomnir sökum þess þeir kunnu að prenta bækur. Það leið ekki á laungu þartil fleiri borgir miklar t. a. m. Agsborg, Nyrnberg, Rómaborg, Feneyjar og Florenz fengu prentsmiðjur. Annarr Fást, er lifði á dögum Lúthers stundaði bókmentir í Kraká á Pólinalandi, virðist hann að

hafa leikið sjónhverfingar og sýnt monnum íþróttir sínar, er í rauninni voru eldúngis edlilegar og samkvæmar logum náttúrunnar, en sem hjátrúarfullir menn tileinkudu adstod djofulsins; eda hann hefir verið svikari, er lagdi stund á ad hræda trúgjarna menn med því ad telja þeim trú um ad hann væri hádur djoflinum og ætti vingott vid hann. Það er ad líkindum hinn sídast nefndi Fást, sem ad sonnu var madur ómerkilegur, er hjátrúin hefir gjort ad galdramanni þeim, er bókin þín segir frá, enda þótt hann hafi ekki fremur getad sært til sín vonda anda, enn menn geta það nú um stundir. Vid þekkjum því ad eins 2 Fásta er til hafa verið, en eingan eins og þann, er bókin þín lýsir; samt eru líkindi til ad sá, er sídast var getið, hafi sokum síns órádvanda lifernis og sjónhverfinganna talið monnum trú um, ad hann væri toframadur og á þenna veg gefið tilefni til skroksogunnar, er þú hefir þarna um doctor Fást."

Bóndi: „Fyrst það er ósatt, ad Fást særdi til sín djofulinn og seldi sig á vald hans, þá getur víst einginn madur á vorum dogum látið hann koma til sín og vedsett sig honum."

Prestur: „Aldrei var sá madur, er megn-

adi ad særa svo vonda anda (er þú veitst ad Gud þyrmdi ekki, heldur steypti þeim nidur til helvítis, ad þeir geymist þar til dómsins) ad þeir birtist hér á jørdunni i mannsliki og annadhvert skadi menn edur hrædi; en þvi er verr og midur, ad þeir menn eru til, sem eru svo illir ad þeir egna menn til reidi og ósáttgirni, um þá má med sanni segja, ad þeir leidi i ljós óeiningar og reidi anda. Ef nokkurr madur á vorum døgum væri svo heimskur og djarfur ad reyna til ad semja vid vonda anda edur ofurselja sig þeim med blódi sinu, þá getum vid verid vissir um, ad Gud muni ekki leysa enum føllnu einglum, þar sem Jesús Kristur hefir kollkastad riki þeirra, ad taka vid þvilíku skuldabréfi. Þarámót eru þeir menn ennþá til, þvi er midur, sem hafa vid en verstu rád og skirrast ekki vid neina synd, þegar þeir halda ad þeir á þann hátt geti ødlast audæfi, nád heidri og notid holdlegs munadar; um slika menn má einnig segja, ad þeir hafi gefid sig djøflinum á vald, ad þeir vili vera rikir, heidradir og virtir edur megnugir um ad svala fýsnum sinum."

Bóndi: „Fyrst svona er, þá hefi eg varid peningum minum illa, er eg keypta søguna af Doctor Fást."

Prestur: „Þú hefir varið þeim vel, því nú ertú betur að þér enn áður, þar sem mér gafst kostur á að fræða þig og eyða hjá þer trúnni á töfrum og galdri og á því að menn geti samið við djöfulinn og veðsett sig honum fyrir peninga. Þú ert að sönnu ekki sá eini maður, er hálfvegis trúir, að takast megi, að vekja upp dauða menn og senda drauga, fremja fukl og fjölkýngi og veðsetja sig vondum anda; því eg hefi kynnst við fleiri enn einn mann, sem hafa borið svo lítið traust til hins Almáttka, skapara himins og jarðar, að þeir hafa borið á brjósti sér gamlar skruddur með vitlausum stafamyndum, er þeir héldu mundu varðveita þá frá öllu grandi, en einkum frá draugum og apturgaungum, er þú veitst að eigi geta gjört neinum tjón, og hversvegna? af því hinn Almáttki, er einn getur gefið verum líf, hefir enn ekki svo menn til viti, skapað slíkar verur! Hvað bókina þína snertir, þá má fræðast af henni þó hún sé gömul ef menn taka hana fyrir dæmisögu, en varlega skaltu kaupa bækur, — að undanteknum fornaldar sögunum okkar — er hafa verið skráðar fyrir heilli eður hálfri öld, því vísindi og allskonar mentir taka sífelt framförum, svo að mart af því, er fyrrum þótti satt og rétt, reynist nú á annan veg.

„Hvad bókinni þinni ennfremur vidvíkur, þá leidir hún fyrir sjónir hversu mikil dirfd og fávitska þad væri, ef menn stofnudu hinni eilífu farsæld sálarinnar í hættu til þess ad geta ødlast audæfi og notid holdlegra unadsemda í þessu enu ørstutta lífi. Nú ef einhverr madur væri svo ósvífinn syndari, ad hann hætti annars heims sælu sakir gulls og silfurs, sem ekki er annad í sjálfu sér enn málmur jardarinnar, þá mætti hann heita doctor Fást, og því er midur, slíkir menn finnast enn á vorum døgum. Ef sagan af Fást getur sannfært þig um, hversu óforsjállega slíkir menn haga sér og styrkt þig í þeim ásetningi, aldrei ad leita jardneskra audæfa edur holdlegs munadar á óleyfilegan hátt og syndsamlegan, þá er peningunum, er þú borgadir med bókina, prýdilega varid."

Bóndi: „Nei! gjarna vil eg vera ríkur, en ad vedsetja mig fjandanum edur hafast nokkud íllt ad til þess ad afla mér jardneskra muna, er fara ad forgordum þá minnst von um varir — til þess lángar mig ekki; þarámót vilda eg heldur finna júngfrú Hamingju og bidja hana gjøra svo vel til min ad gefa mér púng-

inn hans Fortúnatus*) eður óskasteininn, er eg hefi lesið um fyrir skömmu."

Prestur: „Þú verður að segja mér þessa sögu þá er við finnumst aptur."

## Frá Fortúnatus púngnum hans og óskasteininum.

Bóndi: „Fortúnatus var borinn og barnfæddur í borginni Famagustu á eynni Kýprn; á únga aldri fór hann til ýmsra landa og leitaði sér frægðar og fjár. Á ferðum sínum villtist hann einusinni í miklum skógi, reikaði hann þar í 2 dægur fram og aptur, húngraður og örmagna. Þegar er tók að kvölda og hann gat ekki lengur dregið sig áfram sökum húngurs, þorsta og þreytu, heyrði hann nið í læk einum; hann gekk þángað og drakk úr lækunum og er hann hafði svalað sér, hresstist hann mjög. Meðan hann sat á lækjarbakkanum, kom máninn framm svo að honum gaf að líta margskonar villudýr, er nálguðust og drukku úr lækunum. Hann klifraði nú upp í eik eina mikla í skógnum til að fela sig, en bjarndýr eitt sá hann

*) gæfusamur.

og tók ad klifra upp eptir honum. Þegar Fortúnatus var kominn svo hátt sem hann átti kost á, lagdist hann á eina greinina, brá sverdi og særdi bjorninn hvad eptir annad í höfudid. Bángsi vard reidur, braut eina grein af trénu og bardi Fortúnatus med svo miklum ákafa, ad hann (bángsi) misti jafnvægid og hrapadi ofan úr trénu med oskri og ollum illum látum, fælduſt þá hin dýrin og hurfu á burt. Þegar oll dýrin voru farin nema bángsi, er lá undir trénu og gat ekki hreift sig úr spornnum, sótti svo mikill svefn ad Fortúnatus, ad hann óttadist fyrir ad hann myndi detta ofan úr eikinni og meida sig. Hann skreid því ofan, drap bjorninn med sverdi sinn, sotradi blódid úr benjum hans og hresstist vonum framar. Hann óskadi sér ad hafa eld til ad steikja vid kjotbita af birninum, en svo mjog sigradi svefninn hann, ad hann hné nidur vid hlid ens dauda bjarnar og svaf lengi. En þegar hann vaknadi um morguninn, leit hann mey eina forkunnar fagra, er stód frammi fyrir honum og mælti svofeldum ordum: „óttastu ekki Fortúnatus! eg em hin ástsæla Hamingja, er útbýtir lánsfénu medal mannanna. Eg á 6 gjafir gódar: speki, aud, afl, heilbrigdi, fridleik og lánglífi, þú getur nú

kosið þér hverja sem þú vilt.“ Fortúnatus hugsaði sig ekki lengi um og svaraði þegar: „eg kýs mér auðinn svo eg hafi ætíð nóga peninga.“ Hún tók þá upp hjá sér púng einn, gaf hann Fortúnatus og mælti: „svo opt sem þú ferð með þumalfingur og vísifingur ofaní púng þenna, þá muntu finna einn gullpening. Náttúra þessi skal fylgja púnginum meðan þú og börn þín lifa og gildir einu hvert hann er í geymslu ykkar eður annarra, en þegar þið eruð dáin, missir hann náttúru sína. Gættu hans því svo vandlega, að einginn ræni þig honum. Þegar Fortúnatus kom til næsta gestgjafahúss, reyndi hann náttúru púngsins, varð hann þá mjög glaður við er hann fann einn gullpening, og eigi leið á laungu uns hann bað bónda færa sér mat og drykk. En þareð hann eyddi óforsjállega peningum þeim, er púngurinn veitti honum, komst hann optlega í kröggur meðal manna þeirra er héldu hann vera þjóf, sem hefði stolið peningunum, eður sem öfunduðu hann af auðnum og reyndu til að ræna hánn eður stela frá honum. Þó smokkaði hann sér úr öllum þessum vandræðum; átti hann það mest að þakka heilræðunum, er hinn gamli Hygginn, virkta vinur hans og fósturbróðir

hafdi lagt honum. Þegar fram lidu stundir fékk hann Marmórín hinnar fögru, konúngsdóttur frá Kýpru, en vid henni gat hann 2 sonu. Einusinni fór hann til Miklagards og fékk ad skoda dýrgripi Soldáns. Soldán sýndi honum stein nokkurn, er ekki var mjög ásjálegur, og kvad sér þykja vænst um hann af öllum sínum gersemum. Fortúnatus kvadst furda sig á því, en Soldán skírdi honum frá náttúru steinsins og mælti: „sá, er hylur stein þenna í ennum vinstra knefa og óskar sér ad vera kominn á einhvern stad, hverfur þángad á svipstundu." Fortúnatus hugsadi þá med sjálfum sér: ef eg ætti stein þenna, þá hefdi eg jafn mikid gagn af honum sem púngnum mínum. Sídan mælti hann til Soldáns: „steinn þessi mun vera býsna þúngur." Soldán baud honum þá ad reyna, en ódar enn Fortúnatus huldi hann í greipinni, óskadi hann sér ad vera kominn lángt á burt, og á þenna hátt eignadist hann óskasteininn. Þá er Fortúnatus hafdi farid um alla vída veröld, hélt hann kyrru fyrir og kostadi kapps um ad ala vel upp sonu sína, en þegar Marmóría kona hans dó, sýktist hann af hryggd og grunadi ad líf sitt mundi

að þrotum komið. Nú kallar hann til sín sonu sína, Pál og Pétur, sagði þeim frá náttúru steinsins og púngsins og band þeim að skilja aldrei að dýrgripi þessa og aldrei að segja nokkrum manni, hversu góðan vin sem þeir ætti, frá kostum þeirra. En þegar Fortúnatus var dáinn, fékk Páll bæði steininn og púnginn, því hann var eldri enn Pétur. Nú bað Pétur bróður sinn um steininn, en þess var einginn kostur, samt lét hann sér eigi lynda fyrr enn hann hafði fengið púnginn, því hann lángaði svo mjög til að fara um víða veröld og kynna sér ókunna staði, en til þess þurfti hann á peningum að halda. Hann fór nú úr einu landi í annað og ávann sér mikla frægð í turneríngum eður atreiðum. Einusinni hné hugur hans til ástar við Geirþrúði hina fögru, dóttur Breta konúngs, en þá er hún hafði talað svo um fyrir honum, að hann skírði henni frá, hvaðan hann fengi alla sína peninga, þá gaf hún honum svefndrykk og tók frá honum heillapúnginn. Eptir þetta fór hann til fundar við bróður sinn og fékk af honum óskasteininn; síðan kom hann í margar borgir, keypti gull og gimsteina, lét þá í vasaklútinn sinn og óskaði sér svo í burt þá er hann átti að

greiða gjaldið; hann óskaði sér einnig púngsins aptur frá konúngsdótturinni og skilaði hann þá bróður sínum óskasteininum aptur. Nú kom skraut hans og auðæfi inn ofund hjá 2 jörlum, tóku þeir hann höndum og settu í varðhald í kastala einum, er stóð lángt frá mannabyggðum. Þegar Páli var farið að lengjast eptir bróður sínum og ekkert spurðist til hans, þá grunaði hann að Pétur mundi vera í óvina höndum og óttaðist fyrir að þær hinar sömu hendur myndi þrýsta að sjálfum honum þartil hann léti af hendi óskasteininn. Hann tók því í bræði sinni steininn, muldi hann til agna og kastaði þeim í eldinn svo eingin skyldi hafa gagn né gaman af honum. Litlu síðar tók hann sótt af því honum kom eigi fregn af bróður sínum og andaðist síðan af hriggð og gremju.

Annarr af ofríkismönnunum, er hét Hlöðver, píndi Pétur svo mjög í dýblissunni að hann varð að láta af hendi púnginn og skira frá kostum hans. Nokkrum tíma síðar uggði Arnaldur jarl að konúngur myndi fregna meðferð þeirra Hlöðvers á Pétri og hvar hann væri niðurkominn og bjóst við að konúngur myndi gjalda þeim makleg málagjöld, en til þess að vera ugglaus um sig og óhultur, þá

drap hann Pétur í dýblissunni. Nú lángadi jarlana heldur enn ekki til ad reyna náttúru púngsins, en hversu opt sem þeir gjordu tilraun, fundu þeir eigi neinn gullpeninginn, enda var náttúra púngsins horfin, því Fortúnatus og synir hans voru dánir. Nú sokudu jarlarnir hvorr annan um ad hafa stolid heillapúnginum út úr skápnum þar sem hann var geymdur og ad þeir hefdi látid annan eins í stadinn. Þeir tóku nú vopn sín og borduft þartil Arnaldur féll óvígur. Hlodver var tékinn og færdur konúngi, vard hann þá ad segja konúngi frá ollum málavortum og játa hvad þeir Arnaldur jarl hofdu haft í frammi vid Pétur, en dómendur dæmdu þá daudasekа og voru þeir sídan hálshoggnir."

Prestur: „Fyrst þú kannt alla soguna frá upphafi til enda þá getur þú sagt mér hvert þú vilt heldur eiga óskasteininn eda púnginn eda hvorugan þeirra."

Bóndi: „Ef óskir mínar mættu sér nokkurs, þá vilda eg helst eiga báda, því þad kæmi sér vel ad hafa ætíd nóga peninga og þaradauk ad geta horfid hvert á land sem mér líkadi, en stædi mér annarrhvorr til boda, þá munda eg kjósa mér púnginn."

Prestur: „Hefirdu þá ekki tekið eptir, að Fortúnatus komst í ýmisleg vandræði vegna púngsins og að Pétur sonur hans týndi lífinu fyrir hans sakir?"

Bóndi: „Ef eg ætti slíkan púng, þá munda eg hafa við meiri kænsku og forsjá; eg léti mér nægja svo mikið sem eg þyrfti á að halda handa heimili mínu, að eingiun maður furðaði sig á, hvaðan eg fengi peníngana né öfundaði mig af auðæfum mínum."

Prestur: „Þú vilt þá ekki taka meiri peninga úr púngnum enn þú gætir unnið þér inn með starfa þínum; en þá sé eg ekki hvert gagn þú hefir af honum. Það er og hætt við að þú yrðir ekki lengi stöðugur í þeim ásetníngi, heldur létir freistuna til að verða ríkur, ginna þig, og þó það færi ekki eins fyrir þér og Pétri, að þjófar stælu frá þér og ofríkismenn rændu þig auðæfum þínum, þá væri samt ekki trútt um, að þú bærir gæfu og vit til að verja auðnum réttilega eður að hann gjörði þig eigi drembilátan og kæmi þér til að drýgja margan glæp og fremja óréttindi. Því einsog Fortúnatus girntist svo ákaflega óskasteininn einmitt vegna þess hann átti púnginn og náði honum með svikum, eins sýnir reynsl-

au, að mikill auður, einkum þegar hann kémur að óvörum, eður fæst með léttu móti, leiðir mennina í freistíngar, er æsa svo upp óskir þeirra og girndir, að þær verða ótemjandi og láta þá ekki svífast neins, er hjálpar þeim til að fullnægja laungun sinni. Eg held þessvegna að sagan um Fortúnatus og púnginn hans eigi að vera dæmisaga, og að einkatilgángur hennar sé að kénna oss, að hygginði eru meir verð enn auðæfi og að auðæfin einsaman geti einganveginn gjört mennina farsæla, heldur að þau leiði oss í margskonar snörur og freistíngar, svo það sé ekki vert að sækjast eptir þeim. Þú veitst það líka af ritníngunni, að Salómon, þegar honum stóð til boða lánglífi, auðæfi, vegsemd og speki, breytti hyggindalega, er hann kaus sér spekina."

Bóndi: „Flestir mundu þó vilja vera auðugir, ef þeir að eins gætu orðið það."

Prestur: „Þó nú svo væri, þá getur sú hin almenna eptirsókn auðæfa ekki verið rök til, að þau geti gjört mennina farsæla. En þaraðauk eru margir menn til, sem eigi vilja vera ríkir nema á þann hátt, sem góðum mönnum og ráðvöndum sæmir."

Bóndi: „Þér getið þó ekki neitað því,

prestur góður, að margir munu þeir vera, er ekki afla sér jarðneskra muna á réttan veg."

Prestur: „Því er miður, það er satt, sem þú segir, og kemur það af því, að þeir láta sér ekki nægja, það er þeir við þurfa."

Bóndi: „Að líkindum mun eg ekki eignast púnginn hans Fortúnatus, enda mundi mér það ekki hent; en óskasteininn mundi aldrei olla mér ógæfu; ef eg ætti hann, þá gæti eg á svipstundu farið á hvert landshorn sem eg vilda."

Prestur: „Gafstu ekki gaum að því, að Pétur keypti gull og gersemar og hvarf svo á burt sem þjófur og ræningi fyrir hjálp óskasteinsins. Ef vondur maður ætti óskasteininn, gæti hann að ósekju framið mörg illverk. Eg get heldur ekki séð, að óskasteinninn, sem reyndar er ekki til í náttúrunni væri oss hentugur, en eg held að dæmisagan sé einmitt samin til þess að sýna, að yfirnáttúrlegar gáfur og kraptar eru jafn óhæfilegir í höndum breiskra manna sem rakhnífurinn í barns höndum. Páll fór því vel að ráði sínu, er hann muldi steininn svo enginn gæti gjört illt með honum."

Bóndi: „Mér skilst nú, prestur góður, að saga þessi muni ritud eins og aðrar dæmisøgur handa børnum, að þau geti, svo að segja, þreifað á þeim sannindum, er høfundurinn hefir haft fyrir augum; þykir mér því ráðlegt að láta krakkana mína lesa þesskonar søgur hátt og snjallt á kvøldvøkunum að vetri, þeim sjálfum og fullorðnum til gagns og gamans."

Prestur: „Þetta líkar mér vel, en þú verður að kenna børnum þínum að lesa latínuletur, því þess mun eigi lángt að bíða, að þér bjóðist falleg saga, sem prentuð er með því letri."



# GRÍSIR GJALDA EN GÖMUL SVÍN VALDA.

Þeim, sem einusinni hefir verið á *Vallandi*, mun þykja gaman að endurminnast starfsemi þarlendu barnanna; er hún einkar eptirtekta verð í hinni nafnfrægu *Nýborg (Neapel)*. Dagbók ferðamanns nokkurs skírir greinilega frá athöfnum þeirra.

„Börnin hafa margskonar sýslanir á hendi: sumkoma með fisk til sölu frá „*Santa Lúcia*", önnur hafa aðsetur sitt í grend við skipsmíðahúsið eður timburfletina, þar er þau safna kubbum og trèspónum. Þá eru þau, er reika um sjávarströndina og taka undir sig það, er af sjó rekur og hverfa síðan heim, þá er þau hafa fyllt smákarfir sínar. Tveggja og þriggja vetra börn gánga í fèlag með fimm og sex vetra gömlum drengjum og leita sèr atvinnu á ýmsan hátt. Í miðri borginni eiga þau sèr markað eitt lítið

þar er þau breiða út til sýnis varníng sinn svo haganlega sem auðið er. Daglaunamenn og aðrir menn lægri stèttar kaupa að þeim eldiviðinn, annaðhvert til að verma sig við eður til að sjóða við hann fátæklegan miðdegisverð. Sum börn bera vatn um kríng til sölu frá einskonar hverum, drekka menn vatn þetta mjög á vorum. Önnur kaupa fyrir nokkra skildínga aldin, hunáng, sætabrauðs kökur, sveskjur og rúsínur og selja það í smáskömtum öðrum börnum, en hafa að lokum að eins lítinn hluta ókeypis handa sjálfum sèr. Það er í sannleika skrítilegt að sjá, hvernig dálítill drengur, sem ekki á nema fjalarstúf og kníf til í eigu sinni, getur með melónu eður epli safnað utan að sèr fjölda barna og skorið aldin sín í smá-bita handa kaupanautum sínum. Kaupendurnir hafa ekki af honum augun, þeir hyggja vandlega að, hvert hann muni gefa þeim nóg fyrir litla koparpeníngin þeirra, en sölumennirnir smáu eru að sínu leiti eins forsjálir, er þeir gefa eingum of mikið.

Sannsögli, ráðvendni og hreinskiptni sýna snemma að hverju gagni barn verður. Sölu-

mennirnir þekkja bráðum skaplyndi skiptavina sinna. Hinn ráðvandi sölumaður auðgast jafnan fyrr eða síðar, en svikarinn verður uppvís að prettum, hversu kœnn sem hann kann að vera, og tekur makleg málagjöld er honum verður fyrirmunað markaðið.

Auk margra annara dœma, þykir tilhlýðilegt, að segja hèr söguna af *Pètri* og *Fransikus*. Báðir drengirnir voru komnir af fátækum foreldrum, þeir ólust upp við áþekk kjör og voru gœddir jöfnum náttúrugáfum; en þareð þeir fengu ólíkt uppeldi, urðu þeir ólíkir í hegðan sinni.

*Fransikus* var sonur vínyrkjumanns. Jafnskjótt og hann lærði að tala, vandi faðir hans hann á, að fylgja streingilega sannleikanum, hann innrœtti honum snemma, að einginn maður gæti reiðt sig á þjófa og svikara og taldi honum trú um að hinn vissasti vegur til þess að aðrir fengju á oss góðan þokka, væri sá: í raun rèttri að vinna til hans. Áminníngar föðursins fèllu í góða jörð hjá drengnum, en hið góða eptirdœmi vökvaði og frjófgaði sáðkornin. *Fransikus* heyrði

aldrei annað enn einberan sannleikann af munni föður síns og var þess jafnan sjónarvottur, að hann var hreinskilinn og ráðvandur í öllum viðskiptum við kaupanauta sína. Þegar á barnsaldri breytti *Fransikus* að dœmi föður síns og var hið mesta afbragð í ráðvendni, og þessvegna báru leikbrœður hans svo mikið traust til hans, að þetta var orðið að máltæki hjá þeim: „eins ráðvandur og *Fransikus*".

„Eins váðvandur og *Fransikus*", mælti faðir *Pèturs* einusinni þá er hann heyrði þetta, „látum þá segja hvað þeir vilja, en eg segi: eins kœnn og hann *Pètur*", við munum fá að sjá hvorr betur kemst framm í heiminum". Af því hann vildi gjöra son sinn kœnan og brögðóttan, þá varð úr honum svikari; hann kendi honum, að það væri hinn besti verzlunar-máti, að villa menn um kosti og gángverð hlutanna og að ábatast svo mjög sem auðið yrði á vangá kaupendanna. Optlega hafði hann við máltækið: „kaupandi þarf hundrað augu, en sölumaður að eins eitt"; enda sýndi hann með mörgum dœmum að málshátturinn væri sannur.

Hann var fiskari, og af því ávinníngur hans var fremur kominn undir heppni enn fyrirhyggju, reiddi hann sig jafnan á hendínguna. Hann var vanur að liggja í landi liðlángan daginn með letinni, en að kveldi kastaði hann út netinu sínu; nú ef hann var svo heppinn að veiða einn fisk feitan, þá skundaði hann glaður í bragði til nágranna síns, vínyrkjumannsins og mælti: „þú verður að þrælka baki brotnu frá morgni til kvölds til að vinna fyrir mat þínum, lítt' á! eg starfa að eins fáein augnablik og fæ í kaupið ekki einúngis daglegt brauð, heldur og einnig daglegan fisk". En fiskimaðurinn gleymdi jafnan hversu marga daga og stundir hann varð að liggja í landi og bíða byrjar og hversu optlega hann varð að leggja netið sitt og fá ekkert í aðra hönd. *Pètur* litli flatmagaði jafnan við hlið föður síns niðr' í fjöru, eður hann sleikti sólskinið og vaggaði sèr í fiskibátnum. Af þessu vandist hann á iðjuleysi og ómennsku, en faðir hans afsakaði hann með svofelldum orðum: „hann er svo úngur enn".

„Hvað heldurðu verði úr honum *Pètri*

þínum, nágranni"? mælti vínyrkjumaðurinn opt og tíðum, „hann er svo stór og sterkur og leggur þó eigi stund á annað enn strákapör; eg hefi nú fundið hann uppí dagstæðan hálfan mánuð millum víntrjánna minna". „Hann er barn enn þá og ber ekki skynbragð á það", svaraði faðirinn. — „Ef þú kennir honum það ekki meðan hann er barn, hvað mun þá verða úr honum á fullorðins árunum"? spurði vínyrkjumaðurinn. „En þú skulir fá þèr svona lítið til! það gjörir þig hverki ríkan nè fátækan, þótt vinberin sè einu fleiri eður færri í garði þínum". „Eg hafði orð á þessu til góðs fyrir son þinn, en eigi vegna vínberjanna", svaraði vínyrkjumaðurinn, „eg segi þèr, nágranni, enn einu sinni, ekkert verður úr syni þínum ef þú tekur eigi í tíma að hafa hemil á honum". En fiskimaðurinn skelldi við skolleyrunum og hugsaði með sèr: hann *Pètur* litli mun þó komast fram í heiminum, því leggi hann netið mitt, dreg eg það aldrei tómt upp aptur; það er betra miklu að hafa heppnina í fylgi með sèr enn teljast með þessum ofhyggnu mönnum".

Slíkar kenníngar heyrði *Pètur*, því miður, of opt af föður sínum, og hlýddi hann þeim gjarna, því auðveldara er að treysta gæfunni enn að leggja hart á sig til að læra eitthvað nytsamlegt. „Heyrðu, drengur minn", sagði eittsinn faðir *Pèturs*, „hvað ertu gamall"? „tólf vetra, er ekki svo? 6 mánuðum eldri enn *Fransikus* og 6 árum kœnni. Hèrna, taktu við þessum fiskum, berðu þá til *Nýborgar*, sjáðu svo um, þú getir selt þá vel. Í gær kom eg um of seinan á torgið, en núna tekur einginn eptir, að fiskarnir sè gamlir nema ef þú segir frá því sjálfur". „Eg er nú ekki sá heimskíngi", mælti *Pètur* og hló, „það er *Fransikus* heimilt að gjöra í minn stað. Ímyndaðu þèr, faðir minn, hvað heimskur hann er: í hinni vikunni varð hann að sitja uppi með eina melónu óselda einmitt af því hann sneri upp sköddudu hliðinni þegar kaupandinn rètti honum peníngana, og þar á ofan var kaupandinn fávitur skósveinn, sem að líkindum aldrei hefði leitt sèr í hug, að melónur hafi tvær hliðar ef hann hefði eigi verið frœddur á því". — „Hlauptu nú á torgið og láttu mig

sjá, hvað þú dugir til; láttu aðra hafa augun hjá sèr; þú skilur mig, *Pètur*"! — *Pètur* skildi of vel, að faðir hans mat lítils hreinskilni og ráðvendni og að honum var meira í mun að fá sem mest fyrir fiskana. *Pètur* fór af stað, lèt fiskana fala á torginu einkum þeim mönnum, er honum þóttu trúgjarnir, og auðvelt að tæla, hrósaði fiskunum mjög og kvað þá vera glænýa. Hyggnir menn sáu brátt, að hann fór með ósannindi og gengu fram hjá honum; en að lokum kom hans frábæra heppni, sem hann svo kallaði, honum til hjálpar: hinn litli grunnhyggni skósveinn, er hafði ætlað að kaupa melónuna að *Fransiskus*, kom nú í grend við hann, og tók hann þegar að æpa: „fiskur, feitur fiskur, glænýr"! „Hafa þeir verið veiddir í dag"? spurði skósveinninn. — „Já, í morgun, það er vart ein stund síðan", mælti *Pètur* með mikilli einurð og alvörusvip. Skósveinninn trúði honum og af því hann var erlendur og hverki skildi vel málið nè þekkti nákvæmlega á peníngana, þá varð *Pètri* lítið fyrir að leika á hann bæði hvað snerti fiskana og peníngana; hann fèkk tvöfalt

meira fyrir gömlu fiskana enn þeir voru verðir.

Á heimleiðinni til *Resína*, sem er þorp eitt lítið, þar er faðir hans bjó, náði hann *Fransikus;* reið *Fransikus* ofan á milli á klyfjuðum asna. Tvær karfir miklar voru á asnanum fullar af blómkálsleggjum, salatsblöðum og hvítkáls og öðrum leifum frá eldhúsunum í *Nýborg;* er vínyrkjusveinum heimilt að hafa þetta á burt með sèr til að meinga með áburð víngarðanna.

„Allvel fylltar karfir"! mælti *Pètur.*

„Eg vildi að eins óska, að þær yrði ekki of þúngar fyrir asna-tetrið" svaraði *Fransikus*, „hann skal þó fá að drekka hjá mèr ef hann kann að þyrsta", og þá er hann hafði þetta mælt, leiddi hann asnann þángað sem hann gat vatnað honum.

„Mèr kom ekki til hugar asninn þinn, heldur morgunverkið þitt, og vissulega muntu verða einusinni enn að vitja borgarinnar í sama tilgángi áður föður þínum þykir þú hafa nóg starfað"!

„Ekki áður föður mínum þykir nóg starfað, heldur sjálfum mèr", mælti *Fransikus.*

„Eg fullnœgi mèr og mínum föður og fæ mèr þó forræði á annan veg enn þú; líttu snöggvast á peníngana, er eg fèkk fyrir fiskana mína; eg fèkk svo mikið sem eg setti uppá þá; þú verður nú að játa, að mèr farnast ekki svo illa".

„Eg mundi skammast mín fyrir að beiðast ölmusu eður taka fè að láni".

„Eg gjöri hvorugt", mælti *Pètur;* „eg hefi einúngis haft við mitt hyggjuvit og farið að ráði mínu öðruvís enn þú fyrir skömmu, þá er þú hófst verzlan þína með því að snúa upp skemdu hlið melónunnar og fórst fyrir sakir sèrvizku þinnar á mis við ávinnínginn".

„Það þótti mèr rèttvíst og sama þótti föður mínum".

„Faðir minn hugsar á annan veg, hann segir: kaupandi verður að eiga hundrað augu, geti menn blindað þau, þá sè vel að farið. Eg vil nú að eins láta þig vita, að eg seldi fiskana, sem hann faðir minn gat ekki komið út ígær, eg seldi þá við tvöföldu verði, og hverjum? heimskingjanum, sem ætlaði að kaupa að þèr skemdu melónuna!

Eg er þó einginn klaufi, *Fransikus*, svona tekst mèr brátt að verða ríkur".

„Hœgðu nú á þèr lagsmaður", svaraði *Fransikus*, „þú gleymir því, að sá, sem þèr þótti fáráður í dag, verður hyggnari á morgun; að þèr kaupir hann aldrei framar fisk, því *illa kynntum einginn trúir*; en gjarna mun hann vilja eiga kaup við mig um aldin mín, því hann veit eg svík hann ekki. Þú hefir mist einn skiptavin, en mèr hefir bœzt einn".

„Ekki sèr högg á vatni, nógir koma samt kaupendurnir á torgið; kaupi eigi þessi þá kaupir hinn".

„Ætlarðu að haga þèr eins við alla"?

„Ef þeir að eins láta sèr það lynda", svaraði *Pètur* og brosti; því hann hugsaði: í kaupum og sölum eru svikin eigi annað enn klókskapur og hyggindi.

„Hyggur þú að því, að menn munu bráðum vita hvern mann þú hefir að geyma"?

„Kann vera, þegar til lengdar lætur, en ekki svo brátt; margur er maðurinn til. Í sumar mun mèr veita hœgt að hafa ofan

af fyrir mèr þótt eg missi kaupanaut á hverjum degi".

„En að sumri"?

„Þá koma dagar og þá koma ráð! eg mun þá leita annara bragða. Margir eru vegir verzlunarinnar, eins brögðóttur drengur og eg er, finnur þúsund í staðinn fyrir einn".

„Vera má, þú hafir í hyggju, að taka þèr bólfestu á barnatorginu og selja sikurnytur og kökur"?

„Mèr skyldi ekki verða mikið fyrir því"!

„En börnin mundu bráðum njósna óráðvendni þína og fá á þèr óþokka eingu síður enn fullorðnir".

„Eg mun láta falan eldivið og trèspæni, bera um kríng límónað*) og bjóða höfðíngjunum og aðra hluti óteljandi".

„Já, hreinskilnum sölumönnum og ráðvöndum verður ætíð varníngurinn sinn útgengur", mælti *Fransikus*, „hvervetna muntu komast að raun um, að góður orðstýr er hinn bezti auður. Hversu opt sem þú skipt-

*) l: sœtur svaladrykkur.

ir um atvinnuveginn, munu menn þó vita hverr þú ert".

„Geturðu tínt til meira"? spurði *Pètur* illur í skapi. „Þú öfundar mig og þolir eigi að heyra peníngana hríngla í lúku minni. Já, klappa þú asnakjálkanum þínum og settu upp vízku-svipinn; það er þó betra að vera heppinn enn hygginn, segir hann faðir minn. Vertu sæll! ef menn fá að vita hverr maður eg er, og ef hamíngjan snýr að mèr bakinu, þá get eg eins vel og „*ráðvendnis-maðurinn Fransikus*" rekið á undan mèr asna klyfjaðan með kálblöðum".

„Það kann enda að verða hlikkur á því; því ef þú ert ekki ráðvandur, þá færðu naumast karfir þínar fylltar".

*Fransikus* hafði satt að mæla; því ráðvendnin hans var orðin svo alkunn meðal skiptavina föður hans, að allir voru fúsir á, að eiga kaup við hann; af því að hann sveik eingan mann, voru honum allir velviljaðir og þjónustusamir, og þegar markaðinu var lokið fylltu þeir karfir hans með öllum úrgánginum. Starfsemin hans var óþreytanleg og vinnulaunin lítil, en óbrigðul,

og á degi hverjum skildi hann betur og betur sannleika málsháttarins: það eru hyggindi sem í hag koma.

Hinn útlenzki skósveinn, er *Fransikus* hafði verið svo hreinskilinn við eður svo heimskur, eins og *Pètur* komst að orði, var Einglendíngur; hafði hann skilið við föðurland sitt, er hann unni mjög, til þess að fylgja húsbónda sínum, er hann hafði einkar kæran. Höfðínginn var mjög lasburða, en únglíngur þessi lèt sèr svo annt um hann, að höfðínginn kaus hann helzt til fylgðar við sig. Þótt trúmennska hans og umhyggja væri mikil, þá var hann samt lítt vanur við að kaupa fisk; en þó hann hefði ekki verið nógu sèður til að forðast svikin í fyrstasinni, var hann samt hyggnari enn svo að hann lèti draga sig tvisvar á tálar; því brent barn forðast eldinn. Þá er hann mœtti *Pètri* aptur á torginu, vildi svo til, að hann fylgðist með nokkrum skósveinum enskum; hann benti á *Pètur* og gjörði þá vara við, hvílíkur refur hann væri. Með vantrúarfullu brosi hlýddu þeir á óp þetta: „fiskur, fiskur, glænýr fiskur, nýkom-

inn upp úr sjónum"! og lètu hann fara framhjá leiðar sinnar, störðu þeir þá á hann sem vildu þeir óvirða hann eður fyrirlíta, og gat hann hæglega skilið fyrirlitníngar-merkin, er leiðast í ljós með sama svip á öllum túngumálum. Hann misti meira í við þetta enn hann hafði ábatast á svikunum. Þar eð nœg voru fiskifaungin á torginu, fèkk hann ekki fiskinn sinn seldan.

„Er það ekki óþægilegt?" sagði hann um leið og hann ætlaði fram hjá *Fransikus*, er einmitt var að selja aldini; „litt' á! karfan mín er eins full og hún var þá er eg kom híngað, gáðu nú sjálfur að, hvort fiskarnir eru ekki glænýir núna. Einginn vill kaupa þá, einmitt af því útlenzki þrjóturinn hefir sagt frá, hvernig eg lèk á hann ígær".

„Að sönnu eru þeir nýir núna", svaraði *Fransikus*; en illa kynntum einginn trúir þó satt segi, af því þú laugst í gær, vill einginn maður trúa þèr í dag; brent barn forðast eldinn, segir faðir minn".

Nú lauk viðræðum þeirra, því úngi Eing-

lendíngurinn nálgaðist *Fransiskus;* hann tók í hönd sèr fagurt epli og mælti: „eg þarf ekki að skoða það, því þú mundir vissulega segja mèr ef það væri skemt. Hvað kostar það? þú heimtar ekki ofmikið, og eg, eða rèttara sagt, húsbóndi mínn, greiðir fúslega andvirðið. Gætu aldin þín gefið honum aptur heilsuna, skyldu þau að mínum vilja verða gulli goldin. Seldu mèr líka nokkur vínber"!

„Er lávarður yðvarr sjúkur? ef svo er, verðum við að tína úr hin bestu vínber" sagði *Fransiskus* um leið og hann tók upp ágæt vinberja-kerfi", þessi munu eflaust geðjast honum; en gætuð þèr að eins komið til *Resína!* þorpið liggur skamt hèðan; þar er víngarðurinn okkar feðganna, þar kynnuð þèr sjálfur að velja vínberin og tína þau hin nýju handa vesælíngs höfðíngjanum yðar".

„Guð launi þèr, góður drengur! eg skal að vísu leita þig upp í þorpinu þínu, skrifaðu upp fyrir mig nafnið, þó það væri þíngmannaleið þángað frá borginni, þá kem eg samt til fundar við þig, og svo sannarlega

sem eg heiti *Jón* og er frá *Einglandi*, skal eg með leyfi herra míns eiga kaup við þig einan; óskanda væri, að allir drengirnir hèrna væri jafn ráðvandir sem þú"! og í því hann sagði þetta, leit hann upp á *Pètur*, er hafði sig á burt sneipulegur mjög með alla sína fiska.

*Jón* efndi heit sitt: hann varð bráðum hinn besti skiptavin *Fransikus* með því hann á degi hverjum keypti að honum aldin. Greifi nokkurr, er *F*.... hèt, hafði boðið húsbónda hans, er var enskur maður, tíginn, að búa hjá sèr úti á lystigarði sínum meðan hann dveldi á *Vallandi*; lá lystigarðurinn skamt fyrir utan *Nýborg* og var þaðan stuttur skemtigaungu-vegur til *Resína*. Mikill fjöldi tignarmanna streymdi nú inní víngarð *Fransikus*, og sagdi *Jón* þeim með mikilli djörfúng söguna um skemdu melónuna.

Optlega sagði faðirinn við son sinn *Fransikus*, meðan *Fransikus* hjálpaði honum til að binda upp vintrèn: „sjáðu nú sonur góður, hvernig allir hlutir heppnast okkur fyrir sakir ráðvendni þinnar; henni eigum við að þakka blessanina; en þèr ber að njóta þar af þíns skerfs".

„Eg hefi þegar borið hann úr býtum, faðir minn góður, þar sem þú og hún móðir mín eruð ánœgð með mig; hvers þarf eg svo framar við"?

„Þú ert þakklátur sonur; en eg hefi einnig úngur verið, barnið mitt gótt; þú átt leikbrœður og verður að eiga skotpenínga til smárra útgjalda sjálfum þèr til handa; þetta víntrè og fíkjutrèð þarna og ein melóna á viku hverri skulu vera þín eign á næstkomanda sumri. Með þessu móti verður þú ekki hinn vesælasti kaupmaður á barnatorginu í *Nýborg*, er það og ósk mín, að þín kaupverzlan blómgist að því skapi sem mín hefir vaxið við ráðvendni þína".

„Margfaldar þakkir, ástkæri faðir, eg skal í sannleika leggja alla stund á, að vera þèr ekki til mínkunar"!

Hinn kœni *Pètur* hafði að lokum eigi borið úr býtum svo mikinn ágóða sem hinn ráðvandi *Fransikus*. Ekkert markvert hafði drifið á daga hans nema afleiðíngarnar af athæfi hans. Hann hèlt áfram, að svo miklu leiti sem hann átti kost á, að svíkja menn og draga þá á tálar, og þau urðu endalok-

in, að einginn vildi hafa neitt við hann að sísla. Faðir hans tók einkum að kenna á því: gamlir kaupanautar lètu skilið við hann, og þá er hann lèt sig sjá, sögðu allir honum frá, að *Pètur* sonur hans væri svo mikill svikari og bragðarefur, að einginn vildi líta framar við honum. Það var einn dag, að hann sneri heim aptur af torginu, klyfjaður með óseldar vörur, var hann þá gramur í geði af þessari ljótu fregn; en á leiðinni kom hann auga á bragðarefinn *Pètur* úti fyrir eplabúð einni lítilli, át hann þar með mestu græðgi epli. „Hvaðan færðu, átvargurinn þinn, penínga til að kaupa fyrir þetta sælgæti"? œpti hann og rendi að honum reiður í skapi.

*Pètur* hafði troðið svo fullan á sèr gúlinn, að hann mátti eigi mæla; enda beið ekki faðir hans svaranna, heldur fór hann með hendina ofaní vasa drengsins og fann þar býsna marga silfurpenínga.

„Faðir minn! það eru peníngarnir, sem eg fèkk ígær fyrir fiskana; eg ætlaði að fœra þèr þá í dag áður þú fórst af stað".

„Bíddu við, eg skal hjálpa þèr til að

muna betur í annað sinn, eg skal kenna þèr að fylla á þèr vömbina fyrir mína peníngа! Á eg að missa skiptavini mína fyrir þín strákapör og þar á ofan sjá þig eyða mínum peníngum í sælgæti? Þú ert hinn mest þrjótur, allir ljúka upp um þig sama munni, og þú ert tvöfaldrar hegníngar verður, er þú skirrist ekki við að svíkja sjálfan föður þinn! Þá er hann hafði þetta mælt, þreif hann í bræði sinni í *Pètur* og lúbarði hann í augsýn allra barnanna. En þessi refsíng var fremur hefnd enn hirtíng og þessvegna til einkis gagns fyrir drenginn; því *Pètur* skildi dável, að orsökin til bræði föður síns var fremur fólgin í því, að hann var orðinn uppvís að svikum, enn í því, að hann hafði eyðt peníngunum.

Hann kendi að sönnu sárinda á líkamanum, en eigi ángraðist hann af athæfi sínu; hann harðnaði meir og meir og misti alla sómatilfinníng, og eigi fyrirvarð hann sig þótt hann vissi, að hann hafði beðið tjón á mannorði sínu. Öll börnin höfðu verið vottar að atburði þessum, öll mundu þau laungum tíma eptir orð föðursins, en *Pèt-*

*ur* fann að eins til enna bitru afleiðínga.

Fyrrum hafði hann huggað sig við það, að hann ætti kost á öðrum atvinnuvegi ef honum brigðist fiskisalan; en því verr og miður rœttust orð föður *Fransikus*, „að trúmennska og góður orðstýr skapi auðuga kaupmenn og áreiðanlega".

Einginn af hinum smáu kaupmönnum í *Nýborg* vildi eiga fèlag við hann, þeir vildu enda ekki eiga kaup við hann þótt hann borgaði út í hönd með peníngum. „Fyrst þú hefir tælt þinn eiginn föður, þá muntu eflaust einnig svíkja okkur"; þetta varð hann að heyra úr öllum áttum; hvervetna mœtti honum fyrirlitníngin. Faðir hans skeitti eigi um hann, því hann gat eigi trúað honum fyrir fiskisölunni; öllu, því er honum var gefið heima, fylgdu þessi fyrirmæli: "slett' í þig, vera má það sè ekki nógu bragðgott handa þèr, fíkjur og epli mundu vissulega falla þèr betur". Nú leið þannig af veturinn, að *Pètur* átti við bágan kost að búa, von sú, að hið vonda háttalag hans myndi gleymast, brást honum með öllu, því að

mörgum mánuðum liðnum var það börnun um í vakanda minni; enda á sèjr illur orðstýr lángan aldur.

Enda þótt nú þessi hegníng hefði verið *Pètri* býsna tilfinnanleg, tók hann sèr samt eigi stakkaskipti; að sönnu fann hann til ógæfu sinnar þá er hann sat einmana á sjávarströndinni húngraður og töturlega búinn; samt sárnaði honum ekki sitt illa athæfi, heldur það, að hann var ber orðinn að svikum.

Þá er hann einn dag að vanda sat þarna svona ásigkominn, gekk *Fransikus* framhjá honum og bar á höfði sèr skál mikla með afar fögrum og ágætum vínberjum, en í hendinni körfu fulla af fíkjum og melónum. Hann kendi meðaumkunar er hann sá *Pèturs* raunalega útlit og nálgaðist hann hljóðlega; varð *Pètur* eigi varr við, áður *Fransikus* snart hann með hendinni. *Pètur* hrökk allur saman af hræðslu og sá fyrir andliti sèr hánga niður úr mannshendi vínberja-kerfi, rètti *Fransikus* honum það og mælti: „et *Pètur*, eg vona þer fallist á þau"!

„Þau eru ágæt, kærar þakkir, *Fransikus*! eg var svo sváugur, enda er eg það laungum. Einginn hirðir nú um mig; eg er nú ekki framar átrúnaðar-goðið hans föður míns. Að sönnu hefi eg bakað mèr sjálfur......".

„Hugga þig"! mælti *Fransikus*, „hann faðir minn segir ætíð: þegar einhverr hefir breytt illa og játar yfirsjón sína, þá mun honum eigi sjást yfir í annað sinn á sama hátt. Hèrna, taktu svo margar fíkjur sem þú vilt úr körfunni"!

*Pètur* leit nokkrar af hinum stærstu fíkjum, var hann þá eins og hann ætlaði að gleypa þær með augunum. „En", sagði hann, þá er hann hafði stúngið upp í sig nokkrum vínberjum, „steypi eg þèr ekki í vanda, ef eg tek svona mörg? Helldurðu ekki að faðir þinn sakni þeirra"?

„Geturðu ímyndað þèr, að eg myndi farga þeim ef eg ætti þau ekki sjálfur"? mælti *Fransikus*, og mátti þá sjá á svip hans, að honum gramdist spurníngin.

„Lát þèr eigi þykja fyrir, þó eg spyrði

þig að þessu; eg vildi ekki vera þess ollandi að þú yrðir fyrir illindum".

„Það er ekki svo hætt við því", mælti *Fransikus* með nokkurskonar sjálfbirgíngsskap.

„Mèr var síst um að koma þèr í vanda, þar eg á þèr svo mikið gott upp að unna", sagði *Pètur* mjög vingjarnlegur.

„Fáeinar fíkjur og eitt vínberja-kerfi er ekkert stórvægi; eg vilda eg gæti gjört meira fyrir þig", mælti *Fransikus* og brosti. „Mèr virðist þú vera orðinn býsna bágstaddur upp á síðkastið, þú sèst ekki framar á torginu".

„Hvernig átti eg að geta látið sjá mig þegar hann faðir minn var búinn að berja mig og kalla mig þrjót? Ef þú að eins vildir taka mig með þèr og vildir látast vera vinur minn, þá væri eg hólpinn, því þú ert inn' undir hjá öllum".

„Það er miklu fremur ósk mín að geta verið vinur þinn í raun rèttri, enn að látast vera það".

„Eg tala nú ekki um það sem bezt má fara".

Meðan þeir áttu tal saman, hafði *Fransikus* skipt aldinum sínum í tvo hluti jafna. „Værirðu í raun og veru vinur minn, *Fransikus*, þá lètirðu mig eiga hlut í verzlaninni".

„Eiga hlut í verzlan minni", sagði *Fransikus*, og vissi eigi hvaðan á sig stóð veðrið, „það hefir mèr reyndar ekki dottið í hug".

„Er þèr ekki um það? Geturðu það ekki"? sagði *Pètur* og fór að honum á bónarveg, „eg heiti þèr því, að eg skal vera þèr hlíðhollur og liggja eigi á liði mínu".

*Fransikus* setti hljóðan og horfði í gaupnir sèr; hann var í óþægilegri klípu. Að vísu kendi hann í brjósti um *Pètur* svona illa ásigkominn; en honum þótti sárt að segja honum, að ráðvendni væri nauðsýnlegri miklu enn atorkusemi.

„Geturðu það ekki"? spurði *Pètur* og grátbœndi *Fransikus*, því hann hèlt það væri kaupmanns-lundin sem stæði honum í vegi; „þú getur þó tekið svo mikið sem þú vilt af ágóðanum".

„Ágóðinn kom mèr nú ekki til hugar,

en eg verð að segja þèr það einlæglega: enn get eg ekki gjört þig að fèlaga mínum, samt get eg gjört eitt fyrir þig, og vera má, það sè þèr eins kærkomið: taktu við þessum ávöxtum og fáðu þèr sölustað á barnatorginu, eg skal fara á undan og tala við börnin og segja þeim, að þú hafir bætt ráð þitt og sèrt orðinn allur annarr maður, að þú, eins og eg vona, verðir heðanífrá ráðvandur maður og hreinskilinn".

„Vertu margblessaður, *Fransikus*"*!* mælti *Pètur* frá sèr numinn af gleði, og rètti út hendurnar eptir gjöfinni.

„En hagaðu þèr nú svo *Pètur*, að eg verði ekki að lygara fyrir þínar sakir"!

„Vertu öldúngis ókvíðinn! takist mèr eins og þèr að ávinna mèr hylli barnanna, þá prísa eg mig sælan".

„Vertu sæll! eg árna þèr alls góðs, eg verð að flýta mèr, að eg komi eigi of seint á torgið".

---

Þegar *Pètur* kom á torgið, mætti hann hvorki óvirðíngu nè fyrirlitníngu eins og áður; allir virtust að vilja trúa hans bót og

betran. *Fransikus* einum átti hann að þakka þessa viðtöku. *Pètri* fórst vel í fyrstu: hann gaf öllum, eptir sem börnunum þótti, góð kjör; fíkjurnar og vínberin voru bráðum útgengin, en fyrir andvirði þeirra keypti hann sèr daginn eptir ávöxtu. Hann var um lángan tíma í raun rèttri ráðvandur maður svo að hann fèkk vörur að láni hjá hinum smáu kaupmönnunum. Þeir hættu að hafa á honum vakanda auga. Sú tiltrú, er hann naut í fyrstu, var honum einkar geðfeld; en eins og tiltrúin til hans óx, eins þróaðist meir og meir freistíngin til að svíkja; hann var ekki nógu öflugur til að sigrast á henni, hann lángaði til að hafa við aptur gömlu lífernis-reglurnar. „Eg ávinn mèr að eins fáeina skildínga á degi hverjum; hvað gagnar mèr þá ráðvendnin mín"! *Fransikus* unni þarámót máltækinu: m a r t s m á t t g j ö r i r e i t t s t ó r t. En *Pètur* skorti þolinmæði til að ábatast smámsaman. Í fyrstu var hann nógu séður til að hafa í frammi smásvik, að einginn skyldi fá grun um þau; hann hafði orðið þess vísari, að smábörnunum þótti góðar mendlur og flekkóttir sik-

urhnettir. Hann keypti nú fyrir penínga þá, er hann híngaðtil hafði græðt, býsna mikið af þessu sælgæti og reisti upp staung á borðinu sínu með spjaldi á, en á spjaldinu stóð auglýsing þessi með gylltum stöfum: „hèr fást hinir ágætustu og stærstu sikurhnettir hvervetna litir, en steiktar mendlur í kaupbætir".

Öll þau börn, sem kunnu að lesa, hírnuðu við þessa auglýsíngu og sögðu hinum frá, er þetta enn var áfátt, með miklu fagnaðar-ópi.

Fyrsta daginn flugu *Pètri* út vörurnar; allir höfðu fengið fyrir penínga sína fullan mælir og þar á ofan steiktar mendlur. Mendlurnar höfðu fallið svo vel smábörnunum, að þeim kom öllum saman um, að aldrei hefði þau sèð meiri eða smakkað sætari um sína daga í *Nýborg*, og þó voru þær öldúngis almennilegar.

Að lokum lagðist á sá orðrómur, að *Pètur* hefði stærri mælir enn aðrir. Mælirinn var dálítill stokkur, ferhyrndur, úr tini; hann lèt hann ætíð vera kúfaðan og þrísti enda saman sikurhnöttunum áður hann hellti

úr mælirnum í lúkur kaupendanna. Ösin hèlzt á miklu lengur enn *Pètur* hafði leitt sèr í grun, og nú með því hann hugði, að almenníngs traust á honum væri byggt á bjargi, hætti hann að gefa mendlur í kaupbætir.

Það bar til einn dag, að únglíngur nokkurr reikaði blístrandi um barnatorgið, og hèlt á mælikvarða, er hann veifaði fram og aptur.

„Ha! hvað stendur þarna skrifað"? sagði hann og gekk til *Pèturs*, „það eru makalaus kjör! þó eg sè ekki lengur barn, et eg samt með ánœgju sikurhnetti eins og hún systir mín, sem er 5 árum ýngri enn eg. Núnú heilla vin, tvo mælira af hinum miklu og fögru sikurhnöttum, hraðaðu þèr, mig lángar svo mjög til að smakka þá; einn mælirinn handa mèr og annan handa *Rósettu* systur minni"!

„Þú borgar þó báða undireins? því eg gèf eingum manni gjaldfrest".

„Eg bið þig ekki um lán", svaraði fjörkálfurinn, „helturðu eg þurfi að hleypa mèr í skuldir þó mèr þyki góðir sikurhnettirnir?

Hèrna er fyrir minn skerf og þarna er gjald fyrir systur mína"; hann lagði peníngana á borðið. „Og nú, kunníngi, steiktar mendlur í kaupbœtir"!

„Þær eru fyrir laungu gengnar upp"!

„Hví lætur'ðu þær þá standa á spjaldinu þínu"?

„Eg hefi enn þá ekki fengið tóm til að strika þær út".

„Hvernig stendur á því? þú segist þó ekki hafa haft þær í lángan tíma. Mèr er þó meira í mun að halda, að eigi þyrfti lángan tíma til að strika út tvö orð. Eg skal sýna þèr hversu lengi eg er að því". Og í sama vetfángi tók hann upp úr vasa sínum krítar-mola og strikaði út: „steiktar mendlur".

„Þèr liggur ekki lítið á"! mælti *Pètur*, „á morgun fæ eg mestu kynstur af möndlum".

„Samt sem áður þarf spjaldið ekki að ljúga í dag".

„Eg væri kominn á heljarþrömina ef eg hefði breytt því".

„Lýginn getur komið þèr á kaldan klaka, en sannleikurinn naumast".

„Þú þarft ekki að bera kvíðboga fyrir mèr eður minni verzlan", mælti *Pètur* afar reiður; það traust, sem menn hafa á mèr og gæðum varnings míns, er svo rótgróið, að eins valtur kaupanautur og þú, getur ekki spillt fyrir mèr".

„Mèr hefir aldrei komið til hugar að spilla fyrir þèr eður nokkrum manni", mælti *Karl*; „eg vildi að eins óska, að þú spilltir eigi sjálfur fyrir þèr. En það er þitt að sjá fyrir því, láttu mig nú fá sikurhnettina mína"!

„Rèttu fram lúkurnar"!

„Nei, helltu þeim í öskjurnar mínar, henni systur minni fellur bezt að eta úr þeim; ígær keypta eg nokkrar í þeim handa henni. — En hverju sætir þetta? mælirinn þinn fyllir ekki öskjuna, eg fæ of lítið fyrir peníngana mína".

„Eg mæli þèr út með þeim sama mælir sem eg mæli öðrum".

„Mælirinn á að vera þumlúngur á hvern veg, smáu sölumennirnir hafa orðið ásáttir um það".

„Hann er það líka", mælti *Pètur*.

*Karl* mældi mælirinn að utan og fann að það var satt. Augnasjón mín bregðst mèr þó sjaldan þá er eg mæli timbursmíðar fyrir föður minn; eptir minni hyggju ætti mælirinn að taka meira".

„Augunum skjátlar optlega, það er ætíð óhultara að mæla".

„Það er vissara, því verður ekki neitað", sagði *Karl*, en meðan þeir töluðust við, mældi *Karl* mælirinn að innan og mælti: „*Pètur* minn góður! hann er varla hálfur þumlúngur á dýpt".

*Pètur* bliknaði og ætlaði að bera sig að ná tinmælirnum af drengnum, er mældi svo nákvæmlega, en *Karl* hèlt fast; hann hèlt mælirnum hátt yfir höfði sèr og hljóp út á mitt torgið.

„Uppgötvan! uppgötvan! fyrir alla sem þykja góðir sikurhnettir. Uppgötvan! uppgötvan! fyrir alla, sem hafa keypt hina mestu, sætustu og ágætustu sikurhnetti"!

Nú þustu börnin að úr öllum áttum og mæltu mörg af þeim á þessa leið: „við höfum keypt, við, ef þú átt við hann *Pètur*".

„Hafið þið átt kaup við hann"? spurði

*Karl*, „af tómri þakklátsemi vildi hann gefa öllum kaupanautum sínum steiktar mendlur í kaupbœtir".

„Þær eru undur góðar", œptu börnin; „við þekkjum hann *Pètur* eins og hendurnar á okkur; en hvað er það þá, sem þú hefir uppgötvað"?

„Eg hefi uppgötvað, að ekkert yðar þekkir *Pètur*. Lítið á, skoðið þenna mælir, það er í honum svikabotn, hann er helmíngi grynnri enn hann á að vera; hann hefir því svikið alla þá, sem átt hafa kaup við hann og þótti vörur hans ágætar"!

Af þessu fengu börnin afar mikinn ýmugust á *Pètri*; „svona vóru þá fögru loforðin hans", mæltu þau, „þessvegna hefir hann lokkað oss í netið sitt með möndlunum"! Það var að eins eitt af börnunum, er stóð fyrir utan hópinn álengdar, á svip þess mátti sjá undran og hugarángur. „Er *Pètur* þèr nokkuð vandabundinn"? spurði *Karl* í því hann vatt sèr að hinum hœgláta dreng, „ef svo er, þykir mèr illa farið, að eg hefi látið hann verða sèr til skammar í svo miklu fjölmenni; því þèr vilda eg með eingu móti

mein gjöra, hún *Rósetta* systir mín á tíðum kaup við þig. Hann *Pètur* getur þó varla verið vinur þinn"?

„Gjarna hefði eg viljað það, en nú segir mèr illa hugur um", mælti *Fransikus;* hann er nágranni minn og kenni eg í brjósti um hann; fyrst hann hefir tekið upp aptur vondan sið, hlýt eg að segja skilið við hann. Eg þakka yður fyrir, því eg var nærri hlaupinn í gildruna hans; hann hefir um hríð hagað sèr svo vel, að eg ætlaði eptir beiðni hans, að gjörast hans fèlagi".

„*Fransikus! Fransikus!* þinn mælir, ljáðu okkur mælirinn þinn", æpti allur þorri enna smáu sölumanna, „þú átt samkynja tinmælir og hann skal skera úr málunum áður við steypum *Pèturs* verzlan á höfuðið og dæmum hann *bánkarot**).

Þeir skunduðu síðan til sölustaðar *Fransikus* og tóku mælirinn hans; en hann tók

*) Það er: gjaldþrota. Á vallenzku þýðir *banco rotto*: sundurbrotinn bekkur. Á gömlum tímum töldu kaupmenn peninga sína og rituðu reikninga á bekki, sem stóðu á strætunum. Nú ef einhverr kaupmaður misti alla tiltrú, eður ef hann gat ekki goldið skuld sína, þá brutu menn í sundur bekkinn hans.

nær því helmíngi meira enn *Pèturs*. Nú var eingin vægðar von: þeir bundu báða mælirina hinn rètta og falsaða á lánga staung, fylktu sèr í raðir og rendu að spjaldinu hans *Pèturs* með gylltu stöfunum. „Hefnd í okkar allra nafni! sameiginleg hefnd"! æptu allir, „vèr hinir smáu kaupmenn *Nýborgar* þolum ekki neinn svikara í grend við okkur! brjótið í móla bekkinn hans! hann er dæmdur samkvæmt lögum og rèttvísi"!

*Pètur* varð óttasleginn og flúði sem skjótast undan og fèkk varla tóm til að taka með sèr svo mikið sem helmínginn af sikurhnöttunum. Miklum hluta þeirra köstuðu börnin víðsvegar eður tróðu þá undir fótum sèr. Bekkurinn var brotinn í sundur og únglíngarnir svöluðu geði sínu á lygaspjaldinu; en þá er þeir höfðu talað mart fram og aptur um svik *Pèturs*, hengdu þeir upp á torginu spjaldið ásamt falsaða mælirnum. *Pètur* þorði ekki að láta sig sjá framar, öll von um vinfengi *Fransikus* var nú horfin.

Ef að svikarinn lèti sèr annt um að hugleiða athafnir sínar, þá mundi hann láta

af aꝺ draga menn á tálar; því hann mundi bráꝺum láta sèr skiljast, hve miklu betur hinum ráꝺvöndu mönnum reiꝺir af, auk þess aꝺ þeir njóta þeirrar ununar, aꝺ vera virtir og elskaꝺir. Mundi *Pètur* ekki hafa boriꝺ betra úr býtum, ef hann hefꝺi fyrir sakir ráꝺvendni sinnar og hreinskiptni áunniꝺ sèr vinfengi *Fransikus* og þar á ofan hlutteknmg í verzlan hans?

Þá er flokkurinn hafꝺi sundraꝺ sèr, fann *Fransikus* mælikvarꝺa skamt frá sölustaꝺ *Pèturs.* Hann mundi nú eptir aꝺ hafa sèꝺ hann í *Karls* höndum, og sem hann hafꝺi skoꝺaꝺ hann nákvœmlega, fann hann á honum *Karls* nafn og töluna á húsinu þar sem hann bjó. Enda þótt *Fransikus* yrꝺi aꝺ gjöra býsna lángan krók á sig, fór hann samt þegar af staꝺ til aꝺ fœra hinum rètta eiganda kvarꝺann.

Eptir lángan og mœꝺusaman gáng hitti hann aꝺ lokum *Karl* í sama bili er hann gekk inní húsiꝺ þar sem hann átti heima. *Karl* þakkaꝺi honum innilega og sagꝺi honum frá, aꝺ skipsforíngi nokkurr, er faꝺir sinn hefꝺi smíꝺaꝺ fyrir, hefꝺi gefiꝺ sèr hann.

„Menn eiga ekki að hrósa sjálfum sèr", mælti *Karl* enn fremur, „en samt lángar mig til að þú fáir á mèr góðan þokka; verð eg þessvegna að láta þig vita, að eg fèkk þenna kvarða sem heiðurslaun þá er eg hafði mælt bát einn, er var ætlaður til skemtisiglínga, og reiknað út hvað til hans þyrfti. Nú getur þú ímyndað þèr, hvað sárt mèr þótti að missa hann. En seig mèr nú fyrir alla muni, hvenær get eg launað þèr skilsemina? vera má eg geti smíðað handa þèr ofurlitla sölubúð, eg vil þegar á morgun taka til smíðanna, og skulu öll börnin á torginu dáðst að henni. Eður get eg gjört þèr annað í vil"?

„Já, fyrst þú ert svona vænn, þá gjörir þú svo vel að fræða mig á, hvað merkin á kvarðanum þínum eiga að þýða; mig fýsir mjög að vita í hverjum tilgángi þau eru gjörð".

„Fúslega skal eg fræða þig um allt, það er eg skil sjálfur og komist eg ekki framm úr einhverju, þá mun faðir minn, sem veit miklu meir enn eg, koma okkur í skilníng um það".

„Ef mèr að eins auðnast að skilja það", mælti *Fransikus.*

„Kvíðum því ekki! eg varð líka í fyrstu efablandinn, þá er eg heyrði menn tala um horn, línur, boga, miðpúnkt og snertilínur".

„Eg bið þig, hættu nú, það er komið nog af svona góðu"! mælti *Fransikus*, en *Karl* brosti hróðugur af yfirburðum sínum.

„Þegar þú ert búinn að læra að þekkja öll þessi merki, þá þykir þèr vandinn lítill; en hèrna á þrepskildinum í steikjanda sólarhita get eg ekki frœðt þig. Gjörðu því svo vel að heimsœkja mig þegar þú átt hœgt um; eg vona við verðum brátt góðir vinir. Látum oss nú þegar gjöra tilraun, et með mèr nokkrar makrónur, þá geturðu einnig um leið kynnst við föður minn, hann getur veitt námfýsi þinni fullnustu í hverju sem vera skal, og þegar kvöld er komið, skal eg fylgja þèr heim, skaltu þá sýna mèr melónurnar þínar og víntrèn og koma mèr í skilníng um garðarœkt og vínirkju. Við eigum eflaust lund saman; komdu, hikaðu þèr ekki"!

*Karls* spá rœttist: *Fransikus* og hann

urðu aldavinir, og svo voru þeir samríndir, að öllum sínum tómstundum vörðu þeir annaðhvort í smíðahúsi *Karls* eður í víngarði *Fransikus*, numu þeir þá mart hvorr af öðrum. *Karl* kendi *Fransikus* meiri reiknýng enn hann hefði þurft á að halda við verzlanina. „Vera má", mælti *Fransikus* einn morgun þá er hann sat hjá timbursmiðnum, „að það, sem eg læri nú mèr til skemtunar, komi mèr þegar fram líða stundir í góðar þarfir".

„Svo getur það farið", sagði timbursmiðurinn, „reikníngslist er einkar nytsöm eður rèttara sagt, ómissandi í hverri stöðu sem menn eru, ætíð er betra að vita enn vita ekki, því höfuðið hjálpar mönnum lengra áleiðis enn hönd eða fótur, og geti vitið eigi orðið mönnum að frama, er það þó ætíð hin indælasta dægrastyttíng að geta lesið bækur eður haft við stýlinn og kompásinn; þetta eru hinir trúustu og áreiðanlegustu förunautar úngra manna og gamalla. Eingum kemur íllt í hug sem kann að starfa þegar hann er einnsaman", — nú trublaðist timburmaðurinn, er *Rósetta* litla kom inn;

hún flaut í tárum og átti hún eigi vanda til þess.

„Rósetta, barnið gott! hvað gengur að þèr, hví grætur þú"? spurði *Karl* um leið og hann þerraði tárin af kinnum hennar; „eg verð einnig að stemma stigu fyrir tárunum sem læðast niður með nefinu". *Rósetta* hló að orðum bróður síns. „Hafa þessar skeljar komið út á þèr tárunum"? spurði hann enn fremur, og benti á svuntuna hennar, er skeljarnar voru í". „Já, að nokkru leiti", mælti *Rósetta* „eg hefi að sönnu sjálf bakað mèr þau. Þèr er kunnugt um, að eg gekk út á timburvöllinn skamt frá skipsmíðahúsinu þar sem börnin tína upp trèspœni og eldivið, og kepptist eg eigi síður við enn hin börnin, því eg vildi fylla körfuna mína og selja viðinn á torginu. Þegar eg að lokum hafði fengið fulla körfuna, sem mèr að sönnu veitti býsna torvelt í steikjanda sólarhitanum, setti eg körfuna frá mèr á völlinn og hljóp íburt spottakorn til dálítils drengs, er tíndi skeljar í fjörunni; eg vildi kaupa að honum skeljarnar ef hann

vildi hafa þolinmœði þartil eg gæti selt eldiviðinn og borgað honum".

„Þig lángaði þá svo mjög til að eignast skeljarnar, *Rósetta"?*

„Já, eg hugða, að þú og hann *Fransikus* gætuð prýtt með þeim jarðhúsið litla, sem þið búið til í *Resínu;* þessvegna lángaði mig til að fá þær. Drengurinn, sem seldi mèr þær, var ofboð vinsamlegur við mig; hann hellti þeim í svuntuna mína og sagðist vilja eiga hjá mèr borgunina, honum lægi svo mjög á að flýta sèr, hann mætti þessvegna ekki bíða þartil eg væri búin að selja eldiviðinn minn, hann kvaðst vera sannfœrður um, að eg myndi borga sèr í kvöld, hann skyldi þá sœkja híngað peníngana. Hvað á eg nú að gjöra, *Karl?* eg á engan skildíng, eg neyðist til að skila honum aptur fallegu skeljunum þó mèr þyki sárt að sjá af þeim".

„Hvað kom til, þú seldir eigi viðinn þinn"?

„Æ, eg gleymdi að segja þèr, að karfan var tóm þegar eg kom aptur, — öldúngis tóm; einhverr maður ófrómur hefir tekið viðinn; var það ekki hryggilegt"?

„Eg skal nú að vörmu spori gánga út á eldiviðar torgið og vita hvort eg get fundið þjófinn; er það ekki nær enn að gráta? Heldurðu, þú getir þekkt aptur trèkubbana þína"?

„Já, einn þeirra, öldúngis víst", mælti *Rósetta*, „það var grein með timburmanns marki á þeim endanum sem af var höggvinn".

„Er hinn parturinn til enn þá"?

„Hann liggur á timburvellinum, hann var svo þúngur, að eg gat ekki valdið honum".

„Látum oss fara þángað", mælti *Fransikus* „eg er góðrar vonar um, áð við munum geta fœrt þèr aptur eldiviðinn þinn".

Að svo búnu fóru þau öll þrjú af stað, og skoðuðu trèbútinn sem um var getið; þaðan skunduðu þau út á eldiviðartorgið, og hugðu að hverjum kesti, en eingan kubb fundu þau, þann er í sárið líktist trèbútnum sem eptir lá; varð nú *Rósetta* öldúngis úrkula vonar. Förunautar hennar ransökuðu betur viðar-hrúgurnar og hvöttu hana til að gjöra hið sama; en smáu sölumenn-

irnir kváðust mega fullyrða, að einginn af þeim hefði tekið viðinn hennar *Rósettu*, hún hefði verið svo viljug að hjálpa þeim til að tína saman trèkubbana.

Þá er þau ætluðu svo búin að hverfa heim aptur, mœtti þeim hinn enski skósveinn. *Jón* spurði *Fransikus* hvað um væri að vera og hvert hann ætlaði að fara. Þegar *Fransikus* hafði sagt honum frá öllum málavöxtum og *Rósetta* hafði dregið upp á stein með krít mynd kubbsins, er áður var getið, mælti hann: „eg hefi sèð fyrir fjórðúngi stundar kubb svipaðan þessum uppdrætti, en hvar eg sá hann, man eg nú ekki, — en eptir á að hyggja, eg held það hafi verið hjá bakaranum, sem eg keypta hjá brauðið handa húsbónda mínum; eg má segja fyrir víst, kubburinn lá hjá bakaraofninum".

Þau hlupu nú öllsaman til bakarans og œddu inn í sama bili sem hann ætlaði að kasta kubbinum í eldinn. „Bíðið við, herra"! œpti *Rósetta*. Bakaranum varð hverft við, leit um öxl sèr og sá smámennin. Börnin báru fram erindi sitt, en bakarinn kvaðst

eigi hafa keypt kubbinn á barna-torginu, þarámót hefði drengur einn á rek við *Fransikus* að líkindum 12 eður 13 vetra gamall, boðið sèr hann í grend við skipsmíðahúsið.

„Það er einginn efi á, það er kubburinn minn", mælti *Rósetta*, „eg þekki hann á þessu merki".

„Ef þið viljið sjá drenginn, sem seldi mèr kubbinn, þá dveljið hèr þartil hann kemur aptur; hann vildi fá fyrir hann köku, en þareð hún var eigi til bökuð, sagði eg honum að koma að stundu liðinni. Hann kemur án efa í ákveðinn tíma, því hann var býsna sultarlegur".

Þá er bakarinn hafði þetta mælt, kallaði *Fransikus*, er stóð fyrir utan dyrnar: „þarna kèmur hann *Pètur;* herra! eg vil vona hann sè ekki sá, sem seldi yður kubbinn"?

„Hann, og einginn annarr", svaraði bakarinn. Í því bili er *Pètur* ætlaði að gánga inn fyrir dyrnar, varð honum hverft við, og nam staðar er hann leit *Karl* og *Fransikus*, hafði hann ekki sèð þá fyrr eptir atburðinn á barnatorginu.

„Audmjúkur þjón, herra *Pètur*"! mælti

*Karl*, „eg er svo djarfur að láta yður vita, að hún *Rósetta* systir mín á þenna trèkubb, þèr hafið tekið hann úr körfunni hennar á tímburvellinum". *Pètur* var öldúngis ugglaus um, að nokkurr maður heiði sèð hann og hèlt að sakargiptan væri eigi bygð á rökum heldur að eins á tortryggni litlu stúlkunnar; hann hugði, að auðvelt mundi að hræða hana frá slíkum áburði; hann þrætti því öldúngis ósmeikur og heimtaði, að hún skyldi fœra sönnur á mál sitt.

„Sanngjarnt er það", mælti *Jon*, að honum gefist kostur á, að hrinda af sèr sakaráburðinum, og hèlt *Karli* aptur, er búinn var að rètta upp til höggs hendina, því hann vildi tipta sakadólginn.

*Jon* vatt sèr nú að *Pètri* og spurði, ef hann vildi láta sèr lynda atkvæði 12 dómenda af lagsbrœðrum hans.

„Já, feginn", svaraði *Pètur*, og lèt ekkert á sèr merkja. Síðan gengu þeir allir til eldiviðartorgsins, en á leið þeirra lá ávaxtatorgið. Þaðan fylgði þeim mikill fjöldi barna til að vera vottar að málalokunum.

Eingum þeirra voru enn úr minni liðin strákapörin *Pèturs*, hin fornu.

Nú var einn drengur kjörinn til dómanda, hann stè upp á lögbergið, en það var ofur lítill bekkur; frammi fyrir honum stóðu þau, bragðarefurinn *Pètur* og hin kurteisa *Rósetta*. Hún sótti málið með hœverskum flutníngi, en *Pètur* hafði frammi lögvörn með kœnsku og stillíngarsemi og enda með mælsku, sem hefði verið aðdáanleg, ef hann hefði átt rètt mál að verja; en allar hans ástæður máttu eigi hrinda sakargögnum *Rósettu*. Dómandinn bar kubbinn saman við bútinn, sem lá á timburvellinum, og var það auðsætt að þeir áttu saman. Nú átti dómandinn eingan kost á að sefa ofstopann og gremjuna sem laust upp í þíngheiminum. Sakadólgurinn var einnig gjörður útlægur frá eldiviðartorginu, hann var rekinn burt með höggum og meiðyrðum. — Þannig misti hann í þriðja sinn atvinnuveg sinn sökum sjálfskaparða víta.

Nú tók hann til bragðs að selja *límónað* í öðrum hluta borgarinnar þar sem eingi maður bar kennsli á hann; en bráð

um meingaði hann með svo miklu vatni límónaðinn og lèt svo lítið í hann af sikri og sítrónuvökva að eingi vildi kaupa hann. Því næst tók hann það til bragðs, að færa útlendum mönnum vatn frá brennusteins lindunum; en einusinni varð honum svo fótaskortur, að hann braut öll staupin; átti þau kona nokkur gömul, er vön var að ljá þesskonar staup fyrir leigu. *Pètur* vissi nú, að hann varð að borga staupin með peníngum, en á því hafði hann einga lyst; því þá fáu skildínga, er hann átti eptir, ætlaði hann að jeta upp í makrónum. Hèr þykir nú hæfilegt um hríð að hætta sögunni af *Pètri*, svikum hans og þeirra afleiðíngum og hverfa aptur til *Fransikus.*

Þótt *Fransikus* leggði alla stund á að læra reikníngslistina, hafði hann samt ætíð á rèttum tíma gætt starfa þess, er hann hafði á hendi bæði fyrir sjálfan sig og föður sinn. Þegar áleið veturinn hafði hann tekið miklum framförum í reikníngi.

Faðir *Karls* var þegar fús á, að kenna *Fransikus* að draga upp húsamyndir, er hann var sjálfur mjög leikinn í; en *Fransi-*

*kus* var iðinn og tók þessvegna fljótum framförum. Eptirmyndir hans urðu, þegar fram liðu stundir, fegri enn frummyndirnar; en *Karl* sagði einatt undrunarfullur, að *Fransikus* væri lánað mikið hugvit til uppdrátta.

„Hugvit hefi eg eigi", mælti *Fransikus*", heldur ástundan; og hvað sem hverr segir, veit eg bezt sjálfur að mèr hefir farið framm í uppdráttalistinni einmitt fyrir sakir þolinmæði minnar, og sannast bezt á mèr máltækið: þolinmæði þrautir vinnur allar. Manstu ekki hversu dátt þið *Rósetta* hlóuð er eg í fyrsta sinni tók í hönd mèr blíantinn, svo stirt og klaufalega hèlt eg honum"?

„Það man eg ofur vel, þú hèlzt honum svo álapalega, og þegar þú ætlaðir að ydda hann, fórst þèr það öldúngis eins og vildir þú afsníða vínviðar-grein; en þar er nú komið, að þú mátt með öllum rètti skopast að okkur þar sem þú ert nú orðinn mestur maðurinn. Nú er allt orðið á annan veg, enn þá er eg sýndi þèr mælikvarðann".

Lítillæti *Fransikus* og þakklátsemi, er komu innanað frá hans góða hjarta, ávann honum meiri og meiri ást hjá vinum hans.

Einu af þessum vinum hans þráði hann í garðinum hans í *Resínu;* það var ekki faðir hans, því hann vissi að hann varði vel tómstundum sínum, enn það var hann *Jón*, sem kvartaði um, að hann sæi svo sjaldan *Fransikus*. *Fransikus* hvatti *Jón* til að gjörast kunníngi *Karls*. *Jón* tók því drœmt í fyrstu, en svo fór, að eigi leið lángt um, áður *Jón* kunni mæta vel við sig hjá *Karli* og *Rósettu*. Hjá þeim sá hann fyrst uppdrætti *Fransikus*, og þó hann bæri ekki mikið skynbragð á þá, lýsti hann því samt yfir, að manni nokkrum, er optlega heimsœtti húsbónda hans, myndi þykja gaman að skoða þá, og óskaði að meiga hafa þá heim með sèr.

„Það máttu gjarna", œpti *Karl* frá sèr numinn af fögnuði, „eg vildi óska, að allir innbúar *Nýborgar* gætu skoðað þá og skemt sèr við þá eins og eg".

*Jón* hafði með sèr uppdrættina. Einn dag, þá er húsbóndi hans var í apturbata og át vínber *Fransikus*, kom *Jón* hálfv[illegible] feiminn með stokk einn lítinn og tók [illegible] úr honum uppdrættina og sýndi þá herra

sínum og kvað þann vera höfund, er ávextirnir, sem honum fèlli svo vel, væri keyptir hjá. Þótt höfðíngjanum fyndist eigi svo mikið sem *Karli*, koma til uppdráttanna, þótti honum samt gaman að skoða þá; en einkum þótti honum mikils um vert, er *Fransikus* hafði varið svo stuttum tíma til þeirra. Að lokum bauð hann *Jóni* að láta hinn únga listamann koma fyrir sig.

*Fransikus* var tilgerðarlaus í öllu sínu háttalagi, hreinskilnin skein út úr honum; lofræður *Jóns* um ráðvendni hans og ást til foreldra sinna, allt þetta kom honum í mjúkinn hjá höfðíngjanum herra L... Svo stóð á þegar þessi atburður gjörðist, að höfðínginn hafði beðið pentara nokkurn að draga upp smíðar byggíngameistara fornaldarinnar og húsaprýði, er enn væri við líði í borgarústunum, en einkanlega í *Herkúlanum* *).

Pentarinn, sem átti að draga þetta upp

*) Það er borg ein, er eyddist í eldgosi *Vesúvíus* ár 79 á dögum *Títus* keisara, fannst hún aptur í öndverðri 18. öld og liggur hún skamt frá *Nýborg*.

fyrir herra L... var vænn maður og mannúðlegur og unni öllum góðs.

„Hèr er drengur 15 vetra gamall", sagði herra L... einusinni við pentarann, „hann er sonur vínirkjumanns nokkurs og hefir hann fengið tilsögn í uppdráttalistinni hjá húsasmiði einum. Hvílík gæfa yrði það ekki fyrir hann, ef hann gæti notið yðvarrar kennslu, því hann virðist eigi illa fallinn til að nema þessa list. Eg kenni í brjósti um drenginn, því eg hefi heyrt svo mart gott af honum sagt og gjarna vil eg gjalda yður kennslulaunin".

Þareð *Fransikus* kom pentaranum vel fyrir sjónir, færðist hann eigi undan að taka hann til kennslu; en *Fransikus* varð honum dag frá degi hugljúfari og þokkasælli. Í húsinu, þar sem þeir störfuðu, láu margar bækur með uppdráttum, er *Fransikus* lángaði mjög til að skoða, en pentarinn hafði ekki ennþá leyft honum það.

Að nokkrum vikum liðnum þurfti pentarinn að skoða uppdrátt musteris-bustar nokkurrar. „Eg get ekki fundið hann", sagði hann óþolinmóður, „veiztu ekki, *Fransi-*

*kus*! í hverju bindinu hann er? Bœkurnar hafa legið svo lengi kríngum þig, það er ósköp að vita, þú skulir ekki hafa kynnt þèr þær. Hefðirðu að eins haft helmínginn af því hyggjuviti, er eg ímyndaði mèr þú hefðir til að bera, þá yrðir þú nú að þekkja þær nákvœmlega og muna hvar uppdrátturinn stæði".

„Herra minn góður!" mælti *Fransikus* blíðlega, „eg veit það öldúngis ekki".

„Það er einmitt það, sem mèr þykir að við þig. Heldurðu að tilfinníngin á því, sem er fagurt, vaxi hjá þèr við að skoða bœkurnar utan? Var þèr unnt að vera hèr án þess að ljúka þeim upp"?

„Æ, optlega og mörgum sinnum hefir mig lángað til þess, en þèr hafið ekki leyft mèr það ennþá, og þó forvitni mín hafi verið mikil í fjærveru yðar, þá hefi eg þó ekki snert eina bók híngaðtil, og vissulega hefi eg lengi vonað að sú stund mundi nálgast, þá er þèr vilduð sýna mèr þær".

„Stundin er nú komin, ágæta úngmenni"! mælti pentarinn og varð glaður við; „þótt eg unni mjög íþrótt minni, ann eg samt ráð-

vendninni miklu fremur; þú hefir nú sannfært mig um, að þú ert fullnuma í hinni síðari og nú mun eg láta mèr einkar annt um, að vekja hjá þèr ástina til hinnar fyrri. Komdu nú, látum oss fletta upp bókunum"! Eptirtekt únglíngsins og athygli lýsti sèr þegar við eptirleitan uppdráttarins og sannfærði bráðum kennarann um, að *Fransikus* skorti eigi vit til að nema uppdráttalistina.

Þótt atburður þessi væri í rauninni lítilvægur, komst samt *Fransikus* í meiri hylli hjá pentaranum enn áður.

Það var einn dag, þá *Fransikus* hafði sökkt sèr niður í uppdrætti, að pentarinn klappaði á herðar honum og mælti: „fylg mèr, *Fransikus*, á þig get eg reiðt mig; hafðu með þèr bókina, sem þú dregur upp í, eg ætla að sýna þèr nokkuð í dag, sem mun fá þèr meiri skemtunar enn allar mínar bækur"!

*Fransikus* fylgdi honum þartil er þeir komu að brunni einum við inngánginn á *Herkúlanum*. "Eg hefi fengið leyfi til að hafa þig með mèr og sýna þèr allt; þú veizt annars hve mikil náð það er. Dýrðlegir uppdrættir,

gull, silfur og gimsteinar finnast optlega innanum þessar rústir; þessvegna er að eins ráðvöndum mönnum og áreiðanlegum leyft hèr inn að gánga".

Hvílíkur nýr heimur rann nú ekki upp fyrir augum hans! Þareð hann á degi hverjum fylgdi kennara sínum, gafst honum hinn bezti kostur á, eptir að hann hafði saðt forvitnina, að taka framförum í uppdráttalistinni. Hin mörgu smáu bílæti, sem verið höfðu millum stóru litmyndanna og sem enn ekki voru burt tekin, voru einmitt það sem pentarinn átti að draga upp fyrir Einglendínginn. Til þess nú að reyna hvað lærisveinnium dygði til, lèt pentarinn hann draga upp mynd eina. *Fransikus* freistaði þess, og tókst honum svo vel, að kennari hans varð glaður mjög og færði hana höfðíngjanum, en hann launaði *Fransikus* hana ríkuglega. Jafnskjótt og *Fransikus* hafði tekið við peníngunum skundaði hann með þá til foreldra sinna; hafði móðir hans fengið sèr fyrir skömmu lítilfjörlega grasnyt og stóð henni tilboða kýr ein skjöldótt, er nágranni hennar átti, en hana skorti andvirðið.

„Hèrna, móðir mín elskuleg"! mælti *Fransikus* og kastaði í kjöltu hennar peníngunum, „og hèrna", í því hann hvolfdi úr litlum púngi fullum af smáskildíngum, er voru allur ágóðinn af verzlaninni og það sem hann hafði nælt saman um 2 ár; „það skal allt saman vera þín eign, ástkæra móðir, og nú vonar mig, þú getir keypt hana Skjöldu. — Þú verður að þiggja það, eg hefi nú einusinni tekið það í mig, að þú skalt enda mega mjólka hana í kvöld. Eg ætla að sækja beztu vínberin mín, og vera má, að faðir minn gefi okkur eina melónu fyrst eg hefi eigi haft tómstund til að hirða mínar, og svo ætla eg að fara til borgarinnar og bjóða þeim vinum mínum *Karli* og *Rósettu*, gamla kennaranum mínum og honum *Jóni*, heyrirðu, allrabezta móðir? og svo etum við kvöldverð í kotinu".

Móðir hans prísaði sig sæla, og þakkaði honum fyrir peníngana, en faðir hans hèt honum að hvorki skyldi melónur skorta nè fögur aldin.

Skjalda var þegar keypt, *Jón*, *Karl* og *Rósetta* tóku feginsamlega móti heimboð-

inu, en timburmaðurinn átti, því miður, ekki heimangengt. Kvöldið var fagurt og blítt þá er þau skunduðu út úr borginni, og hressandi hafgola færði þeim svölun eptir hita dagsins. Faðir *Fransikus* bar á borð beztu ávöxtuna, móðir hans eptirmjólkina, en að liðinni máltíðinni bað *Karl* vini sína fylgja sèr til borgarinnar; og lýsti þá máninn þeim í allri sinni fegurð.

„Já, eg ætla að fylgja þèr heim og færa föður þínum elskulegum þessi vínber", mælti *Fransikus.*

„Taktu líka eplin", sagði faðir hans, „og svo árna eg ykkur heillafarar.

Þau fóru af stað og voru kát mjög, en þá er þau komu til staðar þess, er börnin voru vön að sitja að markaði, benti *Fransikus* á svæðið, það er hann hafði fundið á mælikvarðann, því gjarna notaði hann sèr hvert tækifæri til að minna vini sína á hinn fyrsta vott, er þeir höfðu gefið honum vináttu sinnar. „Þessi mælikvarði er undirrót farsældarinnar, þeirrar er nú nyt eg, og eg þakka yður" — *Rósetta* tók málinu fyrir og mælti: „ó, þakkaðu ekki svona opt! En

gætið að, hvað er þetta? hverju gegnir manngrúinn þarna"?

Þau litu nú þyrpíng mikla karla, kvenna og barna, en innaní miðjum hríngnum stóð á steinahrúgu maður nokkurr, er flutti ræðu snjallt og sköruglega, hafði hann margskonar látalæti með höndunum. Máninn skein framaní hann, en svipur hans breyttist hvað eptir annað samkvœmt efni ræðunnar. Maður þessi var talandi skáld, þaunig kallast á Vallandi menn þeir, er fara manna ámilli og mæla fram kvæði af munni sèr eður segja upp úr sèr sögur mönnum til skemtunar. Þegar slíkt skáld hefir safnað í kríngum sig fjölda manna og vakið eptirtekt þeirra, þagnar hann snögglega, leggur hattinn sinn á jörðina og bíður þar til áheyrendurnir hafa gefið honum eitthvað í sögulaun. Þykist hann hafa fengið rífleg sögulaun, tekur hann hattinn sinn aptur og heldur áfram sögunni. Svo bar til að skáldið hafði lagt frá sèr hattinn litlu áður enn *Fransikus* og förunautar hans komu inní mannhrínginn; sögunni var lokið, hann þagnaði,

leit hina nýu gesti og hóf upp söguna af *Haraldi* hinum þakkláta *Sæmundarsyni.*

*Fransikus* hlýddi á söguna með athygli og kastaði glaður gjaldi í hattinn. Þá er sagan var á enda og sögumaðurinn þagnaði, setti alla snögglega hljóða; en sögumaðurinn varð fyrstur til að mæla og œpti þannig hástöfum: „góðir vinir! hèr hafa orðið misgrip; þetta er ekki hatturinn minn, það hefir verið skipt um hattinn meðan eg sagði seinni söguna. Eg bið yður, góðir herrar, veitið mèr fulltíngi yðvart, að eg fái aptur hattinn minn, það var tilvalinn hattur, eg hafði fengið hann af höfðíngja einum til launa fyrir kvæði nokkurt, er eg hafði ort, eg vildi ekki missa hann fyrir tvö hattvirði; nafnið mitt: „*Dóminikó* ljóðasmiður" er ritað ínnan í hann; — eg bið yður, mínir elskanlegustu tilheyrendur, að hyggja vandlega að höttunum yðar"!

Allir sýndu honum hattana sína, en sá rètti kom ekki til skila. Eínginn hafði hreift sig úr sporunum, og hatturinn fannst ekki.

„Það er sannarlegt kraptaverk, ef hatturinn er horfinn", œpti ljóðasmiðurinn.

„Já, og fyrir sakir hinna sömu kraptaverka hreifir sig þarna myndastytta nokkur", œpti *Karl*, og benti á mannslíki nokkurt, er stóð álengðar og sem einginn hafði tekið eptir; andlitið var þannig hulið, að *Karl* gat eigi þekkt *Pètur*.

Þegar *Pètur* sá, að hann gat eigi lengur dulist, rak hann upp skellihlátur og kastaði frá sèr hattinum, er hann hafði haldið fyrir aptan sig, og mælti: „með ykkur er hægt að leika felnleika". Hvort *Pètur* hafi ætlað að stela hattinum eður einúngis fela hann að gamni sínu, verða þeir, sem þekkja manninn betur, úr að skera. *Karl* hristi höfuðið: „Samur ert þú enn við sjálfan þig, *Pètur!* minnstu málsháttarins: fellur hverr á sinni list um síðir.

„Eg gjöri gis bæði að þèr og málshættinum þínum", mælti *Pètur*, og tók upp gamla hattinn sinn; „eg get keypt mèr betri hatt enn hinn". Heyrðu mèr *Fransikus!* eg get sagt þèr nokkuð, einkum ef þú hefir glaðst af glappaskotinu mínu, er þú lèzt þèr svo annt um".

„Hvað hefirðu að segja mèr? tefðu mig ekki, því vinir mínir bíða mín"!

„Sè þeir vinir þínir, þá geta þeir að líkindum beðið. Þú þarft ekki að skammast þín fyrir mig, eg er þó orðinn ríkastur okkar eins og mig hefir ætíð grunað".

„Ríkur, þú orðinn ríkur?! ef svo væri, þá hefðirðu ekki getað fengið af þèr að stela hattinum frá fátœka manninum".

„Það segir sig sjálft".

*Fransikus* kom ekki til hugar, að rótgrónum vana lynnir ekki þótt eingin neyð beri að höndum.

„Þú furðar þig á, að eg sè ríkur; en nú skaltu heyra allan málavöxtinn: eg er friðþægður við föður minn, eg á vini í *Nýborg* og get nú kallað mig hinn farsæla *Pètur*. Lítt' á gamla gullpeníngin, það leggur einga fiskilygt af honum, hvorugur okkar feðganna hirðir nú framar um fiskiveiðar! Eg sel heldur ekki sikurhnetti, og ekki slít eg mèr út á víngarðarœktinni eins og sumir; en heppnin heimsótti mig þá er minst von um varði. Eg á marga svona gullpenínga. — Þá er eg pældi upp kálgarðinn hans föður míns, var eg svo lánsamur, að finna dalakút, hann var fullur af gullpeníngum;

í dag hefi eg sèð mèr út hús í borginni handa föður mínum, þar ætlum við að lifa eins og blóm í eggi svo lengi sem við getum. Eg hlakka til að sjá, hvernig smáu kaupmennirnir öfunda mig þegar þeir sjá mig í þessari minni dýrð! Hvað segir þú um þetta, ráðvandi *Fransikus*"?

„Eg óska, þú njótir vel, og vona, þú verjir sœmilega auðnum þínum".

„Verjir vel? já, sá kann að fá fè sínu forræði, sem á það".

„Tvennum fer sögunum um það", mælti *Fransikus* og gekk burt. *Pètur* fór nú leiðar sinnar og sveið honum það mest, er hann gat eigi vakið upp öfund hjá *Fransikus* með gullpeníngnum.

„Eg vil miklu heldur eiga slíka vini sem yður, hafa hreina samvizku og vinna dyggilega fyrir fœðu minni, enn vera farsæll á sama hátt og *Pètur*. Hvað virðist ykkur, hann hefir fundið fjársjóð í kálgarðinum hans föður síns"!

„Njóti hann bæði vel og lengi; því eg ímynda mèr, hann sè með rèttu móti að honum kominn", mælti *Karl*, „en illa segir

mèr hugur um sannsögli hans síðan hann falsaði mælirinn".

Eigi voru það allir, er trúðu sögusögn *Pèturs* um dalakútinn, nágrannar hans ypptu öxlum og hèldu, að þeir feðgar væri eigi öfundarverðir. Samt hirtu þeir eigi um þetta mál, eður að minnsta kosti lètu fátt um það. Þeir *Pètur* og faðir hans seldu veiðarfœri sín, lètu falan kofann, yfirgáfu *Resínu* og settust að í *Nýborg.*

Faðir *Fransikus* gjörði sèr far um að hugsa allt hið bezta um þá feðga, en samt vildi hann ekki hafa skipti á sínum ráðvanda *Fransikus* og hinum hamíngjusama *Pètri,* hann hugsaði með sèr: dag skal að kvöldi lofa, og æfi að endalykt.

Nú þykir til hlýða, lesendur góðir! að skíra yður frá í stuttu máli, að efi bœndanna í *Resínu* um fundinn varð meira enn grunurinn tómur: *Pètur* hafði eigi fundið neinn dalakút í garði föður síns, heldur var hann kominn að peníngunum á þann hátt, sem nú segir frá:

Þá er hann var kominn út úr húsi hjá öllum, sakir óþrjótandi pretta og svika, reik-

aði hann fram og aptur um stræti borgarinnar og átti ekkert víst fyrir sèr. Hann átti eptir fáeina skildínga til að kaupa fyrir björg til fárra daga; varð hann því harðla feginn er bóndi nokkurr rèði hann til að moka saman sorpi og saurindum á strætunum til áburðar. Þeir voru nú á ferli snemma á morgnana eður um miðjar nætur og gengu eptir vögnunum sem höfðíngjarnir óku í til eður frá leikhúsunum. Það bar til eitt kvöld sem optar, að *Pètur* stóð fyrir aptan vagn einn, flaug þá skoteldur í lopt upp svo hestarnir fældust og vagninn valt um koll. En út úr vagninum drógu menn konu höfðíngja nokkurs, leiddi skósveinninn hana til sölubúðar einnar, þar er hún dvaldi um hríð, uns vagninum var komið í samt lag aptur. Kona þessi hafði í fátinu, sem á hana kom, týnt af brjósti sèr gullkrossi, sem var alsettur demöntum og dýrmætur mjög; hún lèt leita undireins og hún saknaði hans, í vagninum, á strætinu og í búðinni, en það kom fyrir ekki.

*Pètur* hafði sèð krossinn detta, þegar konunni var lypt upp úr vagninum, og

stúngið honum hjá sèr. Af því hann kunni eigi að meta þenna dýrgrip komst hann í vandræði, og vissi eigi hverjum hann mætti trúa fyrir þessu leyndarmáli. Að lokum tók hann það ráð, að fara til gyðíngs nokkurs, er hafði það orð á sèr, að hann keypti allskonar gripi og spyrði eigi hvert þeir væri rángfengnir eður ekki. Síð um kvöldið þá fólkið fækkaði á strætunum, laumaðist *Pètur* til húss gyðíngsins og drap á bakdyrnar; en sá, sem lauk upp hurðinni, var einginn annarr enn faðir hans. *Pètri* varð heldur enn ekki hverft við og ætlaði að taka undir sig fæturna, en faðir hans hèlt honum föstum. „Hvaða erindi áttú híngað"? spurði faðirinn með heiptarlegri en þó skjálfandi röddu.

„Eg — eg ætlaði — að spyrja — til vegar."

„Eingar vífilengjur! seig undireins hvaða erindi þú áttir híngað, eg vil vita það"!

*Pètur* sá, að nú var eigi um tvennt að tefla og að faðir sinn mundi leita á honum; hann tók þessvegna upp hjá sèr demautakrossinn og sýndi föður sínum.

„Það fór vel, hann kom í mínar hendur, því ella hefðirðu selt gyðíngnum hann við gjafverði. En hvernig ertu að honum kominn"? *Pètur* kvaðst hafa fundið hann á strætinu.

„Farðu nú burt! eg skal geyma hann, vertu öldúngis óhræddur."

*Pètri* var eigi mikið um það gefið, að láta lausum fundinum, honum þótti nú ráðlegast að segja sannleikann, að kona nokkur hefði týnt krossinum þegar vagninn hennar valt um koll, en þó lèt hann á sèr skilja, að hann myndi bregða sèr til búðarinnar, þar sem konan hafði dvalið, og lýsa fundinum ef faðir hans lèti hann ekki eiga hlut í andvirðinu. Faðir hans komst nú úr skugga um, að *Pètur* var eigi minni þorpari enn hann sjálfur; hann bèt að skipta til helmínga andvirðinu, en *Pètur* krafðist, að faðir sinn seldi krossinn í augsýn hans.

Gyðíngurinn var vel að sèr í slíkri verzlan, hann sveik þá báða og fèkk krossinn fyrir þriðjúng verðs. Fundinum var haldið leyndum, en konan örvænti að fá krossinn sinn aptur.

þeir feðgar höfðu skammvinn not af þýfinu, því illur fengur illa forgengur. Báðir þeir eyddu og sóuðu peníngunum svo þeir voru að eins stutta stund í handraðanum. það sem íllt uppeldi átti ógjört við *Pètur*, því komu hans vondu fèlagar til leiðar hjá honum, og meðan honum lèk allt í lyndi að því sem honum þótti, gjörspiltist hugarfar hans. þegar hann var orðinn fèþrota, kendi hann kaldlyndis vina sinna, er lètu á sèr heyra, að hann hlyti að taka þátt í þeirra síslunum ef hann vildi vera með þeim — en þessar "síslanir" voru: rán og þjófnaður. þótt *Pètur* hefði snemma vanið sig á svik og pretti, hryllti hann samt við slíkum atvinnuvegi. En hversu torvelt veitir það eigi mönnum þèim, sem eru svona ásigkomnir, að stilla sig um að þræða til enda lastanna götu!

---

Nú víkur sögunni frá hinum kœna *Pètri* til hins ráðvanda *Fransikus*, er þræddi jafnan veg dygðanna. Sakir óþreytandi ástundunar tók hann miklum framförum hjá vini sínum, peintaranum. Vær köllum hann vin hans, því með lunderni sínu, hinu göfuga og

fölskvalausa, hafði *Fransikus* áunnið sèr ást pentarans og vinfengi.

Það hèldu menn, að Einglendíngnum þætti vænt um ástundan únglíngsins og háttalag, hann var ekki einn af þeim, sem þykjast hafa gjört nóg, þá er þeir hafa látið af hendi rakna fáeina gullpenínga. *Jón* hoppaði jafnan upp af gleði í hvert sinn, sem húsbondi hans sýndi *Fransikus* vott manngæðsku sinnar. *Karl* og *Rósetta* voru með honum á kvöldum, þá er hann hafði lokið dagsverkinu og hresti sig á skemtigaungum utan borgar. Húsasmiðurinn gamli gladdist af þakklátsemi lærisveins síns, hann stærði sig optlega af, að hafa vakið fyrstur slíkar gáfur, og þóttist hafa sagt það laungum, að *Fransikus* yrði mikill maður, en *Karl* og *Rósetta* bættu þessu við: "og undir eins góður maður; því þó hann sè kominn svona hátt í heiminum, gleymir hann samt eigi okkur.

Vinir *Fransikus* fengu honum meiri sælu, enn demantarnar honum *Pètri*.

Það var einn dag, að *Fransikus* var falið á hendur að draga upp bustarprýðina

á musteri einu gömlu í rústunum eptir *Herkúlanum.* Þegar hann var kominn að grafarmunnanum*) og ætlaði að síga á reipi ofan að inngánginum, heyrði hann skammirnar úr kerlíngu nokkurri, er lètu býsna illa í eyrum, því hún var afar reið. Hann sá þenna kvennskratta álengdar þar sem hún varði brunn einn með illmælum sínum og höndunum reiddum til höggs. Karlar, konur og börn komu þángað með fötur til að sækja vatn í, en hin óða og æra kvinna sinjaði þeim vatnsins og einginn þorði að nálgast hana. Hún ógnaði þeim með annari hendinni, en í hinni hèlt hún ausunni og kvaðst ein eiga brunninn. Nú fóru menn til annars brunns, er eigi var svona vandlega varinn, en heiptarnornin vatt sèr að þeim, er voru viðstaddir og spurði þá með blíðari röddu, hvert hún hefði ekki átt rètt á að haga sèr svona og sinja mönnum vatnsins síns.

„Eg, sem á brunninn", sagði hún við

*) *Herkúlanum* liggur, eins og áður var getið niðri jörðinni, hefir borg þessi fundist með því að grafin var gröf ein djúp eða brunnur ofaní jörðina.

*Fransikus*, er virti hana fyrir sèr á þann hátt, sem penturum er vandi til, „eg, sem á brunninn, verð að vera rèttlát á þessum neyðarinnar tíma og spara vatnið handa mèr og mínum, það er ekki of mikið handa oss. Síðan í fyrri vikunni hefir vatnið þrotið svo mjög í brunninum, að maðurinn minn hefir orðið að lengja reipið á degi hverjum, og fari þessu fram, verður bráðum einginn dropi eptir í brunninum." „Einsog hèr umkríng í sveitinni", mælti vinnumaður einn; hann nefndi marga brunna, sem voru þornaðir upp, og millnumaður einn staðfesti þetta, því milnan hans var hætt að gánga sökum vatnsleysis.

*Fransikus* íhugaði þetta mál, og minntist þess, að faðir hans hafði sagt honum einhverntíma frá líkum atburðum í náttúrunni, sem höfðu átt sèr stað litlu áður enn *Vesúvíus* gaus. Við sama tækifæri hafði faðir hans einnig sagt honum, að betri væri skynsamleg framsýni, enn blint traust á hamíngjunni. Enda þótt allir þeir, sem voru viðstaddir, gjörðu gis að honum þá er hann lèt á sèr merkja óttann, þótti honum samt

forsjálast að síga eigi þann dag niður í *Herkúlanum.* Þá er hann sjálfur hafði hyggt að nokkrum brunnum, þar er vatnið var auðsjáanlega komið að þrotum, og að vatnsmilnunni, skundaði hann heim til foreldra sinna og sagði þeim frá hvar komið var og bað þau forða sèr og fjarlægjast hinn hræðilega nágranna *(Vesúvíus)* og hafa með sèr það er þau ætti fèmætast. Nú sögðu einnig aðrir innbúar *Resínu,* að þeir hefði heyrt undarlega dýnki og skruðnínga, þá er þeir undanfarinn dag störfuðu í víngarði einum, er lá ofar í fjallinu enn þorpið, að þeir hefði sèð reykum snögglega ljósta upp úr jörðunni í grend við þá, og að þeir hefði samstundis orðið varir við dýnk áþekkan bissu-skoti.

Allir hlýddu með mesta athygli á undur þessi; en svo er vaninn ríkur eður vonin óhvikul, að allt gángi vel, ef lengi hefir eigi út af brugðið, að bæjarmenn sögðu um síðir: „o, það er öllu óhætt!"

Foreldrar *Fransikus* voru hyggnari enn nágrannar þeirra og foru á fund ættíngja sinna, er bjuggu nokkrar mílur vegar frá

*Vesúvíus*, og höfðu með sèr allt lausafè sitt.

*Fransikus* hljóp til lystigarðsins þar er velgjörðamaður hans bjó. Bœrinn stóð hætt mjög og rètt hjá „*Torre del Greko*," liggur þorp þetta við rœtur fjallsins. Hann skírði *Jóni* frá öllu, því er hann hafði heyrt, en *Jón*, sem ekki var vanur við að lifa eins óvarlega og *Resinu*-menn í grend við eldgjósanda fjall, flutti þegar húsbónda sínum tíðindin. Svo bar undir að greifi *F*.... og kona hans, voru komin á bœinn og brostu þau að hræðslunni í *Jóni*, þau hirtu eigi um fyrir sakir tíðinda þessara, að forða sèr og fara til *Nýborgar*. Greifakonan hafði efnt til veizlu, er halda átti nokkrum dögum síðar, og gat því með eingu móti fengið af sèr, að láta hana farast fyrir, en forsjáli Einglendíngurinn fór þegar af stað. Hann forðaði sèr eigi of snemma, því að næsta morgni varð sá atburður, er einginn fær skírt frá með orðum.

Á svæði, sem var hèrumbil þíngmannaleið ummáls, sáu hinir ógæfusömu innbúar „*Torre del Grekos*" eignir sínar eyðast

af eldgosinu upp úr gjánni. Bœr *F....s* greifa ásamt nokkrum öðrum stóð óskaddaður, en þó umgirður á alla vegu af grjótflóðinu. Þau greifinn og kona hans höfðu orðið að flýja um miðnætti og búast til ferðar hið hraðasta þau máttu, en það var eigi án lífsháska, og höfðu þau neyðst til að skilja eptir gull sitt og gimsteina. Nokkrum dögum eptir eldgosið storknaði þannig hraunið og kólnaði, að menn máttu gánga á því, þótt enn væri afar heitt undir yfirborðinu. Margir hvurfu nú aptur til átthaga sinna til að bjarga fèmunum þeim, er kynnu að finnast í rústunum; en aumíngjarnir urðu þess varir, að ræníngjar höfðu tekið allt fèmætt úr húsunum, og hagnýtt sèr þannig neyð annarra til að auðgast á.

„Hafi greifinn yfirgefið bœinn sinn, og ef eínginn gætir eigna hans, þá verður búið að hirða allt fèmætt í húsunum hans à morgun", sagði húsasmiðurinn gamli við ***Fransikus***, er nú var kominn til að skíra honum frá hvar komið var fyrir ***Resínu***mönnum. ***Fransikus*** skundaði þegar til borg-

arinnar til að vara greifann við annari nýrri hættu, en *Jón* kom til dyra bleikur sem nár. „Veiztu, í hvaða óefni nú er komið? það er úti um *Resínu*." — „Hefir fjallið spúið á ný?" — „Nei, en bœrinn springur í lopt upp. Litt' á!" mælti hann, og benti á mann einn náfölan og titrandi, „þessi maður hefir skilið eptir í húsum greifans púður og skotelda-ahöld, er við átti að hafa til að prýða með veizluna. það er nóg, að einúngis einn neisti komist að því, þá er allur bœrinn í loptinu."

*Fransikus* tafði nú ekki lengur, og ekki hafði hann orð á áformi sínu, en hann fór hið hraðasta hann mátti til bœjar greifans. Með mestu naumindum komst hann yfir hraunið, er lá umhverfis bœinn. þá er hann að lokum komst að bœnum, lèt hann alla eldfima hluti, er hann fann, í vatnsfötu eina, er hann hafði haft með sèr, og komst hann nú heppilega heim aptur með byrði sína gegnum hraunið, er enn þa ekki var algjörlega kólnað. En hversu mikill var eigi fögnuður aumíngja eldskotamannsins þá er hann sá aptur *Fransikus*! Greifinn þakk-

adi honum og með mörgum orðum fögrum, því hann hafði talið bœinn sinn af. *Fransikus* hafði eigi einúngis bjargað bœ greifans með hugrekki sínu heldur og að öllum líkindum, þorpinu *Resínu.*

„Eg þakka yður, ágæta úngmenni", mælti greifinn, „eg vona, að eg geti vottað yður þakklátsemi mína með öðru enn orðunum tómum. Þèr hafið sagt mèr, að hætt sè við, að ræníngjar muni taka allt fèmætt úr bœnum mínum; gjörið nú allt, sèm í yðar valdi stendur til að gæta bœjarins, það, sem þèr bjargið, eigum við báðir saman.

„*Bravó! Bravissimó*"!*) sagði einhverr, sem *Fransikus* þóttist þekkja á mælinu, hann þóttist þekkja svip þess, er talaði, en hann gat eigi komið fyrir sig, hvar hann hefði sèð hann. Jafnskjótt og greifinn gekk út úr herberginu, nálgaðist hinn ókunni maður *Fransikus* og tók til orða á þessa leið:

„Hvernig stendur á því, að þèr þekkið mig? Það er nú eitt ár síðan eg kom út á yður tárunum."

*) Þannig œpa Ítalir þegar þeim líkar eitthvað mæta vel.

„Út á mèr tárunum?" sagði *Fransikus* brosandi. „Enn hefi eg ekki fellt svo mörg tár, því híngaðtil hefir mèr eigi gengið svo mikið á móti." — Vallendíngurinn hafði nú upp nokkrar vísur.

„Æ! nú kannast eg við yður, þèr eruð hann *Dóminikó*, er sagði okkur söguna af *Haraldi* hinum þakkláta".

„Sá hinn sami, en þó betur búinn. Hamíngjan hefir verið með mèr; fáeinar vísur, er eg kvað um *Fransikus* greifa, þá er hann var dottinn af hestsbaki, komu mèr í mjúkinn hjá honum. Greifinn er minn verndareingill, hann hefir tekið mig að sèr; eg hafði ort drápu um konuna hans á afmælisdegi hennar; það átti að búa til lag við hana, en nú verður ekkert af neinu fyrst þessi undur gjörðust. En eg vona að mennirnir verði nú ekki lengur höfuðærir fyrst fjallið er hætt uppköstunum, og eigi skal eg gleyma, að gjöra afreksverk yðar heyrum kunnug, því enn reika eg umkríng síð kvölds í tötrum mínum meðal fólksins til þess að skemta því með sögum mínum." Það var orð og að sönnu, því hið sama kvöld sagði

hann frá öllum hinum nýorðnu atburdum í fögrum ljóðum. Margir af vinum *Fransikus* frá ávaxta-torginu vóru meðal áheyrendanna; þá gladdi mjög lofid, þad er *Fransikus* bar úr býtum og endurkváðu það með miklum fögnudi. „Látið mig komast fram! hvaða óttaleg þreyngsli eru hèrna"? mælti maður einn, er ruddi sèr til rúms með báðum höndum. Á eptir honum gekk únglíngur nokkurr, er nam staðar í sama vetfángi sem *Fransikus* var nefndur. „Heyrðu, karl-kind! gat eg sagt betri sögu enn þá, er eg sagða um Harald hinn þakkláta"? mælti *Dóminikó*, og horfði framaní únglínginn. „Þú ert sá hinn sami, er ætlaði að stela frá mèr hattinum mínum í fyrra sumar. Lofaðu mèr því og mundu mig um það, að láta hann liggja kyrran, ella færðu eigi að heyra söguna um afreksverk herra *Fransikus*, er hann gjörði á bœ *F*.... *s* greifa"

Únglíngurinn hafði upp eptir honum: „herra *Fransikus*" með nokkurskonar fyrirlitníngu, „gott og vel, látum oss heyra, hvað þèr getið sagt um hann. Hattinum yðar er öldúngis óhætt."

„Já, með sanni má eg kalla hann, herra *Fransikus*, því hann verður innan skamms tíma flugríkur maður."

„Flugríkur maður"? spurði únglíngurinn, „blessaðir veri þèr, segið mèr hvernig það má verða! Lesendur góðir! yður grunar án efa að þessi únglíngur muni vera hann gamli *Pètur*."

„Greifinn hefir heitið", mælti *Dóminikó* að gefa honum mikinn hluta dýrgripa þeirra, sem geymdir eru í bœnum, ef hann geti bjargað þeim. *Fransikus* ætlar ásamt þjónustumönnum greifans að verja gersemarnar fyrir ræníngjunum, sem eigi skirrast við að fèfletta aðra menn og svipta þá þeim hinum fáu munum, er eldurinn hefir skilið þeim eptir."

„Komdu", sagði maðurinn, er *Pètur* var með, „komdu, nú höfum við fengið fullnóg að heyra okkur til handa"!

Þessi maður hafði framið glœpinn, þann er *Dóminikó* lastaði svo mjög áðan; hann hafði gjörst kunníngi *Pèturs* á hans (Pèturs) „góðu" dögum. *Pètur* hafði eigi líkað sèr við, að hafa í frammi vondan lifnað þar sem

hann var eigi ennþá orðinn uppvís að stuldinum. Ræníngimn hafði naumast heyrt sögu hins óforsjála *Dóminikó*, áður hann ásetti sèr að ræna dýrgripunum.

„Það þykir mèr sárast, ef hann *Fransikus* verður að gæta bœjarins"!

„Hverr er þessi *Fransikus*, er þèr tekur svo sárt til?"

„Það er únglíngur nokkurr á aldur við mig, vænsti piltur og ráðvandasti. Vinnumönnunum getum við mútað, en það er ekki að hugsa til, við getum fengið hann ofan af því, sem hann heldur að sè rètt og skylda."

„Ef hann vill eigi verða til með góðu, þá skal hann mega til með illu," mælti ræníngim; ef við heitum honum meiru af dýrgripunum enn greifinn, þá mun hann varla verða sá heimskíngi, að þiggja eigi slíka kosti."

„Nei, eg hefi þekkt hann frá blautu barns-beini. Látum oss heldur freista hamíngjunnar annarsstaðar."

„Hvergi nema þar," kvað þrælmennið og sór dýran eið, „eg hefi nú einusinni fast-

ráðið það, og þú munt þó ætla að hlýða foríngja þínum? Ertu buinn að gleyma, hvernig fór fyrir þeim, sem hikaði sèr í gær"?

Hann átti við mann einn, er drepinn var af fèlögum sínum, af því hann vildi eigi fremja glœp þann, er óbótamaðurinn, foríngi hans, hafði boðið honum að vinna. Ekkert ofríki er viðurstyggilegra enn það, er vondir menn hafa í frammi við hina úngu, sem hafa gefið sig á vald þeirra. *Pètur* titraði af ótta fyrir hótunum höfðíngja síns og kvaðst mundi hlýða. Þeir vörðu nú fyrri hluta dagsins til að fá 2 af vinnumönnunum, er áttu að fylgja *Fransikus*, í lið með sèr, og kom þeim ásamt, að þeir skyldu ljúka upp dyrunum undir lágnættið og binda hendur og fœtur á *Fransikus*, medan ræníngjarnir hirðtu gersemarnar.

„Hann kvað vera sprækur," mælti foringinn til fèlaga sinna, „en við höfum þá daggarða. Þú bliknar, *Pètur!* hefirðu nú gleymt, hvað eg sagði þèr áðan?"

*Pètur* svaraði eingu, en fèlagar hans afsökuðu hann með því að hann væri ennþá

viðvaníngur. Foringinn leit til hans reiðuglegur og bauð honum að hitta þá að náttmálum hjá gamla gyðínginum.

Nú fèll *Pétri* allur ketill í eld. "Hvernig er eg orðinn? hvað ætla eg að gjöra? heyrðist mèr rètt, þá var minnst á daggarða? — *Fransikus*, æ, *Fransikus*, frómi, ráðvandi, göfuglyndi *Fransikus!* það er sem eg sjái augun þín, þá er þú rèttir vínberjakerfið fram yfir höfuð mèr og eg sat einmana á sjávarströndinni, yfirgefinn af öllum mönnum. Og nú — hvaða vini á eg núna? ræníngja og" — morðíngja gat hann eigi nefnt; hann hugsaði ekki um annað enn daggarðana, og því meir sem hann gjörði sèr athæfi sitt greinilegt, þess meiri hryllíngur kom yfir hann. Hann efaði eigi, að þeir myndi myrda *Fransikus* ef hann byggist til mótvarnar. *Pétur* átti eingan vin, er hann gæti leitað ráða til; fyrir fáum vikum var hans óráðvandi faðir kominn undir grœna torfu. Ráðþrota reikaði *Pétur* fram og aptur á strætum borgarinnar; dagurinn leið að kveldi, húgarángrið þróaðist, en óttinn fyrir foríngja hans bar hærra hlutann, hann

gekk til gyðíngsins, en hann var sá hinn sami maður, er hann forðum ætlaði að selja krossinn, þenna kross, er var upphaf þessarar hans ógæfu. *Pétur* gekk inn um bakdyrnar, en þaðan láu dimm gaung út í búð gyðíngsins; honum var hleypt inní herbergi nokkurt, er sneri inn að húsagarðinum, en sem þó lá rètt við búðina. Enn var eigi neinn kominn af ræníngja-flokknum; hann beið lengi og að lokum gekk hann út í búðina; var þá gyðíngurinn að kaupa púður af manni nokkrum.

"Eg neita því ekki, það hefir vöknað," mælti aðkomumaðurinn, „en það hefir verið vandlega þurkað. Eg segi yður öldúngis satt, því nú verða eigi svo bráðum við hafðir skoteldar. Fyrir nokkrum dögum átti eg efni í fagra eldhnetti, er eg ætlaði að hleypa í lopt upp á afmælisdegi konu *F....s* greifa."

„Hvað kemur til," spurði *Pétur*, „þèr starið svona á mig"? Hann ímyndaði sèr að maðurinn hefði horft á hann í því hann nefndi greifakonuna.

„Eg veit ekki til, eg hafi horft á yður,

eg hugsaði einúngis um skoteldana mína; en nú þegar eg virði yður fyrir mèr og heyri málróm yðar, minnist eg að hafa sèð yður — það er nú lángt síðan — og furðar mig éigi þó þèr hafið gleymt kvöldinu, þá er eg skaut óheilla-eldhnöttunum og vagn konu einnar valt um koll."

*Pètur* gjörðist nú svo skelkaður, að hann stóð eins og á nálum, og kvað sig að eins reka minni til þess.

„Vera má, þèr hafið eigi heyrt, að konan týndi þá stórum demantakrossi, er aldrei fannst síðan. Það er nú stutt síðan eg fèkk að vita, það var kona *F....s* greifa, er varð fyrir óhappi þessu.

„Það er mèr", mælti *Pètur*, „með öllu ókunnugt;" en svo mikið fát var á honum, að eldskotamaðurinn tók eptir því, og nú þögnuðu þeir um stund. Hinn kœni gyðíngur gjörði sèr far um að fá ókunna manninn til að tala um púðurkaupin og greiddi honum þegar hið ákveðna andvirði og vildi þannig koma honum sem skjótast á burt. En það var eigi svo hægt sem hann hugði; grunsemd aðkomumannsins var nú einusinni vökn-

uð og tortryggni hans um *Pètur* þróaðist meir og meir, en *Pètur*, er vissi upp á sig glœpinn, stóð þar grafkyrr eins og sakfelldur óbótamaður.

Aðkomumaðurinn tók nú þannig til orða: „mig lángar til að skoða betur klútana, er þèr sýnduð mèr áðan, eg kann að geta komið þeim út hjá stúlkunum fyrst þeir eru svo skrautlegir og ódýrir;" en meðan hann átti tal við gyðínginn, gaf hann *Pètri* að öðruhverju hornauga. Þegar aðkomumaðurinn gekk að lokum út úr búðinni, fór *Pètur* á eptir honum, því hann hèlt sig vera orðinn beran að stuldinum. Hann tók í hendina á manninum og mælti: „eg verð að tala við yður fáein orð."

„Seigið þá, það er yður býr í brjósti"!

„Ekki hérna, það sem eg verð að segja yður, má einginn annarr heyra. Komið með mèr hèrna inn í myrkva rángalann í húsinu! Ætlið þèr ekki ad fara til greifans? er ekki svo"?

„Já, þángað ætla eg að fara, því greifakonunni þykja fallegir klútarnir, og býst eg við, hún kaupi einhvern af þeim."

*Pètur* þóttist sannfœrður um, að hann myndi koma upp um sig stuldinum. "Heyrið mèr, eg hefi fundið krossinn, og ef greifinn fyrirgefur mèr, þá get eg orðið honum að miklu liði. Fjórir menn, vopnaðir ætla að ræna bœinn hans í nótt; þeir hafa hótað að drepa mig ef eg fœri eigi með þeim, meira ætla eg eigi heldur að gjöra. Eg gef mig á greifans vald. Hlaupið hið hraðasta til hans, því nú er hver stundin dýrmæt."

Maðurinn skundaði til greifans, er þá var í *Nýborg* og skírði honum frá, hvað hann hefði heyrt. Nokkrir af þjónum hans höfðu fylgt konu hans til fjarlægs staðar, en Eingléndíngurinn bauð honum þá *Jón* til hjálpar. *Jón* herklæddist skjótt þegar hann heyrði að *Fransikus* var hætta búin, og var þegar seztur á hest sinn áður enn hinir tóku vopn sín; en hann varð að bíða þartil embættismènn, þeir er skipaðir eru til að viðhalda reglu og siðsemi á strætum borgarinnar, yrðu kallaðir honum til liðveizlu, og þar að auk var ennþá ofsnemt að fara af stað. Nú þegar allir vòru búnir til ferðar, riðu menn af stað og komu til bœjarins í sama bili sem hleypt

var af smábissu. Ræníngjarnir höfðu brotist inn í bœinn, — ræníngjaforínginn hafði skotið á vesælíngs *Fransikus*; en *Fransikus* hafði látið í ljósi slíkt hugrekki, að hann hætti lífi sínu til að gæta þess, er honum hafði verið falið á hendur til varðveizlu. Það hafði eigi kviknað í púðrinu, því bissan var hlaðin með vota púðrinu, er gyðíngurinn hafði keypt og selt aptur ræníngjunum sem óskemda vöru. *Jón* og fèlagar hans brutust inn í húsið og báru ræníngjana ofurliði. *Jón* tók innilega í hönd *Fransikus* og varð þess bráðum vísari, að hann var særður í handlegginn, en *Fransikus* fölnaði sökum þess, hann sótti blóðrás og ómeigin.

„Sár mitt er víst eigi mikið, eg hefði getað forðað mèr ef eg hefði gætt mín betur; en er mynd ein, sem eg átta einga von um að sjá hèr, bar fyrir mig, fèllst mèr hugur; einn af skálkum þessum stakk mig í handlegginn meðan eg stóð grafkyrr og starði á myndina."

„Æ, fœrið mig í fjótur og dýblissu, eg er orðinn leiður á lífinu, eg er hinn mesti glœpamaður, eg verðskulda ekki að lifa leng-

ur.” Þannig mælti *Pètur* til rèttarins þjóna og rètti framm um leið hendurnar, að þeir skyldi binda þær.

Næsta dag var hann færður í dýblissu, og þá er hann gekk á strætum borgarinnar, mættu honum margir menn, er þekktu hann á ýngri árum.

„Svona fer”, sögðu þeir, „í æskunni var hann vaninn á að svíkja, þetta er nú orðið úr honum.”

Hann varð að sitja heilt ár í dýblissu, ræníngjaforínginn og fèlagar hans voru dæmdir til æfilángrar þrælkunar, en gyðíngurinn var gjörður útlægur.

Sár *Fransikus* grèri skjótt, *Jón* batt þau, en *Karl* og *Rósetta* hlynntu að honum.

„Sonur minn góður”! mælti faðir hans, „fyrst þú mátt gánga út, þá verður þú nú að sjá nýa bæinn minn.”

„Nýa bæinn þinn?”

„Já, sonur minn, prýðilegan bæ og fagurt land umhverfis, en sem þó liggur nógu fjærri fjallinu *Vesúvius*. Gettu, hverr hefir gefið mèr hann! Eg fèkk hann af því eg á vænan son.”

„*Karl* tók málinu fyrir og mælti: ”já, innbúarnir í *Resínu* og „*Torre del Greko*”, er þú bjargaðir með hugprýði þinni, fóru á fund hertogans og skírðu honum frá afreksverkum þínum, en konúngurinn ákvarðaði

að faðir þinn skyldi eignast bœ þenna, auk þeirrar skaðabótar, er hann og aðrir bœndur fengu, sem mist höfðu eigur sínar í eldgosinu, af því þú hafðir bjargað svo margra manna eigum."

Greifinn efndi heit sitt: *Fransikus* fèkk að gjöf svo mikið fè, sem svaraði helmínginum af dýrgripunum, er hann hafði bjargað í lystigarðinum. Hann skipti peníngunum millum foreldra sinna og húsasmiðsins, er fyrstur manna hafði kennt honum ad stýra blíantinum. Þareð *Jón* vildi ekkert þiggja, fœrði *Fransikus* honum uppdrátt, en það voru pentuð aldin.

„Mèr líkar hann undur vel", mælti *Jón*, en meira þœtti mèr til hans koma ef melónan sýndist vera sködduð. Fyrir þremur árum ætlaði eg að kaupa hana, þú varst þá ofurlítill drengur, en þó hefir þú jafnan verið sjálfum þèr líkur. Góð byrjun lofar góðum enda. Ráðvendnin er vitinu betri! nú ertu búinn að sýna hvern mann þú hefir að geyma."

„Já," mælti faðir hans, „nú hygg eg það fullreynt, að hinum kœna *Pétri* hafi eigi reiðt betur af enn hinum ráðvanda *Fransikus*."



# SKRİFREGLUR.

---

## 1.

### *Um skrift yfirhöfuð.*

*Vèr getum eigi að eins mælt á eina túngu eður látið í ljósi hugrenníngar vorar með heyranlegu og aðgreindu hljóði, heldur og einnig með sýnilegum myndum, er kallast: stafir, eður með því að skrifa. Þareð vèr sakir fjarlægðar eður annara orsaka eigi getum skírt öðrum munnlega frá því, er vèr þurfum að láta þá vita, og þareð frá mörgum hlutum verður betur sagt skriflega enn munnlega, og að lokum þareð það, sem er skrifað, verður betur munað enn munnleg ræða, þá er skriflistin yfirhöfuð mikilvæg og mjög áríðandi. En eins og hvað annað hefir lögmál, sem það verður að hlýða, eins á skriflistin reglur, sem hún er bundin við.*

## 2.

### *Greinir skriftarinnar.*

*Til eru 3 greinir skriftarinnar: ein snertir myndan stafanna, eða vöxt þeirra; önnur við-*

*víkur stafsetníngunni, og hin þriðja snertir aðgreiníngar-merkin.**)

### 3.

## *Nöfn ýmislegra handa.*

*Flestöll túngumál eiga sèr einkennilegar stafamyndir, t. a. m. ízlenzka málið, þar er þornmyndin, áin, íin, óin og úin með broddinum yfir, sem eigi tíðkast í öðrum málum. Mörg mál hafa sèr eiginlegan búníng; þannig er latínumálið íklætt rómversku letri; gríska grísku letri; hebreska hebresku letri o. sv. frv. Íslendingar, Norvegsmenn, Svíar, Danir og Þjóðverjar hafa margskonar letur: t. a. m. settletur, snarhönd (kasthönd) eður latínuhönd og fljótaskrift. Bretar, Frakkar, Spánverjar og Ítalir og fl. brúka latínuletrið næstum eingaungu. Skrifletrið er í því frábrugðið prentletri, að það hallast frá vinstri til hægri handar eður að minnsta kosti meir enn prentletrið, og í því að það verður skrifað miklu hraðara.*

---

*) *Hvað stafsetníngu viðvíkur og aðgreiníngarmerkjum verð eg að skírskota til Lestrarkvers Professors Rasks, er hverr maður ætti að eiga.*

## 4.

## *Um uppruna vorra stafamynda.*

*Stafamyndirnar hafa eins og aðrir hlutir í heiminum verið umbreytíngu undirorpnar. Þannig hefir* latínu-*letrið, er Rómverjar höfðu fengið frá Grikkjum og lagað eptir máli sínu, upphaf settletursins, gotneska letursins, snarhandarinnar og fljótaskriftarinnar. Á Íslandi tíðkuðust fyrst rúnir, skornar í trè, og rúnakeflin voru þar enar fyrstu bækur; skriflistin hófst þar fyrst eptir það kristni var lögtekin í landinu ár* 1000*; hafði hún breiðst út með kristninni um mestan hluta norðurálfunnar. Þjóðirnar, hver um sig, löguðu nú latínska stafrofið eptir eðli túngna sinna, og ýmist fjölguðu stöfunum í stafrofinu, eða fækkuðu þeim. Múnkarnir, er fyrstir skrifuðu bækur, og einstakar þjóðir, breyttu þannig stafamyndunum, að prentletur vort, snarhöndin og fljótaskriftin urðu til smámsaman eptir sem tímarnir liðu fram. Flestallar mentaðar þjóðir hafa nú latínuletrið annaðhvort eingaungu eða að minsta kosti í vísindaritum þeim, sem ætlað er til að breiðist út um víða veröld. Þykir það snotrara enn gotneska letrið, og einfaldara, og hentugast, af því það er læsilegt í allri kristninni.*

## 5.

## *Hvað það sè að skrifa vel.*

*Að skrifa vel eður fagurlega, er að mynda stafina samkvæmt þeim reglum, er samsvara fegurðar-tilfinning mannanna. Að sönnu er þessi tilfinning meir eður minna komin undir tímanum, þeim er skrifarinn lifir á, því nú þykir það á annan veg, er áður þótti fagurt. Skrifsnildin er einsog hver önnur list komin undir reglum; menn verða að læra hvernig dráttur stafanna á að vera lagaður svo þeir þyki fagrir, og hvernig þeir eiga að tengjast saman svo vel fari á. Nú af því skriffegurðin miðar meðfram til þess, að aðrir menn eigi hægt með að lesa það, sem vèr höfum ritað, þá útheimtist ekki einúngis, að dráttur stafanna sè skír og hreinn, heldur og að samtenging þeirra sè skilmerkileg og þaraðauk þægileg fyrir augun; en slík hönd er þá löguð eptir almennustu reglum skriffegurðarinnar.*

## 6.

## *Um kosti skriffegurðarinnar.*

*Þegar á allt er litið, komast menn að raun um, að skrifkunnátta tekur öllum öðrum listum*

*fram í alþjóðlegri nytsemi. Skriffegurðin ber eigi að eins ljósan vott um, að fegurðartilfinning skrifarans sè þegar vöknuð, heldur og einnig getur hún glæðt hja öðrum tilfinninguna á því, sem er fagurt og vel á við. Mönnunum er svo eiginleg tilfinníngin á því sem er fagurt og vel sæmandi, að þeir dvelja með velþóknan við það, sem hefir ununarfull áhrif á augu og eyru t. a. m. við indælan saung og fagra uppdrætti, en hverfa fullir af viðbjóð frá ófögrum, laglausum og tilgerðarlegum saung og frá allskonar hlutum, er bera með sèr smekkleysi og vankunnáttu. Það er og kostur skriffegurðarinnar, að menn eiga hægra með að lesa viðstöðulaust og skilja það, sem vel er ritað og skilmerkilega, enn skrift þá, sem eigi er annað enn hlikkir og rófur og hringir. Vèr erum því skyldir til, sökum vorrar eigin og annarra fegurðartilfinníngar, að rita, að minnsta kosti læsilega hönd og þokkalega. Að öðru leiti krefur sú virðing, er oss ber að auðsýna öðrum mönnum, sem eiga að lesa skrift vora, að vèr leysum hana svo vel af hendi, sem oss er unnt, og að ver látum eigi það, sem mætir fyrir vora munnlegu ræðu, eður það sem, svo að segja, er fulltrúi hennar, byrtast í ódsjálegum búníngi. Auk þessa hefir reynslan sýnt, að skrifsnild hefir eingu síður enn hver önnur list, aflað mönnum ýmsra hagsmuna og góðrar atvinnu.*

## 7.

### *Einkenni skriffegurðarinnar.*

*Menn geta sagt yfirhöfuð, að skriftin sè fögur, þegar mynd stafanna, hvers um sig, og samband þeirra, er orðin verða til við, og greinir og línur eru lagaðar eptir stöðugri reglu.*

## 8.

### *Mynd stafanna.*

*Mynd skrifleturs stafanna er fyrst komin undir hverjum einstökum drætti, þarnæst undir sköpulagi þeirra eður lengd og breidd. Fyrst þessu er svona varið, verða hinar almennu reglur, er hèr að lúta, þannig:*

1. *Hverr stafur verður að vera myndaður til fulls til þess hann geti aðgreinst frá öðrum, sem eiga líka drætti. Eingum hluta hans má því sleppa, eigi svo miklu sem stíng (.) eður broddi (')*
2. *Allri óþarfa prýði, hríngum og hornum, ber að útrýma, því skriftin verður að öðrum kosti miðnr læsileg og fegurð hennar fer þá að forgörðum. Hverr stafur á miklu fremur að vera svo óbrotinn, einfaldur og liðlegur, sem orðið getur.*

## 9.

## *Um magra og feita drætti.*

*Aðaleinkenni skriffegurðar er í því fólgið, að hverr stafur sè mátulega magur og feitur. En hvar stafirnir eiga að vera magrir eða feitir, lærist við tilsögn og nákvæma myndan stafanna eptir stafrofinu, en í rauninni segir sjálfur pennadrátturinn bezt til, hvar náttúrlegt sè að gjöra stafina magra eður feita. Þannig verður sá hluti stafanna, er skrifast uppávið, magur, en hinn feitur, sem dreginn er niðrávið.*

## 10.

## *Um lengd stafanna.*

***Enda þótt gefa megi reglur um, hve lángt upphafsstafirnir og hinir smærri laungu eigi að ná upp úr og niður úr línunum, þá verda samt augun og tilfinníngin á því, sem vel fer á, optastnær að skera úr þessu. Þannig eiga smáu snarhandar stafirnir:*** a, (c) e, i, m, n, o, r, s, u, v, x, z, æ, ö ***að vera hverr á borð við annan að lengdinni til; stafirnir:*** b, d, ð, h, k, l ***eiga að vera næstum tveimur þriðjúngum hærri enn þeir smáu en*** t ***að eins helmíngi hærra; stafirnir:*** g, j, p, (q) y ***eiga að sínu leiti að ná eins lángt niður úr línunni og hinir ná upp úr henni; en hinir fyrri eiga að vera á borð við efra hlutann á:*** *f*, *ſ* og þ, ***og hinir síðari á borð við neðra-***

*hlutann. Í fljótaskriftinni þarámót verða þeir stafir, sem gánga upp eða niður úr línunni að vera hèrumbil þremur fjórðúngum lengri upp eða niður enn smáu stafirnir. Hvað upphafsstafina snertir, þá verður stærð þeirra að vera samboðin stærð smáu stafanna; því sè þeir litlu stærri enn smáu stafirnir, verður skriftin ógreinileg, en sè þeir um of stórir, bera þeir hina smáu ofurliði.*

## 11.

## *Um legu stafanna.*

*Í skrifletri eiga eigi að eins allir stafir, stórir og smáir, að hallast jafnt frá vinstri til hægri handar, heldur verða drættir hvers stafs, hinir mögru, er liggja uppávið, og hinir feitu, er liggja niðurávið, hvorir um sig, að hafa jafnan halla sín á milli. Þareð slíkur halli er samkvæmur handarburðinum verða stafirnir rennilegri og liðugri. Því nær, sem menn halda alboga að hægri hliðinni, þess meir hallast stafirnir.*

## 12.

## *Um skipulega samtengíng stafanna.*

*Allir stafir í orði eiga að tengjast saman á líkan hátt sem kostur er á; enfyrst og fremst mega eigi stafamyndirnar breytast eður skerðast við*

*samtengínguna. Þó eru allmargir upphafsstafir bæði snarhandar og fljótaskriftar, er geta eigi verið áfastir við næsta staf á eptir, en verða að standa lausir framan við hann. Þareð allir stafir sameinast til þess að verða að orðum, eiga bæði hinir stóru og smáu að grípa hverr í annan þar sem því verður viðkomið. Ósamanhángandi stafir í orði rýra fegurð skriftarinnar.*

**13.**

## *Um bilið á milli stafanna.*

*Þótt stafirnir sè tengdir saman, verður samt að vera bilkorn ámilli þeirra. Bilið á að vera jafnt millum allra, og þykir jafnan mátulegt, að það sè ámóta og bilið á milli leggjanna á* **n** *því, sem á heima í hönd þeirri, er þá rita menn.*

**14.**

## *Um bilið millum orðanna.*

*Svo lángt skal vera millum orða, sem* **n** *er breitt til; standi aðgreiníngarmerki fyrir aptan orð, þa má það eigi vera fjær orðinu enn* **i** *er digurt til; bilið millum aðgreiníngarmerkisins og næsta orðs á eptir skal vera á borð við breiddina á* **n.** *Standi stíngur (.) aptan við orð, skal rita næsta orð svo lángt frá honum sem* **2** n (nn) *eru breið saman.*

## 15.

## *Um tilbreytingu á upphafsstöfunum.*

*Þareð upphafsstafirnir verða skrifaðir á meir enn einn veg, þá má hafa á þeim tilbreytingu í sendibrèfum eður öðrum skjölum, þó eigi um of. Þannig mega stafirnir:* B, F, K, P, R, S, T *vera einsog* Ið *í snarhandar stafrofinu að neðanverðu hríngmyndaðir. Sjaldan er leyfilegt að breyta hönd í sama orði, t. a. m. að brúka snarhandar-stafi þegar menn skrifa fljótaskrift.*

## 16.

## *Um stærð upphafsstafanna.*

*Fyrsti upphafsstafur í sendibrèfum og skjölum má vera stærri og dreginn með meira fjöri enn hinir; einnig er það tilhlýðilegt innaní og utaná brèfum að byrja embættanöfn og metorða með upphafsstöfum í stærra lagi.*

## 17.

## *Að skrifa línurètt.*

*Þótt myndir stafanna sè eigi laglegar eður snotrar, þá lítur samt skriftin vonum betur út þegar línur eru þráðbeinar og einginn stafur stendur ofar eða neðar enn annarr. Línuskekkja óprýðir hverja hönd, hvað fallegir sem stafirnir*

*eru. Til þess að únglíngar læri að skrifa línu rètt, þykir bezt henta, að lagður sè pappír með beinum strikum og feitum undir þann, er þeir skrifa á; strikin sjást í gegnum pappírinn, sem ofan á er, og eru þau nægur leiðasvísir fyrir skrifarann. Síðan má setja stíngi þar sem á að vera upphaf og endir línu hverrar; má þessu frammfara uns únglíngurinn hefir vanið sig á að skrifa línurètt eptir augnasjón sinni.*

## 18.

## *Um línufjarlægð.*

*Hvert línu-bil á að vera jafnt öðru, því stærra, sem menn srifa, þess breiðara verður það að vera og því smærra, þess mjórra. Menn verða að haga svo til, að stafir þeir, sem ná niður úr og upp úr línunum, grípi eigi hverr í annan, en þetta er hægur vandi ef þeir eru eigi látnir standa hverr niður undan öðrum.*

## 19.

## *Um línulengd.*

*Yfirhöfuð eiga línur að byrja jafn framarlega og vera jafnlángar; en þegar hálfu orði eður einu atkvæði verður eigi komið fyrir í enda línu, þá má flytja það í upphaf næstu línu, þá skal og ætíð setja samtengingarmerkið*

(ɛ) *fyrir aptan orðið, það er eigi var fullskrifað. Fyrstu línur í brèfum eður öðrum ritum, sömuleiðis í nýum greinum má byrja nokkuð innar enn hinar línurnar.*

## 20.

## *það er nauðsynlegt, að börnunum sè kend aðferðin til að skrifa.*

*það er einganveginn einhlýtt, þó það sè aðalundirstaða þess, að læra að skrifa vel, að börnin hafi fyrir sèr fallegt eður rèttritað stafrof, er þau geti lagað eptir stafi þá, er þau mynda sjálf, heldur verða menn að kenna þeim hvar þau eigi að taka npphafið á stöfunum, á hvern hátt þau eigi að halda penna og pappír, og hvernig þau eigi að sitja meðan þau skrifa.*

## 21.

## *Um aðferðina að læra vel að skrifa.*

*það er yfirhöfuð nauðsynlegt svo snemma sem auðið er, að kenna börnum að draga til stafs, og er þá bezt að láta þau hafa fyrir sèr snarhandarletrið hið minna, þareð það er einfaldast og brotaminst; vera má líka, það sè óþarfi, að láta þau læra fljótaskrift, því nú er einhlýtt að kunna að eins snarhöndina; enda verður hún skrifuð jafn hratt og fljótaskriftin þegar menn hafa vanið sig á hana. Fyrst verða*

*börnin að læra að byrja rètt stafinn, þvínæst að mynda hann smámsaman með stöðugri aðgæzlu á stafrofinu — en eigi allan í senn, og þegar þau eru orðin nógu fim að mynda smáu stafina algjörlega eptir stafrofinu, er tilhlýðilegt að láta þau fara að spreita sig á upphafsstöfunum og að lokum skrifa þá fríhendis eður halda hendinni lausri við pappírinn, því þarvið eykst liðugleikinn, en stirðleikinn fer minkandi og stafirnir lifna við og verða fjörugri.*

## 22.

## *Um hvernig menn eiga að sitja þegar þeir skrifa.*

*Menn verða að sitja sèr svo hægt og haganlega sem orðið getur. Skrifarinn á að sitja upprèttur enn eigi boginn í baki, með nokkuð niðurlútu höfði, til þess hann sjái vel hvernig hann skrifar. Hvort sem menn skrifa við dagsbirtu eður við ljós, er bezt að birtan komi frá vinstri hendi. Skrifarinn má eigi halla sèr fram á borðið eður snerta það með brjóstinu, því slíkt er mjög hættusamt fyrir heilsuna; ekki má hann heldur krossleggja fæturna. Framhandleggur hinn vinstri liggi allur á borðinu og pappírnum, en hinn hægri að eins til hálfs. Hæð borðsins verður að fara eptir hæð skrifarans; pappírinn liggi beint fram undan honum, þó*

*nokkru meir til hægri handar, því þá er hægast að skrifa línurètt.*

### 23.

## *Hvernig penna skal haldið.*

*Penna skal haldið með þremur fíngrum; þumalfíngri að neðanverðu við vinstri hlið penna, vísifíngri að bakinu, en laungutaung að hægri hlið, þannig að gómurinn nái niður að sniðinu; baugfíngur skal kreppa uppí lófann, en gómur hins minsta fíngurs skal leika um pappírinn. Þegar penna er haldið á þenna veg, beygist höndin nokkuð í úlnliðnum útá við, og verður þá penninn jafnan samsíða (parallel) hægri kinn skrifarans.*

---

## Lökustu prentvillur.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| á | 29 | bls. | þanu fyrir | hann |
| - | 31 | — | skóg — | skógi. |
| - | 75 | — | yður — | ydar. |
| - | 116 | — | síðast — | síðar. |
| - | 131 | — | eitt lítið — | einn lítinn. |
| - | 145 | — | mèst — | mesti. |
| - | 160 | — | lýginn — | lýgin. |
| - | 220 | — | hefir — | er. |



# Yfirlit efnisins.





